# Daglegt
# Qvöld og Morgun
eda
# Viku-Offur,

Er ein trúud sál kann frambera fyrir Gud í hjartnæmum Saungum og Bæna ákalli síd og árla um Vikuna, sérílagi til Qvold og Morgun Húslestra; lagad og samantekid.

---

Selst óinnbundid á Prentpappír 66 ß. S. M.



---

Videyar Klaustri, 1837.
Prentad á Forlag Sekret. O. M. Stephensens,
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

Sálm. XCII. v. 1. 2.

Þad er ágjætur hlutur Drottni þackir ad gjøra, og lofsýngja þínu nafni, þú hinn hærsti! ad morgni þína miskun og ad qvøldi þinn sannleika ad kunngjøra.

# Andvarp um réttskickada bænrækni.

## (Síra. M. E.)

Lagid: Mitt hjarta hvar til hryggist þú,

Ó þú Gud Fadir! Fadir minn! framkém eg ´aumur þetta sinn, enn fyrir auglit þitt, med heita bæn, og hrópid mitt, svo hjartad verdi af sorgunum qvitt.

2. Mig lockar bidja, miskun þín, mjøg þess útkrefur þorfin mín, en gét þó ei bedid, nema þinn Andi leggi lid, lát hann veiknm hjálpa mér vid.

3. Þú kallar mig ad koma til þín, kalla eg aptur nú til þín, ad komir miskun med, og hollast veitir hjalpræd-id, hradt svo lífgist bidjand: géd.

4. Herra! verdugur ei eg er, ad þitt barn heita megi hér, samt skal mín sorga vorn: þín breytir mildin gjædsku-gjorn, sem gódur fadir vid sin born.

5. Heyrdu nú bænar-hrópid mitt! hyl ecki nádar andlit þitt, munnsins ord þóknist þér, fodur hjartad líku sem lér, lát nú opnast bidjandi mér.

6. Ó! hversu fagna eg þá mun, af þinni hjálp og med-aumkun, nær bænheyrslan kémur klar, og álitin merki øll mín tár, af þér, Fadir! miskunnar hár.

7. Jesú ljúfi Lausnari minn! leys upp mín túngu fjot-urin, fíngri almættis med, svo fagurt lof þér fái téd, fylgja lát og bænrækid géd.

8. Lát mín vegna þitt bleisad blód, bænar frambera ordin gód, svo nú fyrir nádar stól, miskun finni, og frid-ar skjól, en fegur renni upp gledinnar sól.

9. Opna himininn yfir mér, án svo hindrunnar minn-ar hér, þrengi sér þar í gegn, oblugt bænar abl og megn, sem útpressast vid táranna regn.

10. Þitt blóð, er minn af-þvoði brest, þíns Föðurs hjarta miki best, svo til mín, sem er téð, sundurbresti mizkun með, og minnist á sitt fyrirheitið.

11. Þar eg kann biðja ei sem ber, árnaðar maður vertú mér, Guðs hægri hendi hjá, syndunum gjör mig fríann frá, með fyllri djörfúng eg beðið get þá.

12. Hrind þú Djöfli og heiminum; hold og blóð með þess gyrndunum, mitt eigið dempa og deyð, svo bæn mín í trúnni gjörist greið, til Guðs í allri þreyngjandi neyð.

13. Heilagi Andi! í hjarta mér, hrópa, nær sem eg biðja fer, svo andvorpin verði heit, án þín er bæn mín einkis neyt, aumum krapt og hjálpræði veit.

14. An þín eg Jesúm ecki kann, ákalla eður nefna hann, minn Drottinn! best sem ber, einn þú verka allt í mér, andagt, tal og hugsanir.

15. Andvarpanirnar allar þú, útpressa af minni sálu nú, húgskotið hreinsa mest, upplýs skilníngin einnig best, á-setníngin góða stadfest.

16. Efl þú vonina einnig með, aukin trúna og þolgæð-ið, efasemd allri hritt, svo hér mín sál og hjartað mitt, húsið bænar æ sé þitt.

17. Bænheyr, bænheyr, bænheyrðu mig, biðjandi í dýpstu auðmýkt þig, hæst þrenníng hjálpar-trygg, á fótskör þinni eg flatur ligg, fram til þíðrar miskunar hygg.

18. Almættið þitt og elskan neyt, einnig þín náðar fyrirheit, sem eru svo ástúðlig, hjartans Faðir! hvetja mig, að hrópa, vona, og treysta á þig.

10. Fyrr enn þú blessan bitir mér, blessaði Guð! eg sleppi ei þér, allt verði innsiglað, er eg, Faðir! um þig bað. Amen, í Jesú nafni! sé það. Amen.





# Viku Sálmar,

Qvednir af

Studioso Þorsteini Sigurdarsyni.

## Morgûn Sálmur á Sunnudøgum.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Skapari ljósšins skjær, skyldt er ad allar þær, sképnur sem skapadir, skipist til hlýdni þér, svo ber og hverri um sig, sífeldt ad lofa þig, og sýngja um þitt nafn, þad enginn sé þér jafn.

2. O mín sál! uppris þú, ei tef vid heldur nú, ei lát þú øllum ver, einsamlri fara þér, sem hefur þó meir þád, þýdri af Drottins nád, heldur enn hitt annad; hverju launar þú þad?

3. O hvad vid erum blind! alltíd vid drýgjum synd, fyrir nád sofnum søk, svoddan greidsla er løk, ó hvad vond íllska er slíkt! ei géldst hér líku líkt, kinnroda mesta má, mér slíkt allann tíd fá.

4. Græt eg því glæpi mín, Guð minn! eg flý til þín, feginn í fullri von, fyrir Jesúm þinn Son. Reiknir þú rángglætið, raunar stendst enginn við; en svo menn óttist þig, er náð þín mildilig.

5. Af þeirri gjæðsku gnótt, gafstu mér værð í nótt, svo ecki sakaði, sótt eda neinn skaði, frá øllu fári og pín, frelstir þú sképnu þín, svo ljósið líta má, lifandi mønnum hjá.

6. Allt gott eg af mér braut, eg sjálfur bjó mér þraut, þú sást mér aumur á, ángist leysandi frá. O! hvað er einnsonmanns, að Guð svo minnist hans? Hvern dag er náð þín ný, nóg kann ei metast því.

7. Drottinn minn! dýrd sé þér, daglega søgð af mér, þín lofgiørd þrotni síst, þitt vald er stødugt víst, almáttugur þú ert, allt hefur þú vel gjørt, hver dagur hermir það, hyggi menn rétt þar að.

8. En þessi einna mest, á hverjum þrenníng best, almættis ordi með, af engu skapa réð, dags-ljós, hvert deildi þá, dymmum myrkrum í frá, þannig kom þessu í lag, þann fyrsta viku dag.

9. O Jesú! eg bið þig, að geyma jafnan mig, og leiða ljóssins veg, lifa svo megi eg, að synda myrkrin svørt, sjónhvørf mér fá ei gjørt, sértu mitt sálar ljós; sæla, vernd, hlíf og hrós.

10. Dýrdlegur dauðúm frá, dags þessa morgni á, uppreis fyrir almátt sinn, Endurlausnari minn, svo vek mig syndum af, síðan þinn vønd og staf, hugga lát hjartað mitt, og halda við boðorð þitt.

11. Orð þín sem í dag þú, oss lætur kénnast nú, géf að eg géti rétt, í góðu hjarta rótsett, að færi ávørt þann, er þér vel líka kann, þinni náð, þrenníng blíð, þjónandi lífs um tíð.

12. Eg fel nú allt ráð mitt, undir líknar vald þitt, líkama, líf og sál, líka vit, heyrn og mál; Jesu minn! minnstu mín, mér forða allri pín, aðstoð og Andi þinn, aðstoði veikleik minn.

13. Leið svo fram líf mitt hér, leyfir þú síðar mér, að þakka þinni náð, þjóðanna hjálpar=ráð, í gleði hærstum hag, haldandi Sabbatz=dag, um aldir eilífar; æðst lof sýngjandi þar.

## Qvöld Sálmur.

Lagið: Þér Drottinn þacka eg.

Ljós dagsins liðið er, lofaður sé Guð minn, sem hefur haldið mér, við hjálpar armlegg sinn, og vil þar útaf sýngja, hvað vel þú geymdir þrælinn þinn.

2. Því vil eg feginn fús, að fótum lúta þér, mitt hjálpráð, minn Jesús! meðan eg lifi hér, ætíð skal eg þig prísa, þín lofgjörð sé í munni mér.

3. Þú saddir sál og líf, svo gafst mér raunabót, en varst mín ørugg hlíf, af Satans véla=nót, léstu mig frjálsann fara, vísa lífs gøtu greiddir fót.

4. Avi mig aumann mann! eg hlýt þó játa það, að marga íllsku vann, ei hef þér vel þjónað; forlát það, Faðirinn góði! fyrir þíns Sonar dreyra=bað.

5. Að vísu eg gjarnan vil, vilja þíns gá sem ber, en eg finn opt þar til, orku og framqvæmd þver; Avi mig eymdum hlaðinn! Hver mun af þessu hjálpa mér?

6. Eg þacka þér, minn Guð! fyrir þinn Son Jesúm Krist, af hvers nægð eg féck náð, af náð með betri vist, sem hann mun sínum veita, þá hørmum snýr í fögnuð fyrst.

7. O Jesú! erfð mín best, eg þreyi tídt þinn fund, útlegð full eymda mest, er mín hérvistar stund, ei má hér fulla finna, farsæld á þessa heimsins grund.
8. Frelsa mig, Faðir minn! frá þessum vonda heim, og leið til lífsins inn, loksins frá voða þeim, sem almennt yfir-gengur, flestir virða mest vøld og seim.
9. Grátbeiðni minni gégn, mitt góða hjartans traust; auk mér svo andar mégn, að trúin gjørist hraust, sem eflaust á þig voni, og heyri gjarnan þína raust.
10. Þá stund eg þreya á, í þessum sorgardal, minn Jesú! mér vert hjá, meira ei gyrnast skal; kom, Herra kjær! ei seinka, kalla mig í þinn dýrðar sal.
11. Framar eg bið þig blídt, bevara mig í nótt, svó fordist fárið strídt, fylgd þín mér gjøri rótt, frels mig frá øllu íllu, andar-meinum, neyð, hrygð og sótt.
12. Eign mína alla frá, ólucku vernda best, svo ecki saki uppá, sjálfs þíns gjøf, er þú létst, mig hafa umsjón yfir, blessun þín hana blessi best.
13. Á þig set alla trú, aldrei mig frá þér rek, með svóddan sinni nú, svefnværð og náðir tek, árla mig aptur heilann, en dýrdlegann frá dauða uppvek.

## Morgun Sálmur á Mánudøgum.

Lagið: Á þér Herra hef eg nú von.

Ønd mín, fagnandi upprís þú, og lofa Guð með hug og trú, sem vel þig verndað hefur, af miskun sín, frá eymd og pín, ágjæta frelsan géfur.
2. Eg lá og svaf sem látinn mann, er lið eck-

ért sér veita kann, hann virdtist hjá mér standa, svo óvinar, ei kunnu par, íllskufull svik mér grayda.

3. Drottinn! þú gafst mér lucku og líf, létst mig ei smacka daudáns kíf, ei refstir íllgjørd mína, ó! hverju má, eg þacka þá, gjædsku og gódvild þína.

4. Lofadur sértu, gódi Gud! þú géfur lífs og andar frid, øllum sem á þig trúa, í skjóli þín, fyrir utan pín, ugglaust méigá þeir búa.

5. O Gud! hvad stór þín gjædska er, gét eg þad ecki rétt sem ber, útsagt med mínum munni, þín mildi-verk, mikil og sterk, manns-vit ei skilja kunni.

6. Himnarnir boda þetta af þér, þar um festíngin vitni ber, sem þú í fyrstu settir, í midju þar, sem vatnid var, þennann dag þad útréttir.

7. Herra! þín speki alvís er, ecki neitt verdur heldur þér, ómáttugt ord ad vinna, æru, dýrd, prís, sem æ er vís, allir þér skulu inna.

8. Virdstú mig enn ad vernda í dag, virdstú í nád ad sjá minn hag, vert þú mín festíng frída, í lífi og deyd, vid allri neyd, engu skal þá meir qvída.

9. Misgjørdir forlát mínar nú, af miskun í nafni Jesú, géf mér þær rétt ad gráta, og fordast mjøg, svo mætti eg, um sídir af þeim láta.

10. Olucku og slísum af mér stýr, ædsti Gud! sem í hædum býr, og géf mér lucku góda, blessa allt mitt, sem er lán þitt, og virdst mín verk ad sjóda.

11. Hvad er mín æsi heimi í? ein hoslug reisa, og jafnan því, hiadin med mædu marga, í svoddan pín, hrekst sála mín, sem lamb á medal varga.

12. Hvar vid skal eg þá hugga mig? Herra Jesú! eg treysti á þig, veit ad eg verdi eigi, ad spotti þeim, óvita heim. Leid mig af lasta-vegi.

13. Audsýn mér náð, minn góði Guð! geym mig vel í þinni tjaldbúð, hvar eg mun hólpinn blífa, lát andlit þitt, mér lýsa blídt, svo mun mín sála lifa.

14. Fáráðum sjá mér aumur á, óvina høndum leys mig frá, svo felldann mig ei fái, með véla-møk, og vond samtøk, vild sína ecki sjái.

15. Þú yfirgéfur aldrei þann, er þér af hjarta treysta kann, sú von er sálu minni, sæt. harma bót, sorgum í mót, svo bið eptir hjá.þ þinni.

16. Þú munt eflaust á þinni tíð, þrjóta láta mitt eymda-stríð, og géfa gledi sanna, alls besta nægd, eilífa frægd, á jørd lifandi manna.

## Qvøld Sálmur.

Lagið: Heimsins þjóð í øllum áttum.

Dags ljósið nóttin burtu ber; Guð oss lýsi, og veginn vísi, í villu-myrkrum heimsins hér.

2. Gjædska Drottins mín gjætti í dag, mildilega, marga vega, minn til besta greiddi hág.

3. Skjól þitt mín hlífd og skjøldur var, svo enginn smáði eða náði, øndu minni að granda þar.

4. Vel má eg una þar við því, að dagferð eina, án stór-meina, frammdró mitt føðurland í.

5. Víst mætti þykja vænt um það, ódum líður, ecki bíður, svo snart beri að sæ:u-stað,

6. Þá útlendinga heimsins hér, er synd fljúa, á Guð trúa, til ǽfiloka rétt sem ber.

7. Þig bið eg, sál mín! gløggt þú gá, að því leingra, áfram gengur, þess minna eg eptir á.

8. Við høfum leingi safnað synd; hvar mun lenda, hvern fær enda, holdsins fýsn og lysting blind?

9. Af þeim hver einn skaðsemd uppskér, er svo fylgði, að ecki vildi, lifa Guði í heimi hér.

10. Því er nú komið meir enn mál, íllsku að gráta, og af því láta, er fordjarfar líf og sál.

11. Jeg kém nú til þín, Jesú minn! með ydran sanna, ei mér banna, friðar dýrsta faðminn þinn.

12. Fyrir þig sjálfann sýn mér vægð, læknir meina, lát mig reyna, liðsemd þína og gjæðsku nægð.

13. Fyrst þú hefur mig híngað til, af náð sparað, og bevarað, aldrei framar við mig skil.

14. Forláttu mína miklu sekt, af gjæðsku þinni, og géf eg kynni, síðan varast syndir frekt.

15. Leys mig frá skaða, skømm og neyð, hrygð og vanda, holds og andar, hjálpa mér í lífi og deyð.

16. Eins bið eg þig um þessa nótt, til þín vaki, kalli og qvaki, sál mín, hold svo hvílist rótt.

17. Alittú mig í mildi og náð, hjá mér vertú, hjálp mér sértú, allt mitt blessa efni og ráð.

18. Svo skal hér glaðvær sofna uppá, heilann aptur, Herrans kraptur, að morgni láti mig uppstá.

19. Þér sé dýrð og lof þrenníng blíð, af øllum túngum, søgð og súngin, eins sem hún var allann tíð.

## Morgun Sálmur á Þriðjudøgum.

Lagið: Yfirvald vísa.

Ó hjartans Herra! hygg þó að minni raust, lát þrautir þverra, mitt hæsta hjálpar traust. Árla vakna eg til þín, og vil þess feginn gá, árla virðstú að minnast mín, mér þína aðstoð ljá, að rétt sem bæri, reykelsis fórn eg færi; þér lof segi og

þacki best, þennann dag einna mest. Þér lof segi og þacki best, þennann dag einna mest.

2. Þú mín vel gjættir, þar eg sofandi lá, böl burtu rættir, blídann dag létst mig sjá, Lausnarinn gódi! lof sé þér, líki þinn aldrei sjest, dýrd og vald þitt eilíft ér, øllu stjórnandi best, á himni og jørdu, í fyrstu skøpun gjørdu, er prédika almátt þinn, og speki sérhvørt sinn, er þ. a. þ. o. s. s. s.

3. Med maktar hendi, mjøg vel komst þessu í lag, vídt frá þurrlendi, vøtn skildir þridja dag, og sagdir: jørdin gefi góð, grøs þau ýmisleg sé, sem ei fyrr á foldu stód, frjófsøm allshàttud tré, sképnan strax hlýddi, Skaparanum er prýddi, svo ad midur sídan var, Salómon prýddur þar, svo a. m. s. v. S. þ. þ.

4. Hér má eg mína, margfalda skyldu sjá, og læra ad sýna, ljúfa hlýdni sem má, Gudi þeim er gjørdi mig, og gaf vit, heyrn og mál, en tók þjóns mynd uppá sig, ad frelsa mína sál. Æví mig aumann! íllann þræl máttar naumann, eg hef þessa ílla gjætt, og lítt hans rædu sætt, eg hef þ. i. g. o. l. h. r. s.

5. Forlát mér þetta, Fadir minn himnum á! svo refsíng rétta, reidinnar lídi hjá, eg vil hlýda í øllu þér, og betra svo mitt ráð, hér til vyrdstú ad hjálpa mér, fyrir heilags Anda náð; en nær eg skeika, af mínum holds breiskleika, réttú mér þá hjálpar hønd, svo hressist líf og ønd, réttú mér þá h. h. s. h. l. o. ø.

6. O Jesú gódi! grátandi bid eg þig, frá synda flódi, ad frelsa aumann mig, svo ei daudans djúpi í, dreckist þar sála mín, heldur géf hún fari frí, í fødurland heim til þín, þá hana leysir, loksins frá

holdsins hreysi, þolinnmódur þess eg bíd, þad verdur gledi tíd, þ. þ. e. b. þ. v. g. t.

7. Enn í dag taki, Engill þinn vakt á mér, svo eckert saki, sál og líf hvar sem fer, og lát Satan ecki ná, ad svíkja veikann mig, rek hann skjótt á flótta frá, frammleid mig gjæfu stig, á fótskør þinni, blessan og bjørg eg finni, uppfyll naudsýn alla mín, eptir gnægd nádar þín, u. n. a. m., e. g. n. þ.

8. Med svoddan sinni, vík eg til verklags míns, þad úti og inni, adnjóti þess fulltíngs, sem þú Jesús sjálfur mér, sendir af himna=trón, en mig takir þú ad þér, þad er mín hjartans bón, í lífi og dauda, engra þá kénni nauda, svo skal vera vel til frids, og vænta Drottins lids, svo skal v. v. t. f., o. v. D. l.

9. Fødur og Syni, samt helgum Anda med, svo aldrei dvíni, sé þøck og lofgjørd téd, fyrir sína sætu nád, og sérhvør gjædi oss veitt, blessi hann sjóinn, lopt og lád, láti þeim ecki ueitt, megna ad spilla, makt né heipt drekans illa. Sál mín, Drottinn! dag og nátt, dýrki af mesta mátt. Sál mín, Drottinn! dag og nátt, d. a. m. m.

## Qvøld Sálmur.

Lagid: Zebaoth Drottinn dýr.

Þridjudags þrotid er, þægt ljós svo dymma fer; ó Jesú! andlit þitt, yfir mér ljómi blídt, vertú mín vernd og hlíf, vort blessada ljós og líf.

2. Þér segi eg þøck og lof, þú sem mig leystir af, eymdum og andar=neyd, íllum og brádum deyd; hús og heimili mér, heill, blessan og nád veitter.

3. Líkaminn lúinn því, leggjast má hvílu í, að sefist sorg og stríð, sem vér um lífsins tíð, hljótum að heya þrátt, hladnir eymdum dag sem nátt.

4. Ó! hversu margur mann, meinar sig farsælann, ef gétur grædt sem mest, og gángi að óskum flest, vafandi veldum í, velferð sálar sleppi frí.

5. Margur féck mikinn auð, með stórri hugarnauð, hlaut honum síðan frá, hryggur veg dauðans gá, svo leið hans æfin út, er var hladin sorg og sút.

6. Eins fór þeim féck stór veld, fljótt greip hann æfi-qveld, minníng þess fannst ei meir, máttu víst kjósa þeir, að hefðu ei heimsins tál, haft kjært, það er týndi sál.

7. Að vísu veglegt er, vel svo að blómgast hér, en þar skyldi ecki við, ædra stundum géfið, mjög blind mannsképnan er, minn Guð! virðstú að stjórna mér.

8. Vanbrúkan veldur því, vor, þessum heimi í, að sképnan edlis góð, orsakar lángann móð, ó Guð! lát alltíð mig, ølly framar stunda þig.

9. Sæll er hver sem þig kann, svo geyma í hjartans rann, að hann víst eigi sér, æfinlegt skjól hjá þér, hvor sem þér heldur fast, hann mun aldrei fortapast.

10. En hinn sem elskar hér, of-mjøg það stundlegt er, hann stendur hættu í, Herra geym mig frá því, veit að eg voni á þig, veiða lát ei búksorg mig.

11. Géf að eg géti mest, góða trú á þér fest, að án áhyggju mín, ebli mig blessan þín; svo ecki sjálfum mér, sorg og mædu auki hér.

12. Lát þó ei leti mig, leiða frá gjæfu stig, né annað ólag mitt, affala mér lán þitt, með æru í ótta þín, eg stundi rétt kallan mín.

13. O Drottinn! aumkva mig, af hjarta eg beidi þig, margfaldri synda-sekt, sje eg mig hladinn frekt, minn Gud ei minnst þar á, mýskun þína lát mig fá.

14. Eg bid þig enn í nótt, unn mér ad sofa rótt, svo gleymi sorg og pín, sálin vaki til þín, Andskotans øllum nú, árásum burt frá mér snú.

15. O Jesú! allt mitt rád, annist þín Guddóms nád, hønd þín mér hlífi vel, henni eg mig befel, yfirgéf þú mig ei, allra síst þá hédan dey.

16. Guddómsins þrenníng þíd, þér sé lof allann tíd, af øllum túngum téd, til þess eg styrki med, ljómandi ljóssins hyrd, þá líta næ eg þína dýrd.

## Morgun Sálmur á Midvikudøgum.

Lagid: A. Gud alleina.

Í Jesú nafni, enn þessa morgun-stund, af mínum svefni, uppris eg gladur í lund, því Gud mín gjætti, og geymdi vondu frá, svo ecki mætti, sál eda líf mitt þjá, Herra! eg ætti, hverja stund lof þitt tjá.

2. Ei á ad þegja, um þetta túnga mín, heldur satt segja, sífeldt um verkin þín, af ødrum vinnast, aldrei slík nockurn veg, er fleiri finnast, fræg, gód, og dýrdarleg, enn mætti minnast, maklega, veikur eg.

3. Fjórda dag fordum, í fyrstu skøpun best, med maktar ordum, minn Gud, þú tilreidd létst, himinljós hreinu, hver tíma, daga og ár, ávallt adgreini, en jørd vermi sól klár, hvad allt ad einu, til enda heimsins stár.

4. Minn Jesú mæti, mild Sól réttlætisins! bid eg burt-ræti, bøl og dýmmu margs-kyns, sem hug og

hjarta, hér vilja tídum hjá, lífs ljósid bjarta, lýsi mér jafnan hjá, sem grómid svarta, af sál minni réd fá.

5. Heims brygd-ljós blómi, blecki þig ei, mín sál! lyst hans þó ljómi, er lífs háski og tál, lát þér vel líka, luckn þá Gud veitir, hinns hyrt ei snikja, Herrann best fyrirsjer, síst fái slíkad, forbodin ágyrnd þér.

6. Af gjæfu þinni, gjøra skaltu ei rán, þeim þér finnst minni, þú veitir einga smán, og ecki heldur, ofundir meiri mann, opt voda eldur, af slíkum røkum brann, sem vondu veldur, vestur þeim queikti hann.

7. Minn-Gud! mér veiti, mildi þín styrk og lid, ad ílls ei leiti, en géf eg stundi frid, og lát mig ecki, í hendur falla þeim, sem hverskyns brecki, hafa ad ná valdi og seim, þig mitt skjól þecki, þú hefur sigrad heim.

8. O Jesú gódi! af hjarta bid eg þig, þad þínu blódi, þú virdist hreinsa mig, af íllgjørd minni, er hjartad skélfir frekt, mjøg møргu sinni, mig hefur syndin bleckt, svo frid eg finni, forlát mér mína sekt.

9. Framar eg beidi, Fadir minn! hondin þín, í dag mig leidi, eingri svo mæti pín, í eymd og mædum, ætíd mér stattú hjá, af himna hædum, hjálp og blessun mér ljá, óvinar skjædum, áráсum leid mig frá.

10. Á gjædsku þína, eg vona fyrr og síd, vægd virdst mér sýna, vegleguſt brenníng blíd, þér þackir færi, þér beigi eg mín kné, hvad helst sig hrærir, heidur þinn láti í té, ódaudleg æra, eilífum Gudi sé.

Qvøld

## Kvøld Sálmur.

Lagid: Séf þinni kristni gódann frid.

Nóttin er komin sól ei sést, senn skal til hvílu gánga; ljósfins Fadir mér lýstu best, leid mig um sídir þángad, sem eingin sorg fær ángrad.

2. Þú hefur enn nú þennann dag, þína barnsképnu sparad, þar ad auk greidt til góds minn hag, gjædskulega bevarad, án slísa eg hef því hjarad.

3. Fyrir þetta sem annad allt, eg vil þig lofa og prísa, en med því hjartad mitt er kaldt, mig virdist þú upplýsa, og sjálfur veginn vísa.

4. Overdugleika veit eg minn, vid hátign þína ad ræda, med því eg ótal afbrot vinn, opt vill þad hjartad mæda, Gud minn, þad virdstu græda.

5. Heyr mína rødd, mitt hjartans mál; hjá þér gott alit fái, svo ecki mína aumu sál, ofmikil þína þjái, gjædska þín lidsemd ljái.

6. Ödum rennur mitt æfi-glas, sem annar vatnastraumur, vidlíkt sem følnad foldar-gras, fer eg burt hédan aumur, ei tefur tíminn naumur.

7. Veit mér ad stunda vitsku þá, ad vid heim muni eg skilja, og leggja mesta alúd á, ad fylgja þínum vilja, en síst mínar syndir dylja.

8. Háski mikill er heimi í, Herra! mín virdstu gjæta, undir þinn verndar-væng eg flý, verøld skal ecki sæta, þú einn mátt bølid bæta.

9. Þannig mig í nótt þig eg fel, þinn Engill hjá mér standi, sá ed mig geymi og verndi vel, svo vondur myrkra Andi, mér síst né mínu grandi.

10 Öllu því vonda afvend nú, er eg forskuldad

hefi, Frelsari minn! ei frá mér snú, fylgi þitt vørd mér géfi, og hvørskyns hrygdir sefi.

11. Fødur, Ordi og Anda sé, ædst dýrd um jørd og himin, eins sem hún var ad upphafi, af øllum túngum samin; um aldir alda Amen.

## Mórgun Sálmur á Fimtudøgum.

Lagid: Anda þinn, Gud! mér géf þú víst.

Dýrd og lof sé þér; Drottinn minn! daglega eg vil þig prísa, og snemma morguns uppstadinn, ágjæti þínu lýsa, líka svó aptni ad, aptur vidfrægja þad, slíkt sé minn vani og vísa:

2. Víst minn styrkur of-veikur er, ad vinna slíkt rétt sem bæri; því bid eg, Herra! hjálpa mér, hjartad mitt endurnæri, Anda þíns ástgjof blíd, í dag sem hverja tíd, þacknæma fórn svo færi.

3. Þú hefur vel mig frelsad frá, fári og margskyns vanda, þar eg í nótt sem látinn lá, létst mig heilann uppstanda, enn fyrir augu mér, ýfir furdanleg ber, þau verkin þinna handa.

4. Fugla loptsíns og fiska med, sem fjara á sjáfar grunni, oss mønnum til uppheldis léd, í dag frammleida kunni; fordum þín skipan skír, skoda þú, sál mín! dýr, hvørs góda Gud oss unni.

5. Dróttinn eg þacka þinni nád, þad strax í fyrstu hefur, minnar naudþurftar þannig gád, þú øllum fædi géfur; eg beidi blessan þín, byrgi upp fátækt mín, hér medan hold mitt tefur.

6. Í dag minn Jesús aptur fór, upp til síns Fødurs blída, sigri hrósandi Herra stór, þá hér var

búinn ad strída, í ædstu tign nú er, og bidur fyrir mér, því skal ei þrautum qvída.

7. Hjartad mitt vid þad huggi sig, þó heimsins sorgum mæti, ad Frelsari minn fyrir þig, fái eg loksins kjæti, um eilífd himnum á, ødrum Guds børnum hjá, hvar engum eymdum mæti.

8. Enn á medan þad ecki skér, og eg verd hér ad þreya, géf þú eg aldrei gleymi þér, gott stríd veit mér ad heya, hafni mest hreckja stig, haldi best trú vid þig, svo megi í Drottni deya.

9. Um-mæli þessi þennann dag, þú lætur á mér hrína, ánnastní lífs og andar hag, aumkva barnsképnu þína, afstýr þú allri neyd, ólucku, brádum deyd, sízt lát mér Satan tína.

10. Verdi þinn gódur vilji á mér, verk mín farsæl og blessa, lausann mig aldrei lát frá þér, í lífs voda heims þessa, því líf mitt, eign og ønd, eg fel í þína hønd, einu máttu mig vidhressa.

11. Enn eg vil þér ad aptni dags, ástsemdar lofgjørd blída, fegin af hjarta fæna strax. Frelsarinn allra lýda! yfirgéf aldrei mig, af því eg vona á þig, blessud sé Þrenníng þýda.

## Qvøld Sálmur.

Med sínu lagi.

Himneski Fadir heyrdu mig, eg hrópa á þig, lít ljúft til mín, af miskun þín, qvøld komid er, Kristi hjá mér, bú þú og blíf, bevara sál og líf.

2. Sæta lofgjørd eg segi þér, sem verdugt er, af þinni nád, eg hefi þad, líf, fóstur, frid, frelsi og grid, þó styggda eg þig. O Drottinn! aumkva mig.

3. Herra Jesú mér huggun sýn, hjá þér sál mín, harma-bót fær, þá hrygðin slær, þitt hold og blóð, sem hjálpar þjóð, útgéfið er, einnig til lausnar mér.

4. O! hversu sterk var elska þín, og ást til mín, af henni það, ei dauðinn bað, Qvøldmáltíð sú, innsettir þú, sál mína best, seður og lífgar mest.

5. Fyrst eg er orðinn eitt með þér, ó Jesú! hér, skal enginn mig, skilja við þig; hvað vantar þá? Hvør skaða má? Allt einn þú vannst, endurlausn sálum fannst.

6. Gésti það miskun guddómleg, að aldrei eg, brjóti af mér, slík blessuð kjør, heldur með trú, þér hlýði nú, og unni best, fyrir utan nockurn brest.

7. Meiri er gjædska og góðvild þín, Guð minn! til mín, heldur enn eg, á nockurn veg, út fái téð, né orðum með, þackað sem ber, þar sjálfur eign þín er.

8. O Guð! veittú mér anda þann, er þyggja kann, þín mildi mæt, og miskun sæt, legg lofstýr þinn, í munninn minn, og vernda mig, frá øllum glæpa stig.

9. Fel eg mig nú í faðminn þinn, Frelsari minn, unntú mér rótt, að sofa í nótt, géf mér þinn frið, og geym mig við, allskonar neyð, íllum og bráðum deyð.

10. Aldreji sísjar augu þín, ædsta hjálp mín, frá Satans slægð, og svika nægð, forða þú mér, og mínum hér, þín blessan blíð, blessi mig allann tíð.

11. Svo vil eg glaður sofna nú, sæti Jesú! yfir mér vak, á brjóst og bak, alla lífs-stund, í vøku og blund. Ædst lof og dýrð, ætíð sé Drottni skírð.

Morgun

## Morgun Sálmur á Føstudøgum.

Lagid: Kristó høfund míns hjálprædis.

Herra! míns lífs og hlífdar=múr, hjálprædis bjarg, Frelsari trúr, á morgni þessum audvarp mitt, uppstígi fyrir veldi þitt, en adstod þín, aptur komi híngad til mín.

2. Af øllu hjarta eg þacka þér, þínar margfaldar velgjørdir, ójafnt er farid ockur med, allt gnæfir þitt miskunar géd, þú elskar mig, engu nítann sem stiggi þig.

3. Avi mig aumann mann! í dag, minnist eg á þann fyrsta hag, sem Drottinn skapti Adam í, eptir mynd síani, lasta frí, og setti hann, høfdíngja yfir heim gjørvann.

4. Fullsælu skorti ecki á, þó eitt tré væri skilid frá, af hverju neyta ecki bar, þeim annad sérhvad lánad var, ó, íll=fjørrád og grædgi! er hrepptu Guds ónád.

5. Illsku þeirrar eg enn ber gjøld, yfir mér ríkja daudans vøld, hér ad auk mig í hverskyns pín, hertekinn færdi íllgjørd mín, ef þessa mót, ei hefdi Drottinn fundid bót.

6. Eign sína komna í óskøp slík, aumkadi Jesú miskun rík, þessi einn géck ei þvi framhjá, þar eg hálfdaudur eptir lá, yfir blygdan mín, breida rédi hann klædi sín.

7. Ohlýdni mína einn þú barst, allt til krossdauda hlýdinn varst, ó! hversu lágu þúngt á þér, þennann dag mínar íllgjørdir? Skaparinn dó, svo sképnan nædi lífi og ró.

8. O hversu strída hrygdar=nátt, hefur þú minna

vegna átt! ó hvað vel þessa að eg nýt, allmargann værðar=tíma hlýt! þú keyptir mig, úr qvølum fyrir sjálfann þig.

9. Með hjartans auðmýkt, ást og trú, eg viður=kénni þetta nú, jarðar maðkur, já minni er, en miskun sú þú veitir mér, hvernin má eg, hana launa þá nockurn veg?

10. Hjálpa þú, Jesú Herra minn! að hjálpræðis=ins kaléik þinn, meðtaki eg rétt, en mogli síst, mér hefur þú hann belsað víst, og mikli mest, með orði og verki nafn þitt best.

11. Enn framar, sál mín! sjáðu hér, hvað synd=in þúng og banvæn er, þig við hana þar fyrir skil, þeink ecki hún sé barna=spil, þann þig gaf frí, þér ei krossfestu uppá ný.

12. Blíði Jesú! eg beiði þig, með blóði þínu að hreinsa mig, af allri minni synda=sekt, er sam=vitskuna þjáir frekt, géf mér þinn frið, gjør mig sáttann þinn Føður við.

13. Þitt sveita=bað, sár, dauða og pín, set eg í dag á millum mín, og allra minna óvina, of=mikinn styrk þeirra lína, mitt hjálpar traust, heyr þessa mína bænar=raust.

14. Þanninn legg eg, Lausnari minn! líf mitt og sál í faðminn þinn, gjørðu við mig sem þóknast þér, þinn vilji allra bestur er, við hann mig ven, vegsemd og dýrð sé þér, Amen.

## Qvøld Sálmur.

Lagið: Øldúngar Júda annars dags.

Dags=stund þessi nú úti er, æfi=tíð vor svo loks=ins þver, þá Herrann fer að heimta uppá,

það hann réð ljá; við skulum, sál mín! gjør þess gá.

2. Einn Drottinn hefur ockur léð, øll þau gjæði sem høndlum með, þannig eigum við ecki þar, allt það lán var, utan einsamlar syndirnar.

3. Enn líka sem það Adam géck, að hann reikníngskap standa féck, svo munum við lífs aptní á, ei síður þá, skil ockar gjørða greiða fá.

4. Æ því miður! hans óðygð fannst, ecki honum það betur vannst, hvers vegna sárá sorg og neyð, sakfeldur beið, syndanna verðkaup, dapraun deyð.

5. O mín sál! hversu míður þá mun fyrir óckur standast á, sem alltið høfum illa breytt, og ei því skeitt, heldur Drottinn til reiði reitt?

6. Til sjálfræðis og synda mest, sífellilega sképnan best, verður að þjóna vondum mér, eg veit það fer, að vísu ei sem vera ber.

7. Sem Adam gjørðu eckért skjól, eykurnar, þegar hann sig fól, svo gylda ecki góðverk mín, í Guðs augsýn, að geyma mig frá straffsins pín.

8. Skal eg þá slíkum eymdum í, ørvílnast? nei, fjærri sé því, þó syndin mikil sé og ljót, samt henni á mót, veit eg til liggur betri bót.

9. Hjartanleg ydran heitir sú, hafandi á Jesúm sanna trú, sem gjørðist fórn og borgun best, fyrir brotin vest, þá hann á krossi qvalinn létst.

10. Þannig vík eg nú máli mín, minn Lausnari! til gjæðsku þín, vísa mér aumum ei þér frá, í eymd og þrá, með því eg vona þig uppá.

11. Lát mér gagna þitt lausnar-gjald, lát mér ei granda dauðans vald, íllgjørð mína sem annað ský, afmái frí, Græðari minn! þín náðin ný.

12. Fyrr enn hér skiljast verd eg vid, veit þú mér annari sképnu grid, í undum þínum eg mig ver, alls þurfi hér, þángad til reidiu framhjá fer.

13. Mér tak ei þína miskun frá, svo mætti eg hjálp og blessan fá, eins geym mig sem þinn augastein, svo engin mein, skadi ellegar skélfing nein.

14. Í því trausti skal sofna sætt, svo þjáníng dagsins verdi bætt; Drottinn! sem verndar Ísrael, eg mig þér fel, þú munt mig aptur vekja vel.

15. Af hjartans grunni æru þér, fyrir allt þad gott þú veittir mér, med verki og ordi víst skal tjá, og vel þess gá, svo lengi sem eg lifa má.

## Morgun Sálmur á Laugardøgum.

Lagid: Fadir á himna hæd.

O Gud! árla til þín, ørmagna sálu mín, þyrstir í þurru landi, þrautir margar lídandi.

2. Svali mér nád þín nú, nærandi veika trú, medtak grátbeidni mína, fyrir miskunsemi þína.

3. Þér enn eg þakka á, þýdlega best sem má, ad hefi hvíldir fengid, og hægt þadan útgengid.

4. Þó sárleg sorg og pín, séu rétt verdlaun mín, enn létst þú ecki þetta, yfir mitt hofud detta.

5. Heldur hefur þín nád, hefndar-straffid afmád, en gjørt mér allt til góda, gladt mína sálu hljóda.

6. Hardara hverjum klett, hjarta þad kalla eg rétt, er þetta ecki brædi, ef til þess hugsa nædi.

7. Vel sé þeim, velgjørd mót, vinnur á løstum bót, þeckir og þackar líka, þýdlega gjædsku slíka.

8. Sje eg vid svoddan hag, sjøunda vikudag, hvern þú, heilagi Fadir! helgadir og blessadir.

9. Fullgjørdum himni, heim, og hverju sem er í þeim, hvíldist þú, Herra blídi! hættir vid þad stór-smídi.

10. En því sem ádur er sagt, øllu heldur vid makt, forsjón þín fyrr og sídar, fram til eilífrar tídar.

11. Eins sem þú gjørdir allt, eins fyrir þig gjørvallt, hjálpast, vidheldst og varir, verøld þín gjædska sparir.

12. Lof, dýrd og þøck sé þér, þinn líki hvergi er, þú ert sá øllum géfur, og eckért þeigid hefur.

13. Þú ert sá, hvert eitt hold, um hafid, lopt og fold, heldur med gódum gjædum, géfur blessan af hædum.

14. Svo skal nú aldrei eg, efa þad nockurn veg, ad mér þú fóstur fáir, fyrir lífs naudþurft sjáir.

15. En lát mig minnast hitt, ad misbrúka ei lán þitt, til sjálfrædis og synda, sem gyrnast holdid blinda.

16. Heldur audmýkja mig, sem mest; en prísa þig, svo ei mitt óþackláti, orleika þínum mæti.

17. Ærugyrud, aud og seim, ellegar þennann heim, lát þú mig lítid sækja, lángtum heldur þig rækja.

18. Hégómi allt þad er, og skuggi sem burt fer, eintómis eymd og mædi, í blóma þegar stædi.

19. En hver sem Jesúm á, alls nægtir hefur sá, þarf ecki þrautum qvída, þó nockud verdi ad lída.

20. Frá ammri sorg og sút, svipta mun hann þeim út, gjørvallann grát af-þerra, gledi síst láta þverra.

21. O Gud! unn mér þíns lids, ad géfi mig til frids, uppá þad ofur-hála, ecki stundi mín sála.

22. Bid eg þín blessud nád, bevari allt mitt rád, í dag, svo enginn vandi, ellegar háski grandi.

23. Ad skjædur óvin minn, øldúngis vilja sinn, uppfyldann ecki sjái, ofmjøg svo gledjast nái.

24. Synd mína mér tilgéf, með hverri eg þig hef, móðgað á marga vega, mig ángrar það stórlega.

25. Lúinn í lángri þín, leita eg, Drottinn! þín, hvíld lát mig hjá þér finna, og huggun eymda minna.

26. Þar hrygð og hörmúng slær, Herra! statt ekki fjær, hæg þú þá meinum mínum, með náð og krapti þínum.

27. En þegar æfin dvín, unn mér að koma til þín, hvíldardag lát mig halda, hjá þér um aldir alda.

28. Líkama, líf og önd, legg eg í þína hönd, Engill þinn að mér gjæti, engu svo vondu mæti.

29. Heiður og hærst lofgjörð, á himni bæði og jörð, Faðir vor! sé þér framin, fyrir Jesúm Kristum, Amen!

## Qvöld Sálmur.

Lagið: Hef eg mig nú í hvílu mín.

Einn vil eg hefja hug til þín, himna Faðirinn sæt! að þér nú færi ondin mín, auðmjúkt hjartans þakklæti, sem gott qvöld-offur gyldi það, góði Jesú! þín njóti eg að, svo aumur miskun mæti.

2. Eg veit það engin útskírt fær, aldeilis vegsemd þína, engu að síður egum vær, aldrei láta dvína, að prísa þig af mesta mátt, mikla þá gjæsku dag og nátt, sem þú virðist oss sýna.

3. Einkanlega það aumum heim, útgafst þ'nn Soninn blíða, svo ei fortapist einn af þeim, er náðar-boðum hlýða, setjandi trú og traust á hann, sem til vors frelsis þola vann, qvalir og kúgan stríða.

4. Þessi náð meiri öðru er, af því vér hennar njótum, annars heims bæði og svo hér, í því góða

sem hljótum, ekkért heldur oss annad vid, alla nád, blessan, heill og frid, ætíd vér af oss brjótum.

5. Par fyrir, gódi Gud! þín nád, gjørir enn þad alleina, ad ei hefur þú oss afmád, engin skyldi því leyná; Herra! gýf vid þolgjædi þitt, þrjótskunni sleppi hjartad mitt, og gjøri ydran hreina.

6. Réttláti Gud! ei refsa mér, ránglátann þræl í brædi, minnstú þad foldar fis eg er, fegurst þó líf- id stædi. Eg reidi uppá engann mig, ó minn Skap- ari! nema þig, sjá til hvert satt eg rædi.

7. Nær eg þig hefi nægir mér; nú, hverju skal eg qvída? Trúfestí þinnar elsku er, ecki sem heimsins blída, hún bilar þegar þarf sem mest; þinn vandi er ad duga best, þínum, nær þrautir lída.

8. Því ertú, sál mín! óróleg, ervidt þó sýnist veita? á Drottinn vil ad vísu eg, vona, og til hans leita, hann sjer og prófar hjartad mitt; hafi menninir á- lit sitt, því skal eg lítid skeita.

9. Allt þad stundlega enda fær, eins neyd og lífs- ins mæti, ei veit nær dapur daudinn slær, dreysíng- um þar úr sæti, hinn vesæli og vænta má, volæd- inu ad leysast frá; hver þessa gjørla gjæti.

10. Drottinn minn Gud! eg þacka þér, þitt lof vil eg útbreida, ad þú miskunar ætíd mér, er vondsku drýgi leida, af mótstandara minna hønd, mínu hjálp- adir lífi og ønd, svo eckért mátti meida.

11. Hjálpa mér þannig, Herra minn! hédan af einnig líka, lát aldrei gódann Engil þinn, upp héd- an frá mér víkja, þegar gengur á móti mest, mig styrkji þá og huggi best, Gud minn! þín gjædsk- an ríka.

12. Svo veit mér nú ad sofa rótt, og sætt í gódum nádum, vernd þín geymi mig vel í nótt, vid Satans skémdar-rádum, øllu íllu mig frelsa frá, fridar=bod þitt lát svølun fá, margskonar þíngsl=um þjádum.

13. Þjáníngu lífs og þrautum mín, til þarfa virdst ad snúa, þad er ei annars utan þín, ablandi mædu og lúa, forgéfins er þad vinnum vér, viljir þú ecki blessa hér, til þín eins er ad flúa.

14. Allra sídast nær æfin dvín, armædan gjørir þverra, leid mig í fridi þá til þín, þú gódi lífsins Herra! gnógt fagnadarins géf mér þar, gledi og hvíld til eilífdar, sorgar=tár svo af=þerra.

15. Hærsti Fadir! þig heidrum vér, og hjart=ans Son' þinn kjæra, heilagi Andi! einnig þér, ædsta lof skulum færa, allt þad sem hefur andar=drátt, undirtaki og segi þrátt: einum Gudi sé æra, Amen.





# Adrir

# Viku Sálmar,

Qvednir af

Síra Magnúsi Einarssyni,
fyrrum á Tjørn í Svarfadardal.

---

## Sunnudags Morgun Sálmur.

Lagid: Dagur er, dýrka ber.

Gud Fadir, þýdar þér, þackir greidist, sem nátt-
vœrdir, sœtar fœrdir, svo eg, med gledi hag,
helgann dag, halda má þinn, hugur, sál, hjarta, mál,
heidri Drottinn.

2. Hvílt eg hef, utan ef, umlidna nótt, á þín-
um ørmum, hættu og hørmum horfinn, í hjarta
mér, hvíld vel þér, Herra minn Gud! hrygd þad
ver, og helst fœrir, hjartans føgnud.

3. Um himins vídt, hvolfid frídt, hafid og jørd,
ljómar dagur, ljós og fagur; lát svo, ljósid þitt,
lýsa upp mitt, ljós-dauft hjarta, ad lifnadinn,
lagi minn, vid ljósid bjarta.

4. Þess bid eg, þú minn veg, til þíns Musteris, enn viljir greida, alls án leida, ætíd, sál mín fús, helst hitt hús, af hjarta þreyir, þér svo best, þócknadist, á þessum degi.

5. Hjartad veikt, hörmum beygt, hungángs sæt þín, huggun gledji, en sannleik sedjist sjón myrk, raust þín sé, yndæli, eyrum mínum. Munn áhrær, þeim fullting fær, fíngri þínum.

6. Géf mín sé, gudrækni, gródursett best, til þinna hæda, hjartans ræda, hefjist; gleym ei mér, glæpugum hér, Gud líknsamur! á andvarp pad, útpressad, eg æ sé tamur.

7. Á þennann dag, med dýrdar hag, Drottinn Jesú! þú reist af dauda, þinna sauda, þraut sorg; unn þú mér, einnig hér, nýp eg stædi, frá allri ynd, svo annari mynd, ysir-klædist.

8. Vegur beinn, ertú einn, og sannleikur, líf yndæla; æ vyrdst mæla, í dag, lífsins ord, hærstu heyrd, í húsi þínu, gésst af því, gledi ný, gédi mínu.

9. Á þín brjóst, ylm-sæt ljóst, eg nú legg mig, sorgum hlesta, svölun besta, sál mín, þar af fær, þá óvær, þrautin pínir, lífs um stig, lífga mig, lífs med vini.

10. Aptur á mót, hýr med hót, Herra Jesú! fyrir ord þitt bjarta, í mitt hjarta, eg bid, legg þú þig, lát svo mig, leid ei glata, og utan stygd', heims úr hrygd, til himins rata.

11. Hærstnefndi, Huggari, heilagi Andi, á þessum degi, pad mér segir, þitt ord, þér var úthellt; í hjartad hrellt, hell þér mitt inn, svo gledjist eg, géds um veg, vid gledistraum þinn.

12. Sýn þú mér, sjálfa hér, sól réttlætis, og

hennar vængja, (hvers mig leingir), hjálpráð; ad ydrunar=tár, bleyti brár, besta krapt veit, eblðu trú, eins géf þú, elskan sé heit.

13. Lifnadinn, láttú minn, lagast sem best, ángist harda, hjartans=jardar, hept þú, mín vert greid, lífs um leid, lækníng nauda, sorg burt fleit, sídast veit, sælann dauda.

14. Þrenníng dýr, heiløg hýr, helga mig nú, á allar sídur, enn þinn fridur, í mér, verki hár, kraptur klár, svo qvída ei beri, hjartad mitt, þad sé þitt, þægt Musteri.

15. Sefnudinn, þér lát þinn, þjóna í dag, med einu hjarta; hræsnis=artar, hept þel, fyrir þitt mál, sérhver sál, sút þó reyri, í gódu mest, grói best; Gud þad heyri!

16. Hjá oss skjær, heiløg, vær, hvíld vidhaldist, þeirrar njótum, þar til hljótum, þá hvíld, gódum hér, geymd sem er, med Guds útvøldum, hvar eilíst, sælt, sætt, yndælt, Sabbath høldum. Amen.

## Sunnudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Dags vøku er enn nú endi.

Vackir eg gladur gjøri, þér, Gud Fadir! minn vaktari, þú sem ad verndar Israel, og um lidinn dag mig geymdir vel. Kyrieleison.

2. Þó særi synda fjeldi, samt skal á þessu qvøldi, einasta vera athvarf mitt, auglit ad koma fyrir þitt. Kyrieleison.

3. Þú hefur á þessum degi, því vil eg gleyma eigi, uppfrædt mig bædi og advarad, áminnt trúlega og vel huggad. Kyrieleison.

4. En nær mig aptur skoda, ótta og skélfíng bodar, ad gálaus nærsta, (sem gjørla sje), Guds orda var eg heyrari. Kyrieleison.

5. Eg elskadi þig ei sem skyldi, ógjarna mjøg þér fylgdi, þverlega hef reglu þína smád, þinna bodorda lítid gád. Kyrieleison.

6. O Fadir! innilega, med ángist og sárum trega, nú bidur þig um nád fyrir rétt, nádþyrst mín sála, hrygdum mett. Kyrieleison.

7. Æ! þín elska þad géfi, ad ordid sem forsmád hefi, mig dæmi ei nockrum degi á, Drottinn heyrdú andvørpun þá! Kyrieleison.

8. Guds Son minn hyrdir gódi! gjør mér í þínu blódi, fagrann qvøld-roda; fridar-nægd, fæ eg af því og sálar-hægd. Kyrieleison.

9. Sem úngi, svo eydist pína, undir vængina þína, ó Jesú! mig nú annamm dreg, til þinnar nádar þreyi eg. Kyrieleison.

10. Prauta hladinn med þjósti, af þínu eg gyrnist brjósti, svolunar-dropa sætann einn, sem þinn elskandi Lærisveinn. Kyrieleison.

11. Umvef mig ørmum þínum, óvinum hamla mínum, vidskilinn alskyns voda og mein, vardveit mig sem þinn anga-stein. Kyrieleison.

12. Elskan þín yndislega, sem allann burtnemur trega, sé minn draumur þá sofna fer, sálin og hjartad vaki í þér. Kyrieleison.

13. Med þinni hægri hendi, hugar-styrkíng mér sendir, en hin vinstri svo ástúdlig, undir mitt høfud, leggi sig. Kyrieleison.

14. Afklæd mig; (ást svo bindum), øllum þessa

dags syndum, en fegursti skrúdi finnist minn, forþénustu purpuri þinn. Kyrieleison.

15. Sætlega í þeim svefn-klædum, svo hvíli eg laus frá mædum, þar til ad mínka myrkrin svørt, og morgun-stjarnan upprennur bjørt. Kyrieleison.

16. O Gud heilagi Andi! mín adstod í hrygda-standi, efl þú og styrk minn andar hag, fyrir ordid Guds, sem eg heyrdi í dag. Kyrieleison.

17. Blessan, líf, bølvan, dauda, og bústad eilífra nauda, leiddi þitt ord í ljós fyrir mér, lát mig útvelja best hvad er. Kyrieleison.

18. Med-fæddum myrkrum svørtum, med þínum geysla bjørtum, sundurdreyf þú sjálfur í mér, síst lát elska þad heimsins er. Kyrieleison.

19. Í þinni elsku ad sofa, og uppvakna þig ad lofa, Andi heilagur unn þú mér, á eptirkomandi nóttu hér. Kyrieleison.

20. Minn svefn þar mér til bendi, muni lífs koma endi, svo vaki mín sál og vari sig, þó vakandi daudinn hitti mig. Kyrieleison.

21. Huggadu haldinn trega, hvíld veit þeim órólega, umvend syndugum lífs á leid, lastanna fjøtra af þeim greid. Kyrieleison.

22. Yfir ást-bundna mína, og alla trúada þína, vegleguft Þrenníng vægdar-greid, vængi miskunar þinnar breid. Kyrieleison.

23. Þín sól gángi engum undir, sem elska þig lífs um stundir, allt þar til endast rauna-ról, og rennur upp eilíf gledi-sól. Kyrieleison.

24. Þá vistarveru ad halda, veit oss um aldir alda, hvar vér einn fagrann Sabbats-saung, sýngjum eilífdar dægur laung. Kyrieleison.

## Mánudags Morgun Sálmur.

Lagid: Hjártad, þánkar, hugur, sinni.

Gud Fadir, minn Drottinn dýri! dásamlegt þitt heiti er, í því nafni eg nú færi, uppvaknadur lofgjørd þér, fyrir næga nádar-stærd; nætur þæga hvíld og værd, yfir mér þú vyrdist vaka, vondt svo eckért kunni saka.

2. Yfirskygging elsku þinnar, almættid og nádin þín, nam burt ógnan næturinnar, nú sig gledur sálin mín; þú úr-leynum lætur mig, í ljós framkoma ad prísa þig, huldi Gud! sem hjúkrun veitir, og huggun allri til mín fleytir.

3. Árla viku nú med nýrri, nálægjast eg gyrnist þér, árla þinni hjástod dýrri, hald þú, Fadir! yfir mér, árla heyrdu andvorp mín, árla nád mig sedji þín, árla eg þína elsku merki, árvakur í gódu verki.

4. O uppsprettta allra gjæda! øllu gódu til mín fleyt, líf og sál hvad mætti mæda, móti því nú huggun veit, þinn vísdóm hér ofan ad, yfir mig send, er verki þad, ad í gjørdum øllum mínum, eptir vilja brevti þínum.

5. O Guds Sónur elsku-fasti! alla trygd er syndir mér, þú ert sá fyrsti og sídasti, inngeng eg nú medur þér, viku nýa; vægdar mér, virdstu bidja, svo ad hér, í þínu, Jesú! nádar nafni, nægsta blessan til mín safnist.

6. Nafn sitt þessi dýri dagur, dregur mána bjørtum af, en hans ljómi ljós og fagur, leyptrandi um jørd og haf, hefur ljós af sólu sitt; sæti Jesú, ljósid mitt! lýstu hjarta myrkvu mínu, medur nádar ljósi þínu.

7. Hradfara á himin = slódum, hefur þú svo tilskickad, mánin vex og mínkar ódum; mildi Jesú! veit mér þad, ad vaxa í gódu og vitgáng fá, vondskan dofni æ mér hjá, svo eptir gjædsku gédi þínu, géti eg hagad lísi mínu.

8. Þócknist nú á þessum degi, þér ad láta, Drottinn! ské, ad hér lengur lýsi eigi, ljósin himins skínandi, og upprenna effta dag; í eilíft ljós og dýrdarhag, leid mig inn, svo laus frá pinu, ljómi sem sól í ríki þínu.

9. Blessun lát mér besta fala, blessadu mig á vegum þín, blessa øll ord þau ber mér tala, blessa líka øll verkin mín, blessadu lísins bjargrædid, blessa hvern sem umgeingst med, blessadu mína byrdi nauda, blessadu mig í lísi og dauda.

10. Andi Guds mér virdstú veita, vitsku, krapt og hjálprædid, med nýrri viku nádar leita, og nýtt uppbyrja framferdid, auktu gáfur mínar mest, minnar stéttar verkin best, helzt lát stunda, en holdid trega, -hneigdu mitt á góda vega.

11. Leid þú mig á vissum vegi, viljann helga ætíd minn, af hjarta þér svo hlýdnast megi, hér med upplýs skilníngin; mér nákomnum miskun sýn; mildi Jesú! gjædskan þín, frelsi og geymi fróma alla, frá ólucku og synda = galla.

12. Guddóms Þrenníng hýr á hædum, hjástod, mildi, elsku, nád, hjúpi oss í heimsins mædum, hjortun gledjist sorgum þjád; sérhvern blessa í sinni stétt, svo framgángi og breyti rétt. Fridaríns brunnur frid=streymandi, frid vidhaldi í voru landi.

13. Húsin vor og hjortun bædi, helzt med þínu losi prýd, svo þér fyrir alla gjøf og gjædi, greid=

íſt þeck og dýrdin frid, loks þá rauna dagur dvín, dag í lyſti = gardi þín, lát oſs ſkína um aldir alda, ſvo eilífann prís þér mættum gjalda. Amen.

## Mánudags Qvøld Sálmur.

Med ſama lag.

Gud Fadir mín hjálp og hreyſti! heidur, lof og dýrd ſé þér, ſem mig frá øllum meinum leyſtir, mædu og hita dagsins hér, mér ad bera lédir lid, líſi og kroptum héldſt þú vid, bægdir ſorg og brádum trega, en bleſsan veittir margfaldlega.

2. Þín undrunar = verkin, ótal gjædi, og allar þínar velgjørdir, þau vil eg príſa og þacka bædi, þad min dagleg ſkylda er; mikinn góda, marga nád, mér í dag þú hefur tjád; en vondſkan ſtór og ſyndin ſvarta, ſærdi mjøg þitt Fødur hjarta.

3. Min ſamvitſka fleiri flecki, fyrir ſjónir leidir mér, heldur enn máninn; þad eg þecki, þúſund faldar ſaurganir, ſæra hjarta, og ſorgin ſtinn, ſárann klagar munnurinn; æ Drottinn! ſnú ecki þínu augliti nnót ſyndum mínum.

4. Nádar = brunnum nægſtu þínum, nád = ſtreymandi uppljúk þú, fyrir ſálar munni mínum, minni hrygd í føgnud ſnú, lægdu myrkra vondu vøld, vægdu ad ſynda hreppi eg gjøld, lát mig ei ſitja í dymmu dauda, úr djúpi leyſtu allra nauda.

5. Mér þinn vængja ſkuggi ſkýli, ſkyggi á mig þín hægri hønd, ſvo med værd og hægdum hvíli, hverſi nætur myrkra grønd, ſkélfing allri og voda ver, vernd og ſkjøldur ſért þú hér, líka múr í magni nauda, mitt og einka líf í dauda.

6. Mildi Guds Son, mitt hjálprædi! mjúka lækn-is-høndin þín, samvitskunnar undir grædi, sem yfir stynur sálin mín, dýru safti dreyra þíns, á dyrustafi húsins míns, ryd, svo mæda mig ei stángi, og mord-engillinn framhjá gángi.

7. Rafnid Jesús svølunar sæta, sé míns hjarta innsigli, líka teikn og merkid mæta, ad, minn Jesú! þér tilheyri; en djøfullinn íllsku-þver, ecki hafi neitt hjá mér. Umgyrd mig á allar sídur, af því mjøg á daginn lídur.

8. Æ! eg bid þig innilega, andvarp mitt ad heyra þad, ef ønnur eins myrkur alla vega, umkríngja minn sængur stad, og ádur fyrri í Ægyptó, eitt ljóss Gosen vildir þó, fyrir þinn ljóma og ljósid bjarta, láta vera í mínu hjarta.

9. Svo eckért meigi værdir vana, og verdi hvíldin elskulig, volduga þína vaktarana, virdstu setja kríngum mig. Veit eg sjái medur mér, miklu stærri flockur er, himin-sala hyrdsveitanna, enn hinna sem ad værd-ir banna.

10. Heilagi Andi! í harma þúnga, huggun mín og athvarfid, heidri þig mitt hjarta og túnga, hefur þú ní krapta léd, gott framqvæma, en glæpa sid, af gjædsku og nád mér fráhaldid; rétt hvad gjørdi, af þér hef þeigid, en þad mig brestur, mitt er eigid.

11. Þó hafi eg í dag med saurgun synda, sem nú vid ei dyljast má, sál og hjarta mátt afmynda, mér ei víktu burtu frá, heldur veit ad heppnist gód, hreinsun fyrir Jesú blód, þveigid og laugad, þad svo veri, þinn bústadur og musteri.

12. Í svefninum lát mig sjá og skoda, sælunnar arfleifd geymda mér, innra vitna, einninn boda, ein-

um til, eg heyri þér, á mitt hjarta aptur set, innsiglið, sem brotna lét, synd, er byrdi safnar nauda, til sáluhjálplegs bú mig dauda.

13. Ó, þú djúpið audæfanna, ógrípanleg Þrenníng skjær! í líkn til allra líttú manna, sem lída og strída fjær og nær, vert sofendra vaktari, vini blessa og óvini; géf oss öllum gódar nætur, med gledi á morgun reis á fætur, Amen.

## Þridjudags Morgun Sálmur.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Fagnandi lof eg færi þér, Fadir trúr! sem mig vardveitir, þridjudags morgni þessum á, því ad eg mátti reyna og sjá, ad þína verndan, elsku og nád, umlidna nótt mér hefur tjád.

2. Eg var sem fyrir utan mig, í mínum svefni, en hafdi þig, í mér búandi; íllska og slægd, óvinarins var nidurlægd, ad gódu þú einninn gjördir hér, gjörvallt þad vondt hann hugdi mér.

3. Ó! hvad sú gjædska er frábær, undrunar stærstu mér hún fær, sem mig lætur hvíla mædulaust, svo mátti eg hafa öruggt traust, allri fráskilin eymd og pín, undir nádar vængjunum þín.

4. Svo sem ad þessi morgun mér, meddeilir nýu ljósi hér, ljós þíns andlitis lát, ó Gud! lýsa mér eins, svo margblessud, líf mitt og sál med hugar-hægd, hafi í þér einum fulla nægd.

5. Sérhverjum degi sín þjáníng, sett er um þennann veraldar hríng, af þér, hlutanna Alrádi! einninn láttú þad, Drottinn! ské, ad sérhvør dagur í heimi hér, hafi og sínar blessanir.

6. Lát mig í dag þig lofandi, leita míns brauðs og gjørandi, minnar køllunar verkin vønd; veiti mér styrk þín náðar hønd, allt að framqvæma eptir því, orði Drottins finnst skipað í.

7. Hyrtíngar ef að hrísið þitt, á holdið í dag skal leggjast mitt, frekt sem eg hefi forþénað, Faðir! í bræði ei gjørðu það, mig svo að ecki afmáir, ó Guð! þessa bæn veittu mér.

8. Guðs Sonur, minn Immanúel! mína sál þinni gjæzku eg fel, gjør mig í dag, svo þóknist þér, þinnar náðar og dýrðar kér, lát minna synda gleymast gjøld, þín góðsemd er stór og trygð margføld.

9. Hitti nú nockur hrøsun á, hønd þín mig styrki og reysi þá, skuld minna synda skjæð sem er, skrifaðu alla burt frá mér, lát þú, svo hrygða léttist safn, á lifendra bók mitt standa nafn.

10. Hjálpa mér svo eg heiminum, hvørki syndum né djøflinum, þriðjudags morgni þessum á, til þjónustu mig eg gjøri ljá, því ángur, fordjørfun, eilíf raun, eru þeirra hin réttu laun.

11. Heldur veit að eg hlýðinn sé, í heilagleika og réttlæti, með ástundan þjóni einum þér, aðstoð og skjoldur vertú mér, svoddan framqvæma í sannri raun, sjálfur verður þú þá mín laun.

12. Freistíngin þúng ef sýnir sig, í sannleik þinn andi leiði mig, hørmúng þá særir hjartað skjæð, hjartað mitt aptur sjálfur græð, í allri hrellíng og hugar-pín, huggun mér veiti gjæzkan þín.

13. O, þú heilagi Andi klár, Andi kraptar og náðar hár! unn mér gánga í andanum, og afláta

holdsins gyrndunum, verka framqvæmd og viljann géf, þú veitst að eg litla krapta hef.

14. Þú ert Guðs fíngur, sem orðið þitt, auglýsir bert, í hjartað mitt, innskrifa Jesúm; einninn nú, öllum limunum stjórna þú, hjartans og munnsins hreinleiki, hjá mér sé ætíð vaxandi.

15. Réttlætis öllum ávöxtum, uppfyll þú mig og dygðunum, fyrir Drottinn Jesúm sem dafna og ské, til dýrðar, heiðurs og lofs Guði, þann dýrmæta féssjóð vernda og ver, í veiku leyrkéri sem eg ber.

16. Skuli í dag mín lífsins leið, lykta, géf þú mér sælann deyð, í friði svo héðan fari nú, og faðmi Jesúm með sannri trú, varnaðú meinum voða kífs, og viðhaldtú mér til eilífs lífs.

17. Þér, guðdóms Þrenníng! gjæðsku þýð, eg géf mig til offurs fyrr og síð, sem er heilagt og lifandi, líka Guði vel fallandi; í heilsu og sjúkdómi líkn þín lið, leggi þeim sem mér koma við.

18. Lát mig þér halda lengi og fast, lát mína sál ei fortapast, lífgaðú trúar ljósið mitt, læs þínum faðmi barnið þitt, haldt mér við feril friðsemdar, og fulla von minnar arfleifðar.

19. Minn eptir liðinn mæðu-hag, mér géf himneskann gleði-dag, af Egyptó þessa eymda flóðs, um það rauða haf Jesú blóðs, fagnaðar svo ei finni van, flyt mig í eilíft Canaan, Amen.

## Þriðjudags Qvøld Sálmur.

Lagið: Að qvøldi Júdar frá eg færi.

Minn trúfasti Faðir gjæða, Faðir! hvers ei þrotna ár, burt af leiðum himna hæða, hverfur sól-

ar ljóminn klár, dagur er liðinn, dregst að mæða, dymma og myrkur yfirgár.

2. Svo hafa hlutir allir enda, utan Drottins gjæðska há, ó! að mørg, sem mig réðu henda, mættu brotin endíng fá, gjørð í dag, hvør sorg nú senda, og samvitskunni þíngja á.

3. Ó! mig hulinn hjúpi nauða, hvør mun veita lið og vægð? hvør mun frelsa af fári og dauða, svo finni sálin nockra hægð? Það gjørir hyrðir sinna sauða, sem hefur líf og fulla nægð.

4. Á þessum hef eg þriðjudegi, það nú ángrar sál og geð, þér, minn Faðir! þjónað eigi, en þráfaldt mína krapta léð, ránglætinu á voðum vegi, vís er hefnd, fyrst svo er skéð.

5. Að sképnunni mitt hjarta hneigðist, en heldur var þér stríðandi, til glæpa og synda gálaus teigðist, gyrndum hennar hlýðandi, þaukinn vondur þrátt inn sneigðist, því er sálin qvíðandi.

6. Hér af sprettur annar enginn, ávøxtur enn skømm og blygð, til launa dapur dauði fenginn, djúpar undir, sorg og hrygð, afvega þó eg sé genginn, á skal vona Føðurs trygð.

7. Hjartans Faðir! hegníng milda, hrópar til þín sálin móð, í bræði ei straffa barn þér skilda, sem betrun' beitir lífs um slóð, lát fyrir mína glæpi gylda, græðarans qvøl og rauða blóð.

8. Hjálp og vægð eg hjá þér þecki, við hrelda sálu biðjandi; lesti mína leið þú ecki, í ljós fyrir þínu augliti, í sárum Jesú, hrygð svo hnecki, huldir og grafnir þeir verði.

9. Guðs Sonur, minn hærsti Herra! sem hefur þjóns mynd borið hér, á burt-tekið, allt hið verra,

en eilíft frelsi til-færdir, ránglætisins þú lát þverra, þjónkun alla nú hjá mér.

10. Þjónustusonnu þína Anda, þeirra trúudu verndar lid, sem kríngum veldis-stól þinn standa, stirkva sendu mér, eg bid, svo hrindi háska, voda, vanda, og verji mig á alla hlid.

11. Mordþyrst ljón úr myrkra ronnum, mig er svelgja kýs ávallt, med guddóms krapti gjædsku sonnum, gjør þú hindra og apturhaldt, því ad vinna voda monnum; þitt vald og máttur gétur allt.

12. Frá elds og vatna yfirgángi, allt þad geym sem léntir mér, kefjist hrygdir, qvídinn strángi, og qvølin øll sem hjartad skér, svo þinnar nádar falinn fángi, fái sætar náttværdir.

13. Af miskun þinni margfold gjædi, mér í dag þú auglýstir, en bæt því vid, ad nú eg nædi, í nád og forlíkun hjá þér, til hvíldar gánga; varma flædi, hverfur þá og mædan þver.

14. Heilagi Andi! brjósti og baki, bid eg hlísi vardhald þitt, sofi augun, samt þó vaki, samvitskan og hjartad mitt; hann fagurt aldrei frá mér taki, fridar og nádar ljósid sitt.

15. Veit, eg sordna gyldann galla, gráti heitt sem mig hefur skéd, burt-dríf nætur ógnan alla, órólegum draummum med, þúnga lát ei þauka áfalla, sem þreyta og mæda hugskotid.

16. Lát mitt ad því hjarta hyggja, hvørt vid mædu-daga qveld, ætíd hér eg ei skal byggja, onnur sídar kémur øld, hvar launin dýrdar þeir skulu þyggja, þín sem gáfu sig á vøld.

17. Ránglætisins þjónkan þvera, þrjóta láttú æ hjá mér, en fyrir því helsta hugsun bera, hvernig

þóknast fengi þér, svo þar mætti eg síðar vera, sjálfur Jesús minn hvar er.

18. Þrenníng heiløg þýðar hægðir, þessum nætur tíma á, øllum veit, og náðar nægðir, sem návist þíng gyrnast fá, þá eru búnar værð og vægðir, víktu engum manni frá.

19. Þinnar litla hópinn hjarðar, hyl þú, stóri Guð! og geym, aumkva snauða og eymdum marða, engum sjúkum heldur gleym, læg deyenda hugraun harða, hjúkra, líkna og svala þeim.

20. Hjálpa oss øllum loks þar lenda, lífsins eptir mæðu þraung, hvar engin framar hrygð kann henda, en hessum fagrann gleði-saung, og ljósið hefur aldrei enda, eilífðar um dægur laung, Amen.

## Miðvikudags Morgun Sálmur.

Lagið: Blessaða Þrenníng blessuð sé.

Guð! sem auglýsir miskun mér, mitt hjarta er reiðubúið, af innstu rótum að þakka þér, þú hefur til mí snúið, þinni gæðsku og náðar nægð, nætur um tíma liðinn, svo gáfust griðinn, annars var lokið allri hægð, útgjørt um værð og friðinn.

2. Ei svo skýn fyrir augum manns, sá upprennandi dagur, eins og þinn náðar geisla glans, og gæðsku ljóminn fagur; æ sem að lýsir yfir mér, annað er stunda valla, enn glæpi og galla, hvernin kann eg að þakka þér, þínar velgjørðir allar.

3. Miðt í vikunni umvafinn, er eg daudanum kalda, allar lífs stundir eg það finn, en þín gjæðska réð valda, mér var ei burt í svefni svift, af sæng

minni kann því rísa, og lofgjörd lýsa, ó! mínu hjarta upp skal lypt, þig, ástríki Fadir! prísa.

4. Allt eins og sjálfs þíns auga-stein, á mér varatekt hafdir, hjartad skildir vid mædu og mein, mitt líf blessan umvafdir, hér fyrir skal nú hjarta og líf, heilagt þér offur vera, sem vil frambera, ó, minn Gud! fyrir alla hlíf, unn mér slíkt rétt ad géra.

5. Minnst til hins besta mín í dag, miskunsemd eptir þinni, vardveit líkamans heilsu og hag, hvørri gjørd stjórna minni, frá Satans vélum og svika nægd, sálina geymi líka, þín gjædskan ríka, þá skal aldrei þín lofgjørd lægd, líknina fyrir slíka.

6. Medalgángari minn Jesú! midviku á þessum degi, med þínum krapti mig styrk þú, midt á sorganna vegi, med fridarins kossi gjædskan góð, gack milli mín og minna, sem sveina þinna, midt þá ángistar-mædir flód, mig láttú huggun finna.

7. Upphaf, midid og endirinn, á øllum gjørdunum mínum, vertu í dag og sérhvørt sinn, svo fylgi vilja þínum; en hrapi eg í synd og hryggi þig, (hvar ad Satan vill stydja, sú stofnist ydja), þinn reida Fødur fyrir mig, Frelsari minn! virdst bidja.

8. Í midviku hverri mér þess veit, minnast sem skyldan krefur, ad í þinn víngards edla-reit, inn þú mig kallad hefur, til gudlegra verka alúdar, unn mín sérhvør lífs-stundin, sé brúkud og bundin, ydjulaus svo eg inni þar, aldreji verdi fundin.

9. Reirist ad mér sú raunin há, sem rós medal þyrna standi, eda og saudur úlfum hjá, ýmsu qvídandi grandi, yfirgéfa þú mátt ei mig, miskun eg treysti þinni, í þreyngíng minni, ad svoddan eg fyrir sjálfann þig, sigri og yfirvinni.

10. Heilagi Andi! lífsins leid, lýs mér á þessum degi, svo ad mín verdi gánga greid, Guds á bodorda vegi; saklaust Guds barn eg sé og hreint, sem feti utan trega, þá vissu vega, fylgi þér bædi ljóst og leynt, og lifi óstraffanlega.

11. Túngu og varir tem þú best, tilbyrgdu eyr-un bædi, íllt svo ad heyra ei áfýsist, augum þú stillíng gjædir, minna féta vert stjórnin sterk, stod veit hjartanu fljóta, til bestu bóta, nær þánkar, ord og vondsleg verk, vilja sig þar útbrjóta.

12. Heiminn upprœt úr hjarta mér, hættur svo fyrrist skadinn, ó Gud! þitt ríki aptur hér, inn-planta þar í stadinn, hvørt mitt køllunar háttalag, hljóta lát blessan frída, en falla qvída, minn lífs og sálar hreisi hag, hjálpin þín fyrr og sídar.

13. Heilaga Þrenníng gjædsku gjørn! gjør nú á þessum degi, hjá oss bústad, en vertu vørn, svo vondt eckért skada megi, þegar øll fjøllin søckva í sjó, sjest allur heimur brenndur, og hrøpun sendur, ó! lát þad sannast einninn þó, ad þú, Gud! hjá oss stendur.

14. Eins og þú færdir Israels þjód, yfir um hafid Rauda; midt svo í gégnum mædu-flód, megn-ar sorgir og dauda, leid þú oss inn í eilíft líf, æ svo þér heppnist gjalda, heidran margfalda, fyrir alla miskun, hjálp og hlíf, á himnum um aldir alda, Amen.

## Midvikudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Nú hefst nóttin og hylur dag.

Gud Fadir! sem mér frelsun lér, færi eg lofgjørd-ar offur þér, og þacka nafni þínu ótregt, því þad er svo huggunarlegt.

2. Því framar sem á foldu hér, fjølga mín ár og dagarner, þess framar reyni eg þína trygd, þýda elsku og hjartans dygd.

3. Þess framar, hvad nú þreyi mest, þeim eg deginum nálægist, á hvorjum færist heim til þín, og harmadægrin endast mín.

4. Æ ad eg hefdi umlidinn, ástkjæri Gud og Fadir minn! þennann dag brúkad þér í vil, og þinna bodorda munad til.

5. Ei svo heidi þitt ástríki, af mér módgast né réttlæti, áreitst, eda samvitskan særst, og sjálfum mér þíngra straff til færst.

6. Míns hjarta mirkur hrædileg, vid húmandi qvøld nú þecki eg, midnætti synda minna hér, midvikan gjørla sýnir mér.

7. Hvort skal eg fara og fordast þig, fljótt mun þín bølvan hitta mig, fyrst midt í þessu mirkri hér, mitt skrid-ljós nú útsloknad er.

8. Æ Gud! forláttu føllinn gróm, fell ei yfir mig reidi dóm, sýndu mér vægd og sálar skjól, set þig nú á þinn nádar stól.

9. Gleym minni skuld og gjørdri stygd, gleym aldrei þinni nád og trygd, gleym ecki í nótt ad gjæta ad mér, gleyma láttu mig aldrei þér.

10. Endurlausnari ástkjær minn, árnadar besti madurinn! handskrift ritada mér á mót, miskunin þín burt-taki fljót.

11. Þú lystilega lífsins tré, hjá lífsins vatnsfalli standandi, hvílast lat mig, svo hverfi pín, heilnæmum undir skugga þín.

12. Hvíl þú hjá mér þá sef eg sæll, sál mína

fadmur þinn yndæll, umvefji líkt sem únga kind, øllu skadrædi burtu hrind.

13. Liggi eg midt milli ljóna hér, lát þína engla þjóna mér, svo um mig skjaldborg setjist sterk, og samanhaldist þeirra kverk.

14. Øll hverfi hjartans órósemd, øll verdi neyd í burtu stefnd, svo hvílist eg af hørmum frí, og hyljist þínu tjaldi í.

15. Þú bænar andinn blessadi, brennuheitri medur gudrækni, unn mér ad halda komid qvøld, svo klockur afbidji synda gjøld.

16. Hafi nú fyrir holdsins glaúm, hyrdíng Kristinndóms verid naum, hjá mér í dag, og hjartad kaldt, þín hjálp og kraptur þad bæti allt.

17. Eina brennandi elsku á þér, aptur tendra og qveik í mér, ljós minnar trúar líka best, lífga, svo ecki útslockvest.

18. Þá eg mínum klædum af-færist, íklæd mig sjálfum Jesú Krist, nær augun lykja saman sér, samvitskuna lát vaka í mér.

19. Tali eg í mínu hjarta hér, til hvíldar gengð inn, þá veittu mér, ad eckért mitt ræduefnid sé, utann Jesús minn Frelsari.

20. Falli nú nockur ótti á, undirvísa mér sjálfum þá, ad eigi þurfi ugga um mig, af því medtekid hefi þig.

21. Í þínu nafni þrenníng blíd, á þessari dimmu nætur tíd, til hvíldar sig leggur holdid mitt, hylji mig nú almætti þitt.

22. Heimkynnid mitt og hjartad med, þitt háleitt innsigli vardhaldid, svo allir þig reyni allt í kríng, sem eldlegann múr og verndarhríng.

23. Hvørn sem vid þúnga og hormúng býr, hvørn sem erfidi og mæda lýr, hvørn sem ad grætur heims um lád, hjá þér lát alla finna nád.

24. Unni oss nú þín elska blíd, eptir rósama nætur tíd, dagsins med gledi líta ljós, lof þitt svo hefjum, dýrd og hrós.

25. Allt þángad til, (hvad ønd mín þreyr), eíngin mid-vika verdur meir, og leidumst þángad laus ir vid kross, hvar Lambid á stólnum fædir oss. Amen.

## Fimtudags Morgun Sálmur.

Lagid: O! Drottinn alsvaldandi.

Gud Fadir! minn forsorgari, fyrsta umhyggja skal nú mín, ad lofgjørd eg þér færi, fyrir ósegjanlega gjædsku þín, Fimtudags, ljós skín lýdum, léttir strax, myrkrum strídum, lífsins hags, held eg bloma frídum.

2. Jacobs þá søgn eg sanna, sjálfur Gud er í þessum stad, því hús mitt og hvílu-ranna, hefur þú, Drottinn! bevarad, skélfíng mér, máttu ei vinna, myrkrin þver, næturinnar, finn eg hér, fótspor elsku þinnar.

3. Hvad er eg, Herrann sæli! þú hylur mig svo med þínum væng, mitt hús mordíngja bæli, mín ei lík-kista, heldur sæng, vard í nótt, víst mér skaptur, vært og rótt, hvíldist kraptur, hrestist fljótt, og hefur sig tekid aptur.

4. Æ virdstu ad mér gjæta, allra nauda kéf mótkast, lát einninn miskun mæta, sem morgunroda frambrjótast, styrk mitt rád, stodu og sæti, stýr um

láð, mínum sæti, þín sé náð, sem þoka er landið vætir.

5. Kristi, Konúngur lýða, kyssa lát mig, øll svo mín, nemist burt nauðin stríða, náðarríkis spíru þín; andlit þitt, hýrt af hægðum, hét er mitt, líf með vægðum, sálin qvitt, sætum mettast nægðum.

6. Við mig gjør vægðarlega, verk minna handa framqvæm þú, fari eg villur vega, á vikunnar fimtudegi nú, þræli að, þínum leita, þú í stað, mér kannt breyta, og harms við bað, huggun nægja veita.

7. Þín náð mín gjæti og geymi, guðleysis øllum verkum frá, Djøfli, holdi og heimi, hlýðni svo einga gjøri tjá, fylgja lát, ferli þínum, fyrrast grát, sneiðast pínum, hafðu gát, Herra! á vegum mínum.

8. Drottinn! lát mig daglega, dómsins og løgmáls þrumu hljóð, minnast, svo meður trega, mína framgángi æfi slóð, og ydrist heit, hjarta-grundin, svo heims um reit, vat sé fundin, ei því veit, nær að fer dauða-stundin.

9. Hærsti heilagi Andi! mín hjálp og verndari æfkileg, þinn styrkleiki hjá mér standi, stiðji og hressi veikann mig, svo synda fjøld, safnist eigi, sem að køld, færa meigi, aptur gjøld, að endudum þessum degi.

10. Upplýstu innri parta, í mínum vilja helgidóm, bygg þér, en hreinsa hjarta, svo hyllist og stundi ráðin fróm; mig veiði fljót, vondra manna, véla-nót, æ það banna, minn vakta fót, frá vegi syndaranna.

11. Vyrðist mér í hlýðni halda, Herrans réttindi og boðorð við, samvitsku qvíðann kalda, kef, en sálunni veittu frið, þó byrlist mér, bikar tára, sá

beyskur er, minna sára, lát þad hér, lækníng verda klára.

12. Æ! géfdu ánægt hjarta, med allt sem mér tilskickad var, en upptendra innri parta, af eptirlaungun þess fjársjódar, ønd sem má, audga snauda, alla fá, líınn nauda, og hédan frá, eg hafa kann í dauda.

13. Heiløg Þrenníng á hædum! vér helgum þér bædi líf og sál, lát oss lausa frá mædum, lifa sem bjóda heiløg mál; heyr vort qvak, heims um tídir, harma-blak, reyna lýdir, oss medtak, til æru þó um sídir. Amen.

## Fimtudags Qvøld Sálmur.

Med sama lag.

Herra minn hærsti gódi! hversu vel hefur þú í dag, afstýrt meinum og módi, mínn og blessad lífsins hag, eckért hér, eynida stífid, aumum mér, tilféll kífid, þín gjædska er, og gódsemd betri enn lífid.

2. O Fadir! eg má játa, nær óverdugleika míns fæ gád, ad hafi í engann máta, af þér forþénad minnstu nád, minni eg er, elsku þinni, yfir mér, þó ei linni, æ ad þér, af alúd þacka kinni.

3. O! hversu alla vega, ad mér hefur þú, Drottinn! gjætt, forsorgad fødurlega, føllin hindrad vodahætt, mig umleidst, med þolgjædi, mín þú beidst, svo ydrast nædi, hefur því eydst, hjartans rauna flædi.

4. Géf ad eg sjái um sídir, synda minna vørt og stærd; en hvílík hrædsla og qvídi, hjartans fylsnum til er færd, þá gjædsku þín, grandvarlega, og glæpi mín, yfirvega, kraptur dvín, kafin sál er trega.

5. Eg hefi øll þín gjœdi, ílla brúkad, en forsmád þig, yfir mér er þín brœdi, ángist helvítis snertir mig, syndin ørg, eykur qvída, undin mørg, tekur svída, hvar er bjørg, hœli og skjólid frída?

6. Hjá þér eg hœlis leita, hjartans ástkjœri Fadir minn! hjá þér er elskan heita, hjá þér er fyrirgéfníngin; forlát synd, sekum vœgdu, sár um-bind, hegníng lœgdu, af nádar-lind, hinu brjósti hœgdu.

7. Jesú! mitt athvarf eina, einka traust og vonin mín, nú máttu ecki meina, mér aumum ad koma til þín; løgmál hardt, hrœdslu vekur, hjartad snart, qvídinn frekur, og óttast margt, af því eg er sekur.

8. Þó hafi eg mjøg til marga, mœdu orsøk í heiminum, samt skal þad sorgum farga, þitt sœta Evangelíum, nœgstann frid, nú frambýdur, nád og grid; sœrdur lýdur, hressist vid, hverfur óttinn strídur.

9. O Jesú! eg þig beidi, umbreyt í nád (sem þitt er hrós), þíns Fødurs þúngri reidi, þessarar nœtur mirkri í ljós, dauda í líf, ad ef œdir; ó mín hlíf! hvad sem mœdir, mér hjá blíf, mig þá eckért hrœdir.

10. Ef þú hefir nú eigi, ó minn Jesú! høfud þitt, mjúkast hvar ad þú hneigir, á hjartad í nótt þad leggdu mitt, hvíl í mér, Herrann sœti! svo hvíld í þér, ødlast gjœti, svoddan er, sálar eptirlœti.

11. O Gud heilagi Andi! mín einka gledi og hjálprœdid, mig innsigla (œ sem standi), arfleydslunnar teikni med, á skírnar heit, mitt géf minnist, mér þú veit, trúr eg finnist, ást þín neyt, aldrei svo ad grynnist.

12. Byggdu herbergi hœgast, í hjarta mínu sjálfsum þér, gjør vid mig allra vœgast, þá veit eg ecki neitt af mér, gyrnd óhrein, glepji ei sinni, glaum-

ur og qvein, eyrum linni, augum mein, engin skélfíng vinni.

13. Ad morgni uppvek mig aptur, á einni luckustælli stund, þá hrestur er holdsins kraptur, hægann eptir nætur-blund; enn ef ár, skal mín skérda, og skyldi ad fár, daudans herda, Jesú sár, fyrir sjónum lát mér verda.

14. Einninn lát alla mína, innsigli stødugt hafa þad: sjálfur Gud þeckir sína, sérhvörjum í heimsins stad. Vondra rád, hrapi hrønnum; hvíld og nád, frómum mønnum, þýd sé tjád, af þínum krapti sønnum.

15. Send ofs nú sømu anda, signúd þrenníng himnum á! kríngum þinn stól er standa, strax ad morgni viljum þá, hærstnm þér, heidur gjalda, hlífd fyrir, þúsundfalda; géf þad mér, Gud! um aldir alda. Amen.

## Føstudags Morgun Sálmur.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Gud Fadir! glêdin mín, gnægd, hell og kraptur, fyrir stod, vernd og stjórnan þín, stend eg upp aptur, vak upp mín dýrd, varanna harpa hljómi, svo verdi ei á hrósun hlé, en hjártad minn Psaltari, Guds lofgjørd rómi.

2. Fríun Føstudag á, fengid hef nýta, mín augu mirkrum frá, meiga nú líta, eyrun ei nein, óttasemd framar hrædir, fætur frelstir til sanns, frá snøru veidi-manns, mig eckért mædir.

3. O, frída frélsun þá, og fridar-gjøf ljósa! mín sál þar minnist á, en munnurinn hrósar; áfram

haldt Guð, í því frelsi að styðja, framvegis fría mig, frá því að styggja þig, géf gott að yðja.

4. Þess Vonda véla-nót, og veraldar manna, lát ei minn flækja fót, né follum anna, sundur-ryck hardt, hégómans øllum bøndum, sem hér vilja hjartað fest, svo himinin vidlosist, með hraustum høndum.

5. Lát í þeim hlutum hér, ei hvílast gyrnd mína, sem hvíld einga hafa í sér, heldur náð þína, inngéf þú mér, enn þó súrt byrlast megi, þín elska og blessan blíð, bæti það alla tíð, svo tempríst tregi.

6. Ef uppá koma kann, kross skuli eg bera, í mæðunni magnlausann, mig lát ei vera, varðveit og frá, forherdíng syndarinnar, fyrirgéf brotin blind, burtu neyð allri hrind, af nægð náð þinnar.

7. Guðs Son! mín frelsan fríð, á sóstudegi, þinn fallinn leystir lýð, linaðist tregi, líf sjálfur léttst, líf skeinktir fólki þínu, og fagrann frínnar-hag; það falli ei nockurn dag, úr minni mínu.

8. Í dag með Ísrael, af þrældóms helsi, útsloppinn eg mig tel, og úr fángelsi, leidd er mín sál, lof sýng eg þínu nafni, forða mér, frelsi því, að fyrirgjøra á ný, með synda-safni.

9. Heldur géf þóknist þér, og þjóni réttlæti, fyrst veittir fríun mér, Frelsarinn sæti, mig láttú þess, minnast um æfi stundir, að dýrkeypt þín eign eg er, aptur svo falli ei hér, þrældóms-ok undir.

10. Þinn kross í minni mest, mér í dag verði, þinn þyrnir, hørð og hvest, holdsins brek skérði, að þér mig drag, elskunnar noglum meður, einninn sé athvarf mitt, al-blóðugt hjartað þitt, þá sorg að sál hleður.

11. Blessaða balsamið, benjanna þinna, sút græði

og sárin skéd, samvitsku minnar. Lát mig í dag, ef daudanum skal eg mæta, þitt hneigda høfud ní, hjartþýdast kyssa í trú, svo hreppi hvíld sæta.

12. Nú ástar andinn dýr, minn ædsti vinur! þinn kraptur hressi hýr, hvad sem á dynur, gjør ad eg sé, Guds vin á þessum degi; heimsins vináttu ver, svo vinskap Guds æ hjá mér, formerkja megi.

13. Hvad fagurt frelsi í dag, fæ eg ad þiggja, lífs ef leidrétti hag, og læt þig byggja, í hjarta mér, hér med skilníng og vilja, undirgéf einnin þér, allri þad burthrindir, mergd mótgángs bilja.

14. Hjálpa svo holdsins stig, hafni ad gánga, ei heldur megi mig, meiníng ránng fánga; til Jerúsalem, hér sem er uppi á hædum, hef þú minn hug og lyst, heimsins úr daufri vist, og megnum mædum.

15. Þar verd eg frjáls og frí, fargad er hørmum, þar fljóta augun í, ei tárum vormum, þar er ei hætt, vid hrøsun og synda føllum, þar sýngur sigur vers, sál mín gladvær og hress, í himna-høllum.

16. Heilaga Þrenníng þýd, á þessum degi, frá þínum leysta lýd, lángt vertú eigi, í þér lifum, erum og líka hrærumst, þú ert efunarlaust, Israels von og traust, nád þinni nærumst.

17. Upplýpt yfir oss ní, þíns andlitis ljósi, lina kross, lífga trú; lífernid hrósi, þíns ríkis eblíng, í oss og sannleik klárum, sídast géf sælann deyd, svo sýngist þér vegsemd greid, á eilífdar árum. Amen.

## Føstudags Qvøld Sálmur.

Med sama Lag.

Gud! sem ad géfur mér, gott allt og veitir, til gledi og heilla hér, hag mínum breytir; lidna

dags=tíð, létst ei þurða né dvína, mig láta merkja það, þó minnst hafi forþénað, nockra náð þína.

2. Þú hefur það allt veitt, þörfin sem krafði, mig bresta mátti ei neitt, miskun um=vafðir, allt það gjörir, elskan þín tryggða hjarta; í krossins álagi, einninn þitt til mín sé, hýrt Föðurs hjarta.

3. Híngað til hjálpin þín, hefur mér bjargað, hrygð sefað, hrundið pín, háskanum fargað; æ að eg nú, Engla með túngu kynni, allri trygð, elsku, hægð, aðdjúkrun, náð og vægð, hýrt hrósa þinni.

4. En minkun og megna blygð, minn synda=fjöldi, eykur, svo eg=með hrygð, á þessu qvöldi, óttast fyrir, ángist, því hjartað beygir, að mitt þack=offur þér, þócknanlegt muni hér, víst verða eigi.

5. En eg þó aptur veit, nær ydrast sekur, þín hjarta gjæðskan heit, hardt burt ei rekur, hann sem Jesúm, hendi með trúarinnar, höndlar og heldur fast, hver sá ei fortapast, sem klár Guðs orð kénna.

6. Í þessu trausti og trú, til míns lífs enda, mig vernda og varðveit þú, vyrðst einninn senda, mér þína vakt, myrkvar um nætur=stundir, svo ugglaus og ángurs=frí, eg þinni hlífð á ný, enn hvíli undir.

7. Guðs Son! sem gjörðir mér, gott allt til=vinna; hver mann nú hugsa fer, hvíldar til sinnar; eg hugsa um synd, því hugsanir allar mínar, (hvað sárt mitt hryggir géð), hafa í dag verið, síst svo sem þínar.

8. Reiðinnar þánka þó, þú ecki hefur, til mín, en frið og fró, fús um mig vefur, æ minnustú mín, mjög þá vill neyðin þýngja, eins og þú miskun með, minntist við andlátið, þess auma ræníngja.

9. Æ! lát af umhugsun, undanna þinna, hollustu

hugsvølun, hrygga sál finna, hyl mína synd, hafs í blóðraudu djúpi, ógn Satans allri ver, en þínar verndanir, mig hylji og hjúpi.

10. Skuli eg hneigja hér, mitt höfud nidur, og heiminn, sem ásett er, ört skiljast vidur, lát þad hneigast, svo hamli ángurs þjósti, og sjatni allt sorgarbað, sjálfs þíns, minn Jesú! ad, blód-runnu brjósti.

11. Eg kyssi þín signud sár, og segi óstadur: þér lifi eg lífs um ár, líka dey gladur, svo hvert eg lifi, lífs edur feril endi, ótvílugt er eg þinn, ástkjæri Jesú minn! og loks hjá þér lendi.

12. Ædsti Guds Andi þú! ádreif nú mínar, bænir, blódi Jesú, og bón tillegg þína, innsigla þær, hans ángistar-hrópi medur, þad sé míns hjarta hrós, heill, gledi, traust og ljós, þá skúr hrygða skédur.

13. En þegar eg færist, af mínum klædum, klæd þú mig klárum best, krapti af hædum, þess vonda Djøfuls, vél-fullum svo eg hljóti, øllum áráѕum gégn, orku og sigur-megn, en hvíldar njóti.

14. Hvíldar þá hallast til, holdid mitt þjáda, og limmmun lúnum vil, leita hér náda, mér vertú hjá, myrkum á nætur-stundum, veit min sál viss um sé, værast eg þá hvíli, í Jesú undum.

15. Lát mig þad hugsa hér, hverjar qvøld-tídir, ad qvøld lífs áqvardad mér, kémur um sídir. Set Jesú kross, sæng í nótt fyrir minni, sem sigur-merki mætt, mun þá vid engu hætt, í umsjón þinni.

16. Mík og bleyt hjørtun hørd, heit ydran dafni, ad syndum og glæpa-gjørd, eg grátandi hafni, en safnist undir, sjálfs Jesú nádar-merki; ástfólgna einninn mér, eg óska þú best styrkir, í því vanda-verki.

17. Prenníngin gjædsku-gjørn, guddóms á hæd-

um, vertú sól, ljós og vørn, veikra hrind mædum, hald fyrir oss, í háskanum verndar-skyldi, svo hús vort og heimili, hulið og vardveitt sé, med þinni mildi.

18. Otta og ógn burt svipt, einninn hrind vanda; en þessa yfirskrift, á allra lát standa, húsi og hjørtum: hér er Gud med oss øllum. Hver vill mót vera þá? Veit oss þig lofa og sjá, í himna-høllum. Amen.

## Laugardags Morgun Sálmur.

Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú.

Rís upp, mín sál! ad nýu nú, nád Guds þíns Fødurs prísa þú, sem gledi og ljós þér géfur, um lidna tíd, hans trygdin fríd, þig trúlega verndad hefur.

2. Í stórum háska eg staddur var, stór var máttur míns óvinar, á nóttu umlidinni, er sat um mest, med svikin vest, sálu ad granda minni.

3. En þinn kraptur og voldug vørn, var þó lángt stærri, øll þín børn, ad vernda alla vega; ad morgni þér, nú þar fyrir, þacka eg hjartanlega.

4. Æ! eg hefi nú ecki neitt, utan hvad mér þú hefur veitt, ó Gud! þér endurgjalda, fyrir alla nád, sem er mér tjád, og adstod þúsundfalda.

5. Ljúft þér eg helga lífid mitt, ad lifandi offur veri þitt, sálin eign ævarandi, heitt elskandi, þig hjartad sé, heidur þinn túngan vandi.

6. Einum hlýdi og unni þér, allir míns hugskots kraptarnir, limirnir þjónkan þýda, best veiti hér, svo bitist mér, blessunar nægdin frída.

7. Eg bid, þú mér þennann blessir dag, svo blífi

eg við það háttalag, er mín køllun útkrefur, en treg-ist síst, að vinna víst, verk sem þú boðið hefur.

8. Míns lífs tilfellum stjórna og stýr, stofnist í dag mér harmur nýr, þá lát ei þolið bresta, verði á mér, þinn vilji hér, víst er hann það hið besta.

9. Minn høfuð kénnimaður hér, mildi Guðs Son! eg hreisi mér, upp nú í undum þínum, hverjar í nótt, mig huldu rótt, hømludu ótta og pínum.

10. O! lát þær vera einn þann brunn, sem ør-þyrstum mínum sálar munn, svølun best gjøri býta, og glugga þá, er gégnum má, Guð í náð til mín líta.

11. Lát þær forþýða fyrir mig, falli svo til eg styggi þig, Drottinn! á þessum degi, og athvarf ljá, í eymd og þrá, í þeim svo felast megi.

12. Allt hvað mitt hjarta eptir þreyr, allt það mér géfa kannt, og meir, allt stoða í efni mínu, allt sé mitt ráð, áform og dáð, eptir hjartanu þínu.

13. Með þínum krapti mig útbú, mér frá þeim breiða vegi snú, braut lífs svo beina þrædi, eg vona að, þú gjørir það, þín fyrir hjarta-gjædi.

14. Lát mig í dag svo lifa á fold, lífi nú svipt ef verður hold, að mér þá auðnast megi, sætast í þér, að sofna hér, svo sáluhjálplega deyi.

15. Heilagi Andi! ljós mér ljá, lífsins vegum að gánga á, lát mig og hreinni halda, samvitsku best, svo særi ei mest, synd og misgjørðin kalda.

16. Véirædum øllum vernda frá, viðhald nær freisting geysar á, offéknir allar lægðu, ráðlegg þú mér, þá efa í er, øllum lífs mæðum hægðu.

17. Yfir þannkum og orðum mín, yfir-ráð hafi stjórnin þín, yfir mér áft þín blífi, yfirvald það, sé óraskað, yfir sálu og lífi.

18. Ad gódum ilm fyrir Gudi hér, gjør allar mínar athafnir. æ helga innri parta, umsorgun ver, sem órétt er; einnig mitt frída hjarta.

19. Lát mig Guds ríkis leita fyrst, líka hitt annad mér géfist, sem ad klædir og sedur, géf eg mig þér, géf þú þig mér, gáfunum þínum medur.

20. Heilaga Þrenníng hjálpar sterk, hjá mér fullkomna hid góda verk, vid þessarar viku enda, umlidnum gleym, og glæpum þeim, sem mig rédu á henni henda.

21. Þar til ad heimsins dagur dvín, dýrkeypta vardveit kristni þín, þolgædi veittú veikum, í von og trú, oss vidhald þú, vér svo ad aldrei skeikum.

22. Hvílist yfir mínum og mér, margfaldar þínar blessanir, ætíd og alla vega, svo fulla nægd, og fridar-hægd, hér fái og eilíflega. Amen.

## Laugardags Qvøld Sálmur.

Med sama lag.

Upphaf bædi og endirinn, eilífi Gud og Fadir minn! sem bevarar mig og blessar, nád þín var þad, ad uppbyrjad, eg hefi viku þessa.

2. Fyrir þá sømu þína nád, þú sem mér nægsta hefur tjád, eg hana enda líka, æ! hversu ber, eg þýdast þér, þacki misskunsemd slíka.

3. Allt mér þú fyndir elskulegt, eg þó hafi þig módgad frekt, og bodum burtkastad þínum, sú elska skjær, sem er frábær, undrun fær huga mínum.

4. Mín þó nú synd og misgjørdir, mjøg séu stór-

ar fyrir þér, og áklögun vilji veita, mitt tilflugt skal, í táradal, til þinna fyrirheita.

5. Hvar yfirgnæfa afbrot-leið, þar yfirgnæfir mildin greið, synd qvittast, sorg burt hafin, hugg-unin sú, mig hressir nú, hrygdum og ángist vafin.

6. Annað þú heimtar ekki af mér, aumum synd-ara, enn færi þér, knosað og kramið hjarta, sem stynur þrátt, og þreyir brátt, þinn náðar geislann bjarta.

7. Svo lángt í burt sem austrið er, innt frá vestri, svo gjør þú mér, fjarlæga illgjørð alla; þitt náð-ar-regn, mitt næri megn, nú lát það á mig falla.

8. Unni mér, Guð! þín elskan blíð, enda svo þessa vikn-tíð, að endir farsælann fái; en eptir minn dag, og eymda hag, eilífri rósemd nái.

9. Jesú minn fríði Frelsari! sem fullnægðir Guðs løgmáli, brot svo að bættir lýða, þitt réttlætis-skart, blessað og bjart, best-láttú mig nú prýða.

10. Innilyk mig í undum þín, en þitt blóð hreinsi sálu mín, frá synda fría bøndum, teiknaðu mig, trygð hjartanleg, trúlega í þínum høndum.

11. Meðal forsjálu meya hér, mig láttú finnast, svo að þér, megi í móti renna, líka til sé, með log-andi, lampanum trúarinnar.

12. Þar eg má vera þenkjandi, þessa heims endir kominn sé, bú mig til best sem hlýðir, það eg með gleði og þolugt géð, þinnar tilkomu bíði.

13. Svo sem þín hjartans elska og ást, aldrei nockr-um trúndum brást, hrygð þó að mætti henda, vert oss svo hjá, og vík ei frá, veraldar allt til enda.

14. Á oss lát fyllast orð þau klár, að einn og sérhver sem að stár, stöðugur allt til enda, hólpinn skal sá, og himnum á, hjá þér um síðir lenda.

15. Þá skal þig prísa um eilíf ár, eilíft þar sem þitt ríki stár, og eilífð tekur ei enda, hvar einginn mein, né ángist nein, oss kann framar að henda.

16. Þú bænar andinn blessaði, bæn mín veit að réttskickuð sé, brest fylltu bæna minna, hörmunum í, svo haldi frí, hæðanna upp til þinna.

17. Hér næst géf mér að þeinkja um það, í þessum heimi samastað, hvikulann hafi lýðir, héðan í frá, því hverfa má, hérvistin dvín um síðir.

18. Undir minn dauða óvissann, æ míg tilreið, svo komi hann, að mér sofandi eigi, vaka mig lát, og géfa að gát, hvört geing eg á réttum vegi.

19. Mitt ef að líf til morguns skal, mæðunnar vara hér í dal, æ! þá vek mig upp aptur, til andlegs lífs; en aukníng kífs, alla þinn hindri kraptur.

20. Herrans á morgun hátíð er, í heilögum ótta veittu mér, hana eg haldið gæti, svo orð Guðs best, mér innrætest, einnig minn lifnað bæti.

21. Með elsku Jesú og hans náð, innsigla mína hvíld, svo bráð, eingin hér ógnan grandi, yfir oss vak, og að þér tak, alla mér tilheyrandi.

22. Öllum kross-þjáðum veittu vægð, vertu sorgbitnum ljós og hægð, þeim þyrstu svölun sendu,

hvern einn með gát, það hugsa lát, hérvistin tæpt hvað stendur.

23. Þrenníng heilaga! þín ei ár, þrjóta, en allra hluta klár, endíng sér að nú hraðar; æ! þína náð, og elsku dáð, ei lát samt takmarkaða.

24. Burt úr dauðans- og harma-hil, himneskr-ar viku upphafs til, sem arfleifð er lofuð þinni, leið þú oss hér, þá lífið þver, og leysumst frá veröldinni.

25. Þar að fagna um eilíf ár, unn þú oss fyrir Jesú sár, dreyra og dauðann kalda, virðíng og dýrð, þér verði skírð, vor Guð um aldir alda. Amen.





# Þ r i d j u.
# V i k u S á l m a r,

Qvednir af

Síra Sigurdi Þórdarsyni,
fyrrum á Brjámslæk.

## Sunnudags Morgun Sálmur.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Saung nýjann hefjum, sála mín! Sunnudagsljós yfir ockur skýn, gjæt ad hvert gagn þad veitir; gjæt ad hvad þú skalt gjøra í dag, gagnlegt ástunda vinnulag, en ei um annad skeitir.

2. Sólar ljósid upprunnid er, áminníng holla géfur þér, ad myrkra verk ei vinnir, heldur skal ljós þitt loga bjart, svo lítast megi þín gódverk snart, en dýrkun Fadirinn finni.

3. Þitt verk á þad ad vera fyrst, voldugann Gud og Jesúm Krist, med ljúfum ástar-anda, ad lofa og dýrka ljúft sem kannt, lát þér um þessi verkin annt, vegsemd honum ad vanda.

4. Seg því af alúð, sál mín kjær! sé lof þér heilög þrenníng skjær, fyrir vernd og velgjerð þíða, er um nótt þessa auðsýndir, íllt hefur ekkért grandað mér; blessað sé nafn þitt blíða.

5. Nú mín er leyst af lángri pín, líkaminn svaf í geymslu þín, ó, Guð minn! hjálpar hraður, og nú heilbrygður uppstaðinn, er eg af nætur rúmi einn, hér af í hjarta glaður.

6. Gleðjum ockur nú önd mín góð, ockur er sagt með fögur hljóð: í Guðs hús eigum gánga, hvar minning nafns míns haldin er, helst vil eg koma, Drottinn tér: þar skaltu farsæld fánga.

7. Yðja þín sé því í þeim stað, athuga skyldir, sál mín! það, orð Guðs ydka og læra, það heit varðveita í hjarta þér, og heilnæma (sem kristnum ber), ávexti af því færa.

8. En af sjálfum oss erum vér, í eingann máta duglegir, einu góðu að orka, ekkért veit eg því annað ráð, enn biðja Guð um hjálp og náð, sem allt kann vel að verka.

9. O Guð! í dag þess unn þú mér, í heilagleik svo þjóni þér, að þér mín athöfn líki,; í orðs þíns ljósi leið mig nú, svo leið þá rati, er vísar þú, en aldrei útaf víki.

10. O Jesú! mína sál nú seð, sætu himnanna brauði með, sem er þín sannleiks ræða, fyll af henni mitt hjartans kér, hana lát síðan verða mér, ilm lífs eilífra gjæða.

11. Heilagi Andi, Herra Guð! í hjarta mínu ebl, eg bið, yðran, trú og kjærleika; lát mig minn lífnað vanda vel, veit mér þolinmóðt hjarta-þel, í hrygð, sem ei kann skeika.

12. Heidur, lof, dýrd, á hverri stund, hæstlúni fødur á alla lund, sé ætíd søgd og framin, Jesú Kristó, sem leystir lýd, lofgjørd af øllum vandist blíd, med heiløgum Anda, Amén.

## Sunnudags-Qvøld Sálmur.

Lagid: Náttúran øll og edli manns.

Sunnudags qvøld nú komid er, kjær mín sál! ad því gjætum; sólin í burt frá sjónum þér, sér veik med degi mætum, Herrann Jésús, ljúft heimsins ljós, ljóma sinn þér þó gefur, þennann dag þú, þad reyndir nú, þackar sú velgjørd krefur.

2. Ljós dagsins er nú lidid burt, ljóssins Fødur því skyldir, af hjartans grunni heidra bert, og hrósa tídt hans mildi, sem þinn í dag, vel virdtist hag, frá voda øllum geyma, íllt gjørdu þér, ei andatnir, sem undir lopti sveima.

3. Í dag hefur þig Herrann fært, ad haga fagur-grænum, af ferskum vøtnum fékk þér tært, frjófgunar krapti vænum, þú máttir því, þeim haga í, þitt fódur nóglegt taka, þar fyrir þér, þídléga ber, þackargjørd láta vaka.

4. Seig þú lof Drottni, sála mín! síst því úr minni kasta, sem Guð í dag af gjæsku sín, gjørdi þér til hins besta, þessu jafnframt, þér láttu tamt, þína dags vinnu grunda, svo athugir, hvad ógjørt er, af því sem bar þó stunda.

5. Ord Guds heyra áttir í dag, einninn þad heyrt ad læra, af því sídan med allgott lag, ávexti holla færa; en hvad er skéd? hvør fær nú sjed, hjá

þér áverti slíka, vökva snaud; dörd; varstu sú jörd, sem varla kann regnid mýkja.

6. Tak nú gott ráð, því tími er enn; til þíns Skaparans flýa, játadu þínar syndir senn, svo mun hann þér ei mýa, augliti frá, frelsun meir fá, og fágun syndá þinna; ef þú af rót, bidur um bót, brádt mun þá ángrid linna.

7. O Fadir; Fadir; forlát mér! fyrir Jesúm, eg beidi, afbrot mín öll, sem í dag hér, uppegndu þína reidi; sökk þeim á kaf, í sjáfar-haf, Sonar þíns forþénustu, enn minni önd; þín mildá hönd; méddeili huggun bestu.

8. Vertú nú hjá mér, Herra kjær! því halla tekur degi, annars hvíldin hentug og vær, holdinu greidist eigi, svefn auga-brá; þó sígi á, samt vaktú mér í hjarta, og láttu mér, hægt skína hér, huggunar ljós þitt bjarta.

9. Lát Engla þinna öblgann flock, á þéssum nætur tíma; sitja kríngum minn sængur-stock, en Satan burtu rýma, svo orki ei, það arma grey, auka mér nockra pínu, heldur mér rótt, vel verdi í nótt, í vængja skjóli þínu.

10. Í nafni þínu, ó Jesú! eg vík ad hvílu minni, líf, sál, eign, vini, bæi, bú, befel eg geymslu þinni, þá myrkrid dvín, en morgun skín; mig lát heilann uppstanda; packargjörd þér, af munni mér, svo meigi hjartad vanda.

11. Sé þér, Gud Fadir! súngin dýrd, med Syni og helgum Anda, eins sem var ad upphafi skírd, og æfinlega mun standa; veit þú, Gud! mér, medan velkist hér, venjist þitt lof margfalda, og sídan þér, med Engla her, eilífa vegsemd gjalda, Amen.

## Mánudags Morgun Sálmur.

Lagið: Faðir vor sem á himnum ert.

Ljóssins Skaparinn líknsami! í ljósi sem býr ófiunandi, lof sé þér fyrir ljósið gladt, ljósið nóttinni burtu hratt, ljós dagsins eg nú litið féck, líf = heill af nætur = rúmi géck.

2. O Guð! hvað stór er gjæðska þín, glöð má það játa øndin mín, engin ónáðan, eymd né sótt, yfir mig kunni falla í nótt, allt hvað andað fær þacki þér, fyrir þýða vernd sem veittir mér.

3. Svo sem nátt = myrkrið sólin skjær, með sínu skyni afmáð fær, eins bið eg, Guð! almætti þitt, afmái synda myrkrið mitt, með ljósi náðar, svo eg sé, sífeldt íklæddur meinleysi.

4. Enn framar, Drottinn! eg bið þig, augum náðar þú vildir mig, álíta, og minn allann hag, annast og blessa þennann dag, svo vilji, ráð og vinnan mín, verði til dýrðar nafni þín.

5. Boðorða þinna vissann veg, vísa mér, Guð! svo kunni eg, eptir þeim laga lifnað minn, en limskufullra selskapinn, forðast, svo hallist frómum að, færir mér góða nytsemd það.

6. Náð þín, minn Guð, blessuð og blíð, brynji mig í það hverndags stríð, sem Djøfull, hold og heimurinn, hefja mér mót með selskap sinn, send mér þinn krapt að svoddan hér, sigra kunni. Eg treysti þér.

7. J svoddan trausti víst eg vil, verks míns fagnandi gánga til, í eingann máta efandi, aðstoð mér munir géfandi, hjálpa þá skilst eg heimi frá, og hvíld erfiðis láta sjá.

8. Fyrst sérhvers verk honum fylgja fer, frómt eda vondt sem gjørdi hér; lát mig þad eina adhafast, er þinni nád meigi þóknast, svó tignar þinnar trúr sé þjón, og trúrra géfins fái laun. Amen.

## Mánudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla eg á.

Himneski Gud og Herra minn! heidur sé nafni þínu; ad þennann dag létst Engil þinn, øndu og lífi mínu, halda svo vid med hollri vakt, ad hreppti eingánn skada, né hrøsun hrada, satans eyddir þú svika magt, samvitsku hef því glada.

2. O! hvad margur mann mun í dag, mein og slis ratad hafa? enn þú virdtist minn allann hag, annast og blessan géfa, því segi eg þér nú þackargjørd, þú fødurs ljóminn skjæri, minn kóngur kjæri! veit medan eg hjari hér á jørd, heidur þinn syngja læri.

3. Gjæt ad; mín sál! ad sólin er, sígin ad vidar-rótum, en nætur ljósid aptur þér, upprann med gángi fljótum, ei túngl, sem heimsins teiknar glis, og trad sú lystum gjædda, qvinnan sól klædda, heldur himneskt háturna blis, í heim, sem uppljómar fædda.

4. Minni er eg, Dróttinn! miskun þín, mér, sem þú hvern dag veitir, aví! ad synda íllskan mín, ofmjøg þig reidi-reitir, aví! eg hefi elskad dátt, opt med gjálífi stóru, þá gomlu hóru, atvik hennar á állann hátt, ótrygg mér næsta vóru.

5. Vélafull hún svo villti mig, af vegi bodorda þinna, ad ránglætis ráfandi stig, réttri leid vildi

ei sinna, heldur anadi eins og svín, áfram í svodd-
an villu, og øllu íllu, alla þessa ógjæfu mín, eg
hlaut af Satans frillu.

6. Eckért veit eg nú annad ráð, enn þín, minn
Gud! ad leita, og bidja þína blíða náð, bestu mér
vægð ad veita; segjandi: Fadir! forlát mér, fyrir
miskunsemd þína, misgjørdir mínar, lát mín íllverk
fyrir augum þér, afmást og nafni tína.

7. Nú sígur yfir svarta nótt, svo þrenttir hvílast
megi, veit, ó Jesú! mér verdi rótt, vík þú burt frá
mér eigi, opid er hjartans húsid mitt, Herra! ef
viltu þyggja, þar inni byggja, kjørid herbergi þetta
þitt, þig skal ei burtu styggja.

8. Æ Gud velkominn, Gud minn trúr! gack þú
med mér til hvílu, nafn þitt er hollur hlífdar múr;
hjálpar veitandi skílu; verndi mig hyrdirs høndin
þín, svo hætt myrkra = pest ei saki, hvíld heldur taki;
holdið; þó sofi, sálin mín, sífeldt glød til þín vaki.

9. Allann mig, Drottinn! eg géf þér, alla þá
stund eg hjari, allt þad gott sem þú unntir mér, al-
mætti þitt bevari, allir Englar og allir menn, allt
hvad sig kann ad hræra, og lofgjørd læra, allt segi
þér, Guds Eining þrenn! eilíf sé dýrd og æra;
A m e n.

## Þridjudags Morgun Sálmur.

Lagid: Skaparinn Stjarna Herra hreinn.

Þér, Drottinn! fólkid þackar allt, þér í hjarta
lofgvædid snjallt, færir, og sýngur fagurt vers,
fullkomleg skylda krefur þess.

2. Af því, Herra! þin høndin sterk, héfur á jørdu

frægdár-verk, unnid svo mørg, ad enginn mann, út-skýra það né telja kann.

3. Eitt má eg reikna ødru med, er það nú vid mig framkomid, ad þessa nótt þín hjálpar hønd, hefur verndad mitt líf og ønd.

4. Satan girntist ad svíkja mig, svoddan hans brøgdin flærdarlig, unnu þó skada engann mér, á eg það, Gud! ad þacka þér.

5. Mig hefur, Gud minn! gjædskan þín, geymt þessa nótt frá allri pín, virdtist blessa minn veik-ann hag, veittir ad líta bjartann dag.

6. Hann nú ljómar af ljósi skír, lifnar sképnan føgur og dýr, himinsins fuglar hefja dans, hrósandi verkum Skaparans.

7. Pridji dagur nú þetta er, þrennt mér í agt því taka ber, lofa og bidja ljúfann þig, leggja síd-an til verka mig.

8. Af øllu hjarta eg þacka þér, það skal ljúft jáfnan vera mér, medan lifi þitt lof ad tjá, láta Gudina þettá sjá.

9. Minn Gud! hvern morgun minnist eg, þín mildi-verkin guddómleg, af því hjálpari ertú minn, undir væng þínum gledi finn.

10. Svo sem dags-ljóma ljósid bjart, lýsir upp nætur myrkrid svart, eins virdist synda sortann minn, snjóhvítann gjøra kraptur þinn.

11. Eg hrópa, Drottinn! upp til þín, árla fyr-ir þig bænin mín, kémur, því virdstu vísa mér, veg þíns bodords sem réttur er.

12. En sjá, minn Drottinn! eg bid þig, á þess-um degi lát þú mig, framqvæma það sem þér er þéckt, þar med náunganum gagnlegt.

13. Vernda mig øllu íllu frá, Engla hird þín mér standi hjá, geymandi, svo mér grandi síst, grimmur Djøfull med strídid níst.

14. Þegar lífs-dagur lidinn er, og lúinn eg frá vinnu fer, géf mér þá hvíld og gódann frid, Gud minn! vid þína hægri hlid, Amen.

## Þridjudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Vid dauda mig ei verja má.

Sannlega skyldugt segi eg mér, sýngja lof þér. Drottinn Gud dýrdar Kóngur! af því svo mikil er þín nád, ei fá þad tjád, Engla né manna túngur, sem himin hér, hátt uppi er, eins miskun þín, yfir þeim skín, í þínum ótta gengur.

2. Dag og nótt gjørdir, Drottinn! þú, dvína ei nú, dýrdleg verk handa þinna, svo þeir sem høfdu heitann dag, hardt vinnu-lag, hvíld megi í myrkri finna, sú skickunin, síst þverrar enn, sólin því fer, frá sjónum mér, ódum vill ljósid linna.

3. O minnar sálar unnusti, ástkjærasti, einka hyrdirinn sauda! af hjarta gladur þacka eg þér, þennann dag mér, fordadir føllum nauda, Andskotans slærd, og íllsku stærd, ecki gat mein, mér unnid nein, edur hrundid í dauda.

4. Mig hefur Engla hyrd þín há, høndum sér á, borid á brautu minni, svo féck eg ecki fallid neitt, né fætur meidt, mína á minnstu steinum, þó hefi eg hér, þad sem ei ber, þackad né því, lýst lofgjørd í, leystur er eg frá meinum.

5. Forlát þú mér þad, Fadir minn! fyrir Soninn þinn, og alla misgjørd mína, afmá þú svo sem

annad ský, enn mig á ný, hreppa lát huggun þína; skapa í mér, hreint hjarta hér, minn trúar-hør, tendrarann gjer, svo tregdu-laust megi skína.

6. Lát þú og guddóms ljósid þitt, lýsa upp mitt, hjarta, þó holdid sofi, þá megi ætíd øndin mín, í elsku þín, vaka svo vonin lifi, um rúmstad minn, Engla flock þinn, vagn-borg lát slá, vodanum frá, verndi, svo vel heill blífi.

7. Til hvílu eg ad hátta fer, enn Herra þér, befel mitt líf og limi, æru, vit, sinni, sjón og sál, heyrn, minni, mál, ad miskun þín þad geymi; sé þér, Gud! dýrd, súngin og skírd, Lausnara prís, ljúfum sé vís, med heilögum Anda, Amen.

## Midvikudags Morgun Sálmur.

Lagid: Væri nú Gud oss ecki hjá.

Líknsami Fadir! lof sé þér, ljósid er aptur komid, sólin upprenna fögur fer, flýr í burt nætur húmid, af því er tími upp ad stá, embættis vinnu stunda á, en hafna hvílu rúmi.

2. Þú, Drottinn! hefur þessa nótt, þinn fagra Engla skara, mitt líf og sál frá myrkra sótt, mjög vel látid bevara, svo þad øskrandi ólma ljón, ecki gjørdi mér nockud tjón, hann vard á flótta ad fara.

3. Af því lofi þig øll heims þjód, og mikli lýdir allir, med lófa-tak og hýrleg hljód, heidur þinn sýngi snjallir, þvíad þín miskun eilíf er, med ordi heimins skapadir, Engla og himna hallir.

4. Þín hefur voldug høndin há, af hærstri nád og mildi, sólina festíng sett uppá, sem deginum

stjórna skyldi; hún lýsir, vermir, lífgar jørd, lætur svellin fredin og hørd, verda sem var í eldi.

5. Jesú! réttlætis sanna sól, sorgandi eg þig beidi, vertú í dag mitt voldugt skjól, vardveitsla þín mig leidi; upplýs þú hjartans myrkur mitt, mín afbrot virdstú ad géfa qvitt, sem reittu þig til reidi.

6. Ljós dagsins brúka láttu mig, til lofs og dýrdar þínu, nafni, svo mitt hold megi sig, metta af erfidi sínu, af lopti, jørd og hafi hér, hagqvæma blessan sendu mér, sem nægi mér og mínum.

7. Þá mitt líkhamlegt ljósid dvín, og lífid tekur enda, hjástod virdist þá, Herra! þín, hvørgi burt frá mér venda, leid mig úr sorg í sælu inn, svo eg megi þá, Drottinn minn! hjá þér í lífs-høfn lenda, Amen.

## Midvikudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Gjædsku Guds vér prísum.

Þad er heilnæmur hlutur, ad heidra Drottinn vorn, af hæd sem ofan lítur, yfir mannanna børn, svo huggi herteknа, døpur daudans børn leysi, og dróm-reirda uppreisi, inntaki útrekna.

2. Hann sem er mitt hjálprædi, hlífd, von og øruggt traust, mér veitir margføld gædi, og mjúka Fødurs ást, hann opnar sína hønd, ellu því anda hefur, uppheldi néglegt géfur, um loptid, sjó og lønd.

3. Því er eg þar til skyldur, þig heidra, Drott-inn sæll! ad þín ástsemd því veldur, enn nú eg lifi heill, og hefi ekkért mein, híotid, né hørmúng sára, hønd þín réd mig bevara, eins og þinn auga-stein.

4. Hvern morgun Herrann lætur, heita upprenna

sól, hennar ljóss ljóminn mætur, lýsir upp heimsins hjól, sú sól nú geisla sín, af því er dagsins endíng, mér uppørfunar bendíng, að vigta verkin mín.

5. Þau eru eigi annað, enn íllska syndsamleg, margt það sem mér var bannað, mótsnúinn gjørði eg, og mitt réttlæti er, eins og óþecktar klædi, allsaurgað með blóðslædi, ránglæti reynast ver.

6. Ef réttlátur sjø sinnum, syndgar og upp þó rís, ránglåts manns fleiri finnum, føllin til synda vís; ó! hvað opt eg mun þá, nú í dag hrasað hafa, í hættu og synda kafa, sem ei kann út úr sjá.

7. O Fadir! eg þig beidi, í nafni Sonar þíns, refsa mér ecki í reidi, ránglætis vegna míns, heldur miskuna mér, eptir nádar nægð þinni, náqvæma svo eg finni, hjálp og huggun hjá þér.

8. Vertú mér nú nálægur, med nádar verndán þín, í nótt svo óvin slægur, ei kunni ná til mín, edur nein auka grønd, afstýr þú íllum draumum, og freistínganna straumum, sem mína særa ønd.

9. Líkamann, sál og sinni, set eg í geymslu þín, en þá lífs þessa linnir, lángsamleg eymd og pín, og sálin fer mér frá, leið mig í lífsins mæti, svo lof þér, Herra sæti! megi án mædu tjá, Amen.

# Fimtudags Morgun Sálmur.

Lagið: Herra Guð í himnaríki.

Rís upp af svefni, sála mín! sjá dagur er nú kominn, sólin fagurt á fjøllum skín, forgyllir allann heiminn.

2. Hún vermir allt það er um heim, og það í

sjónum hvílíst, enginn hlutur af øllum þeim, fyrir il hennar skílist.

3. Láttú því hennar hita skín, hjarta þíns kulda dofa, útrýma, svo elskuga þinn, med alúd megir lofa.

4. Hann sem adgjætir Ísrael, og Jósephs líkt sem sauda, hefur í nótt þig verndad vel, vid fári, qvøl og dauda.

5. Morgunljósinum fylg þú fljótt, fær honum lofgjørd hýra, ad þér til verndar enn í nótt, Engla vakt setti dýra.

6. Þig, minn Gud! lofa ljúft eg vil, líf medan þú mér endir, hafid þú búid hefur til, og hvad þar inni syndir.

7. Allt þetta vonar uppá þig, enn þú því fædslu veitir, hvenær þitt andlit hylur sig, hrædsla þeim mjøg umbreytir.

8. Nú bid eg, Gud minn! gjædsku þín, gjør mig af syndum fríann, afmá þú gjørvøll afbrot mín, en anda géf mér nýann.

9. Veit mér adstod, Gud Herra minn! blíf mér med miskun þinni, ad þennann dag, óvinurinn, engann mér skada vinni.

10. Lát þú mitt verk og vinnulag, veglega framqvæmd hljóta, minn deildann verd mér veit í dag, vel svo hans megi njóta.

11. Mér bid eg fylgi miskun þín, medan eg er í lífi, ad eg, nær þrítur æfin mín, í þínu húsi blífi, Amen.

Fimtu-

## Fimtudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Þér, Gud! af hjarta þacka eg, í þeirra helgu rádi, verkin þín eru voldugleg, vel kjær þeim þeirra gádi.

2. Stadfest eru um aldir þau, eins þinn sáttmáli blífur; herralegt er þitt heiti mjøg, og heilagt ad eilífu.

3. Dagur og nótt þau eru þín, þeim sól og stjørnur lýsa, túnglid um nætur skjært og skín, stickun þessa eg prísa.

4. Einn dagur lífs míns lidinn er, lof sé þér, Herrann frómi! þannig ad dauda þokar mér, og þeim sídasta dómi.

5. O Gud! þad er alvara mín, ad prísa nafn þitt skjæra, sem mér hlífdi frá hverskyns pín, heidur sé þér og æra.

6. Margt í dag hefur þú mér vel gjørt, og mig í nád kórónad, en eg hefi þín bodord bert, brotid, og syndum þjónad.

7. Þar med hef eg mér safnad sekt, en sært þitt Fødurs hjarta, straffid forþénad þúngt og frekt, þar um grátandi qvarta.

8. En þó huggast eg aptur vid, ávext þíns Sonar dauda, med hverjum hann mér færdi frid, fyrir sitt blódid rauda.

9. Svoddan fórn, Drottinn! þæga þér, þar fyrir vil eg sýna, gjald þetta þigg þú, Gud! af mér, gildt fyrir misgjørd mína.

10. Sonar þíns vegna nú í nótt, nád sýn mér, Fadir sæti! láttú mig sofna sætt og rótt, sídan vakna med kjæti.

11. Lát ei minn svefn vid daudans dúr, dapurlega samteingjast, svo eg, þá líf fer ædum úr, ei þurfi í qvalir sleingjast.

12. Heldur virdstú mér, Herra! ljá, hjástod þíns góda Anda, svo vel tilbúinn verdi eg þá, mitt veika líf skal enda.

13. Svo gégnum daudann gángi eg inn, í gledi, dýrd og ljóma, leyf þú mér þar, Laúsnari minn! lof þitt um eilífd róma. Amen.

## Føstudags Morgun Sálmur.

Lagid: Kom Skapari heilagi Andi.

Upp! upp! mitt hjarta, sinni og sál, samhljódandi med gledi saung, hef upp lofgjørdar lystugt mál, ljúfann vegsama Zíons Kóng.

2. Minn Gud! hvers dýrdin eilíf er, og óþrjótandiríkis-rád, þú hefur svo margt gott gjørt mér, gét eg þad ei til fulls út-tjád.

3. Og þó hvert hár á hofdi mín, hefdi mælsku sem Englarnir, gjæti eg þó ecki gáfum þín, Gud minn! hrósad sem verdugt er.

4. Eg vil vegsama almátt þinn, á medan hjari eg lífid vid, af því ad þú ert einn Gud minn, allt sídan í frá módur qvid.

5. Þad hef eg reynt um þessa nótt, þú, Drottinn! varst mín einka hlíf, frá beiskum dauda og brádri sótt, bevaradir mína sál og líf.

6. Eg lá umsetinn myrkra makt, mér vildi Satan úlsku-fús, granda, en hér lét hafa vakt, hersveitir síngr, minn Jesús.

7. Þær ed med hollri hjávist sín, hjúkrudu mér

og geymdu vel, svo að hér fyrir hvíla min, heita með réttu má Bethel.

8. Í því Guðs húsi sætt eg svaf, svefn=óra fyrrt=ur dapri þrá, en nú hress og heilbrigður af, hvílu minni eg gánga má.

9. Öll þín verk, Drottinn! eiga þér, ætíð þakka og lofa dátt, hér með og þínir heilagir, hrósa dýrð þinni dag sem nátt.

10. Með þeim falli mín sál í sið, sýngi þér lof=gjörð, Drottinn minn! enn framar eg af alúð bið: álít í náð mig þrælinn þinn.

11. Og fyrirgéf mér alla synd, er eg þér móti drýgða hef, frá augsýn þinni ei mér hrind, anda heldur fornýann géf.

12. Veit dagur þessi verði mér, vel lucku=sæll og blessaður, á hverjum eg í fyrstu er, af jarðar=leyri myndaður.

13. Vísa mér í dag veginn þinn, vík mínum fæti á friðar stig, Herra! sem ert hjálpari minn, hneig þín eyru og bænheyr mig.

14. Géf eg megi svo þjóna þér, þá stund eg hér í veröld bý, að eg, þá sorgfull æfin þver, inntakist himna sælu í, Amen.

## Föstudags Qvöld Salmur.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Ó þú heilaga Þrenníng þýð, þig vil eg jafnan lofa, í mínum munni árla og síð, eg skal þinn lofstýr hafa, því hver sem til þín flýckist frekt, forsmán ei hreppir neina, þitt sæta orð er sannarlegt, sál lífgandi alleina, er það bót annar meina.

2. Hjá Gudi er hjálprædi mitt, hann er mín styrktar hella, mín sál traust á hann setur sitt, svo mun eg ecki falla, því hann til hægri handar er, hjá þeim sem er fáráður, hverr sem fast við hann heldur sér, hann verdur aldrei smádur, þó sýnist rauna þjádur.

3. Þennann dag hef eg þetta reynt, þar fyrir er eg gladur, og velgjørd þeirri hrósa hreint, minn Herra Gud og madur, hefur mér millum handa sín, hlíft frá Satans ofbeldi, ad hann mér gjørdi einga pín, edur í skada felldi, þó frekt hann þar ad héldi.

4. Mín ønd því, Drottinn! miklar þig, magt þinni vil eg hrósa, ad þú hefur svo annast mig, ei kann eg betur kjósa, þú hefur svoddann þar til gjørt, þér skyldi eg blídni sýna: Aví! eg braut þín bodord þvert, bøl þad vill stórum pína, sál og samvitsku mína.

5. En þó hressir mig huggun sú, hvad sem fellur til nauda, svarid hefur þad sjálfur þú, syndugs viljir ei dauda, því flý eg til þín, Fadir kjær! (frá þér mun ei mig reka), og bid: forlát mér allar þær, ílskur og syndir frekar, sem veitst mig vera sekann.

6. Eins og Fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid kjæra, svo virdstu, Drottinn! mildur mig, í miskun endurnæra, veitandi hæga værd í nótt, veikum líkama mínum, svo meigi einginn myrkra=drótt, meida né slá mig pínum; eg treysti þér alleinum.

7. O Kristi! sem á krossi dóst, kénn mér frá synd ad deya, en réttlætinu lifa ljóst, í ljúfri von

svo þreya, þar til hýrann dag heppnast sjá, í hærstri þýrd útvaldra, géf að eg megi þægur þá, þackir og lof þér gjalda; um allar aldir alda. Amen.

## Laugardags Morgun Sálmur.

Lagid: A einn Gud eg vil trúa.

Sál mín! vert glød í Gudi, gøfga og heidra nafnid hans, mikla hann með føgnudi, mætann still þackargjørdar dans, af því hann er svo gódur, þeim er í hjarta hreinn, gudunum má ei medur, móts vid hann jafnast neinn, sína nád mun hann senda, og sannleiks-trygd til vor, hans hønd kann øllu umvenda, er hún svo magtar-stór.

2. Eins og hann sjálfur segir, sannarlega svo skédur víst, skipan hans skeikar eigi, skýr fyrirheitin bregdast síst, sumar og vetur setti, sinni med hegdan hér, dagur med dýrum rétti, dimmri nótt æ fylgir; hún er nú horfin burtu, hann er aptur kominn, sólin með sinni byrtu, sést um allann heiminn.

3. Eg vil því ætíd syngja, um þína miskun, Drottinn minn! ad mig í nótt umkríngja, engla fagrann létst skara þinn, svo mig ei Satan fædi, med sínum véla-qveik, edur frá trúnni tældi, tapadi hann þeim leik; orkadi eg upp ad standa, olli því nádin þín, þér, minn Gud! því skal-vanda, þackargjørd ondin mín.

4. Herra! hverr er þér líkur? hverr er svo voldugur sem þú? af mýskun mjøg ert ríkur, med audmýkt bid eg þig nú: lauga mig lambs í blódi, af løstum hreinann gjør, haldt mér vid, Herrann gódi!

heilsunnar farsæl kjør, styrk mig í mínu kalli, minn Guð! eg treysti þér, svo vel þau verkin falli, sem vinna byrjar mér.

5. Géf þú eg géti lifað, guðrækilega í heimi hér, holdsins girnd svæft og sefað, svo hún til falls ei komi mér, hreinlífi og hógværð fína, heilaglegt framferði, ydrán, trú, elsku þína, ástúðlegt þolgjæði, géf þú mér, Guð minn sæti! fyrir gjæðsku nafnið þitt, og leið í lífsins mæti, lífið nær endar mitt. Amen.

## Laugardags Qvøld Sálmur.

Lagið: Einn Herra eg best ætti.

Minn Guð og minn Konúngur! mikla vil eg þig tídt, samleikur þinn svo gengur, sem skýin færast vídt, mikill, lóflegur líka, og líknar-fullur ert, ást tér og elsku ríka, þeim óttast nafn þitt hert.

2. Lopt, jørd og hafið hefur, høndin þín tilbúið, øllum uppheldi géfur, og fedur blessán með, øll augu á þig vona, af því þú ert sá Guð, sem minnist manna sóna, og mýkir hverskyns nauð.

3. Handaverk þín, Guð góði! með góðsemd þú mettar øll, með þín mýskunar-gjæði, mest er og jørdin full; til grunns vér engum eigi, gjætska þín veldur því, hún géfst á hverjum degi, hennar þurfendum ný.

4. Og nú þó daginn endi, og sólin byrgi sig, gengur samt ecki undir, ást þín, minn Guð! við mig, heldur mér hjúkrun veitti, og hlífði vondu frá, allt þó eg illa breytti, ætíð hún stóð mér hjá.

5. Lifandi lífsins Herra! lofud sé gjædskan þín, því hún kann aldrei þverra, þar um sé rædan mín. O! hvad er aumur madur, ad þú svo virdir hann; eins fljótt hans æfi lídur, og skuggi burtu rann.

6. Protinn er þessi dagur, þér sé lof, Herra kjær! æfin svo áfram sígur, alltjafnt daudanum nær. æ! hvad eg lifdi ílla, elskandi heiminn frekt, holds gyrndar hættleg villa, hlód á mig synda sekt.

7. J himininn, hjartans Fadir! hef eg syndgad svo tídt, hrædileg hørmúng þad er, heita má ei barn þitt, syndir er safna gjørdi, sjálfs hofdi hærra ber, eins og ofur stór byrdi, er hún því blý-þúng mér.

8. Hvad er nú helst til ráda? hvar skal eg qvittun fá? hverr vill mig hreldann náda? eg hrædist byrdi þá. Til þín fús eg vil flýa, Fadir himneski minn! eg veit þú munt ei mýa, mér; þá Son lýtur þinn.

9. Hørd sløg, sár, hardann daudá, hann leid til frelsis mér, blessad hans blódid rauda, býd eg nú, Fadir! þér, fyrir allar mínar íllgjørdir, og afbrot furdu ljót, þú veit eg þetta verdid, þiggur í fulla bót.

10. Gleym þú því glæpum mínum, og geymdu mig í nótt, undir verndar væng þínum, verda láttu mér rótt, hold svo þiggi hentuga, hressíng, en sálin mín, vaki ætíd án trega, í elskunni til þín.

11. Æ! virdstú, hjartans Herra! hvíla í nótt hjá mér, hvíld mín svo megi vera, mjøg vegsamleg í þér, og leid mig svo um sídir, úr sorg, í fagnudinn, frá eymd, til æru og prýdi, Amen, veit þad, Gud minn! Amen.





# Fjórdu
# Viku Sálmar,

Qvednir af

Síra Asmundi Jónssyni,
fyrrum á Breidabólstad á Skógarströnd.

## Sunnudags Morgun Sálmur.

Lagid: Hærsti Gud Herra mildi.

Hrós, prís og eilíf æra, ó Gud og Fadir minn! ávallt þér ætti ad færast, Israels Verndari kinn, fyrir mikla miskun þína, mér á nótt lidinni, virdtist vardveitslu sýna, vægd og heilbrygdi fína, fordjørfun fordandi.

2. Eg er svo uppvaknadur, utan skadrædis míns, allt eins af þér verndadur, og auga-sjáaldur þíns, í vaktan vængja þinna, vel hefur þú unnt mér, ad líta dags ljós upprunna; líkn þín og nádin kunna, útsegjast ei sem ber.

3. Fyrir gjædsku gjørvalla, og guddómsins dásemdir, mildi og elsku alla, audsýndar jafnan mér,

frá fyrstu fæding minni; framkómnar hingað til; af hjarta, önd og sinni, ó Guð! í hátigninni, eg þig vegsama vil.

4. Með auðmýkt hjártans innstá, eg vil það meðkénna, að með atviki minnsta, ei kunni eg forþéna, mergðir miskunarinnar; minnst þess þó, Guð minn! best, frá upphafi aldarinnar, undirdjúp gjæðsku þinnar, aldrei umbreitast lèst.

5. Margfjölda minna saka, og mitt ránglætið verst, allt virðist af mér taka, ó Drottinn! náð þín best, álít þinn Son ástkjæra, sem útgaf blóðið sitt, forlíkun mér að færa, fyrir auglitið skjæra, kann eg því koma þitt.

6. Á þessum Drottins degi, Drottinn! geym mína sál, á þinna orða vegi, að hún svo fyrrist tal, Satans og hrösun hætta, holds lysta tilteiging, lát vera æ upprættá, en öndu mína kjætta, við himins velsýsing.

7. Æ Faðir elskulegi! eg beiði, veit mér styrk, að eg upprísa megi, afleggja holdsins verk; en sálu endurnæri, orð lífsins blessað þitt, sem eg nú í dag heyri, svo oðlist vegsemd meiri, í hollu himins midt.

8. Eg bið, aðgjættu líka, allann minn lífsins hag, fyrir Engla umsjón ríka, yfirstandandi dag, íllt svo mig nálgist eigi; í þína náðar hönd, alvi áhyggju fleigi, eckért hollara segi, fyrir lýði og lönd.

9. Minn ertú Faðirinn mildi, má eg heita þitt barn, innskrifast eg því vildi, ó Herra líknar-gjarn! á helgar hendur þínar, til hvorskyns blessunar, láttú þitt ljósið skýna, lífgandi sálu mína, að gángi eg inni þar.

10. Géf þú eg gléymi eigi, Guð minn! sem

skyldugt er, á helgum hvíldardegi, heidur ad færá þér, og verk kjærleikans vinni, veikstöddum náúnga, hvíld svo eg fái og finni, framar í eilífdinni, fyrir minn Frelsara.

11. O Drottinn! mig æ mundu, miskunsámur í dag, á daudans dapri stundu, Drottinn! aumka minn hag, og þegar eg skal mæta, augliti fyrir þín, láttú þá brot mín bæta, blódid Frelsarans sæta. Amen sú ósk er mín. Amen.

## Sunnudags Qvøld Sálmur.

Med sama lag.

O þú himneski Herra! hjálpari lífsins míns, ad vísu eg vil kunngjøra, verkin samleika þíns, líf mitt vidhaldast létstu, lidinni dags tíd á, bítandi gjædúm bestu, bjørg lífs og sálar mestu, en vondu frelsadir frá.

2. Auglit þitt ad mér gjætti, og eilíf gjædskan þín, eins mínum andardrætti, allri fordadi pín, minn skal þig munnur prísa, mitt besta hjálprædi, og andans kraptur upprísa, adhjúkrun þinni lýsa, aldrei aflátandi.

3. Maklega má eg játa, mér hæfir andlits blygd; þad eg í allann máta, æfandi þína stygd, margt gjørdi eg margfaldlega, móti þér enn í dag, af gøtu guddóms vega, gengid hef eg ránglega, syrgi eg nú svoddann hag.

4. Hver má þad madur skilja, ad margopt fellur hér; Drottinn! virdst nád ei dylja, Drottinn! forlát þú mér, heimugleg afbrot ørgu, í nafni Sonar

þíns, svo skýin synda hin mørgu, séu afmáð og førguð, harmþrúngins hjarta míns.

5. Samvitsku saurugleika, sé míns Frelsara blóð, og vondra verka líka, veglegt hreinsunar flóð; vor Guð! ei virðst að taka, verndar hønd þína af mér, svo vil eg sofa og vaka; en sífeldt ønd mín qvaka: ei mig yfirgéfir.

6. O Faðir elskulegi! eg beiði, lít á það, linnir þeim ljósa degi, líður nátt=myrkrið að; lát þó ei við það linna, ljós þitt í hjarta mér, føgur sól, géf að finna, fríðleika birtu þinnar, sem aldrei síðan þver.

7. Lát himneskann herskara, hlífa við slísum mér, og sem skjaldborg um-múra, allt það mér tilheyrir, svefn=værð veitandi sæla, Satans skélfíngar makt, einn virðstú á burt fæla, svo ei kunni þar um hæl=ast, að grand á mig géti lagt.

8. Hvíld lát mig í þér hafa, hjartkjæri Faðir=inn! ætíð sé orð þitt ljúfa, eitt ljós og vegur minn, øll mín von á þér stendur, allt mitt ráð, sál og líf, þér fel eg því á hendur, þú ert að miskun kénndur, vertú mér vernd eilíf.

9. Til hvíldar hyggst eg gánga, Herra! í sjálfum þér, undir vernd þinna vængja, verð eg hólpinn og er, æ hlífi øndu minni, umsjón náqvæmust þín, og að velþóknan þinni, þegar svefnværðum linnir, lof þitt sé lýsting mín.

10. Als þessa eg vil beiða, allsvaldi Guð Drott=inn! fyrir frið=keyptra þjóða, Frelsarann Jesúm minn, fyrir hans forþénustu, fyrir mig sem er skén, ást=semi indælustu, og árnan náqvæmustu, eg treysti því, Amen.

Mánudags

## Mánudags Morgun Sálmur.

Lagid: Hver sem ad reisir hæga bygd.

Miskunsami og mildi Gud, minn elsku Fadir sæti! á þessum morgni eg framskríd, ad þínu tignar-sæti, færandi hjartans þackir þér, þú sem uppstanda leyfdir mér, heilum med hugar-kjæti.

2. Himneski Fadir! hverju þú, hefur mig dásamlega, á nótt þessari annast nú, øllum fríandi trega, svo óvinarins var ecki fylld, á mér banvæn skadrædis vild, heidra eg þig háleitlega.

3. Forláttú syndir mínar mér, miskunarríki Herra! nádar eg beidi því af þér, þó forþénad hafi hid verra, úngdóms gjørvalla bresti bæt, brædina mýki nád þín sæt, þá skal þitt lof ei þverra.

4. Stjórna þú allri athøfn mín, á nærverandi degi, uppbyrjandi svo øll verk sín, ordum Guds fylgja megi. Snút þú Djøfuls áreitíng, og dempa holdsins tilteíng, svo ad eg syndgi eigi.

5. Lát Engla vernda og annast mig, á øllum mínum vegi, framferin verdi farsællig, fordjarfi skadinn eigi, Guds umsjón fel eg frúr og menn, fjør, sál, heimkynni og børnin, hlífd hans svo hagnast megi.

6. Vertú mitt skjól og skjøldurinn, skadrædi lát ei hneckja, blessa þú inn- og útgáng minn, annast þá sem þig þeckja, sorgfullum huggun sértu best, sjúkum lækníng svo vidréttist, og neyd ei nái bleckja.

7. Og ef, minn Gud! þad er þín vild, yfir mig skuli draga, skúra mótlætis skýin gild, skammvinna lífs um daga, lidsemd þína mér lát í té, ljúflega svo eg medtaki; þolgódur þennann aga.

8. Atvinnu, næríng, erfidi, og verk kallauar minnar, sem eg til kosta ómaki, ávaxtan láttú finna, svo hugsi eg til þín, Herra minn! hjartad mitt sé bústadur þinn, mæda øll mun þá linna.

9. Innræt mér jafnann ótta þinn, á mínum lífsins vegi, fylgi þar eptir frómleikinn, svo fridsamlega deyi. Blídi Fadir! mig bænheyr þú, bid eg þess í nafni Jesú, og þar til Amen segi. Amen.

## Mánudags Qvøld Sálmur.

Med sama Lag.

Gjædskuríkasti Gud minn þú, gódgjarni hjartans Fadir! ljósid dagsins sem lýsti nú, lidid í burtu þad er; æ! hvad vel þú annadist mig, svo enginn hætta voveifleg, skømm suerti mig né skadi.

2. Pína miskunsemd þar fyrir, þrátt vil eg prísa feginn. Forljótar syndir forlát mér, framar á þessum degi, fyrir Jesú Kristí blessad blód, bevari mig þín hjálpin gód, géf qvøl mér grandi eigi.

3. O þú lifandi gjædskan gód! Gud Drottinn fullur nádar! á Sonar þíns minnstu sára flód, sem mig leysti frá voda, og allt hvad hann fyrir mig aumann bar, álít þessvegna ei syndirnar, enn virdstú mig vel ad stoda.

4. Af því eg ligg nú ángradur, augliti fyrir þínu, virdst þú mig, Herra voldugur! vernda frá allri pínu, þó nætur myrkin nálgist mig, náqvæm þín verndan elskulig, sé fyrir mér og mínum.

5. Lát engann skada nú í nótt, né ógn oss yfir falla, géf þú oss verdi vært og rótt, vor Gud! geym

kristni alla, vort vígi er undir vængjum þín, víst mun oss aldrei snerta pín, ef þig gjørum ákalla.

6. Forda þú Djøfuls vélum vid, og veraldar skadrædi, veit oss sofandi sannann frid; sálin og hjartad bædi, vaki til þín, svo verdum vér, vakandi jómfrúm samlíkir, og hljótum himnesk gjædi.

7. Virdstú nú, Herra voldugi! ad veita huggun góda, freistudum sálum syrgjandi, svo þær afleystar voda, eilífann hreppi æ fognud, í þér sjálfum lifandi Gud, sem ángrada alltíd stodar.

8. Hóp þinna barna hér á jørd, Herra! vertú nádugur, lát þessa þína litlu hjørd, lifa med réttferdugu, hjarta, sem gjarnan þóknast þér, þú Drottinn! heyr hvers bidjum vér, einn, þrennur, almáttugur.

9. Nádugi Gud! í nafni þín, nú vil eg hvíldir finna, Herra! umgyrd þú hvílu mín, med herskildi Engla þinna, unn mér á morgun uppvakna, og þér, minn Drottinn! lof sýngja, um ár eilífdarinnar. Amen.

## Þridjudags Morgun Sálmur.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla eg á.

Miskunsamasti minn Jesú! míns lífs frelsunar Herra! í audmýkt stærsku eg kém nú, elsku þína kunngjøra, prísandi nádar nafnid þitt, náqvæmri værd mig gladdir, og svefn-ró saddir, svo ad í nætur myrkium midt, mig ei fordjørfun skaddi.

2. O þú réttlætis sanna Sól! sem mig svo dásamlega, geymdir frá allri andar qvøl, almættid guddómlega, leyfdir dagsins ad líta stund, líkn þín

svo að mér gjætti, og bølið bætti, miskun útbreiðir á marga lund, með þúsundføldum hætti.

3. Omaklegann á allann veg, alls þessa vil eg mig játa, með hjartans ángri meðkénni eg, að mér í engann máta, hefi þó við þig haldið fast, en hyllst það tímanlega, á ýmsa vega, vil eg því bljúgur viðkannast, vondt gjørða eg margfaldlega.

4. Oll verkin eru ónít mín, ecki nema ránglæti, er sárheitustu umbun þín, uppvekja, Faðir sæti! nú hrópa eg hinn náð-þyrsti, náðugi Jesú góði! sem sára flóði, fyrir synd mína fullnægði, friðarins dýrstum sjóði.

5. A holdi þínu hefur þú, heims syndir borið allar, hjálpræði og qvittun heitir nú, hverjum sem á þig kalla, fyrir mig bið þú Føðurinn, um forlát synda minna, er eg nam vinna, svo að vægð megi syndarinn, í sjálfs þíns augliti finna.

6. O Jesú! láttú ei þitt blóð, til ónitis verða heldur, sorgfullum anda sé það góð, svølun sem gleði veldur, á meðan hjari eg heimi í, helst mót andláti mínu, svo lífsins línu, leiði eg framm af løstum frí, leiddur af Anda þínum.

7. Dýrkan, elska og þjónkan þín, það er mitt eptirlæti, orð, hugsanir og athøfn mín, í því staðnæmist sæti, að allra lima útrétting, að því jafnan sig hneigi, afláti eigi, þitt nafn, blessaða Þrí-eining, þar með vegsamast megi.

8. Herra Jesú! þín hønðin sterk, háls Djøfuls gjørði brjóta, aldrei láttú hans íllskn verk, ørvar né pretti skjóta, eður veraldar vondsku slægð, veita tjón mínu lífi, hjálp þín svo hlífi, undir væng þínum hljóti eg hægð, hér svo að ugglaus blífi.

9. Svo befel eg þér, sæll Jesú! sál mína og líkama, að þér tak það og annast þú, í dag og sérhvorn tíma, kristinndóminum veit þú vörn, vor Guð! af miskunninni, hús og heim-kynni, líka menn, qvinnur, hú og börn, blessan íklæðist þinni.

10. O Jesú! legðu auðnu á, oll verk kallanar minnar, minn deildann verð svo megi eg fá, með gjöf umhyggju þinnar; vertú mín heill og hjartans lyst, um hérvist æfi-tíða, og eilífð síðan, í gnæð þíns húss svo eg komist, Amen, fyrir nafn þitt blíða.

## Þriðjudags Qvöld Sálmur.

Með sama Lag.

O! þú hjartkjæri elskuginn, ó Herra Jesú Kristi! á meðan varir eilífðin, einn síðasti og fyrsti, hvernin kann eg nóglega nú, nafn þíns guðdóms að prísa, og ást auglýsa, sem mér vesælum sjálfur þú, sífeldt gjörðir frammvísa.

2. Þínum náðar væng þakka eg, það vel bevarast náði, frá öllu vondu á allann veg, af þinn guðdóms ráði, svo verkin mín og vinnulag, víst hafa áfram gengið, og farsæld fengið, eins láttú, bið eg, um minn hag, allt farnast vel og lengi.

3. Enn þó dagurinn aflíði, eg þig grátbæni líka, aldrei bregðist né afláti, ást þín og líðsemd ríka. O þú hugljúfi hjálparinn! hjálpræðis geysla þína, skjært láttú skína, í herbergi míns hjarta inn, helzt þegar æfin dvínar.

4. Minnstú ei, Guð! þá misgjörð á, mót þér sem drýgða hefi, miskunnsemdanna mildin há, mikla grimd þína sefi, í forþénustu fleig þeim haf, Frels-

arans Jesú blíða, að eg án qvíða, lífið þacki og lausnar gjøf, Lífs-Hertoganum fríða.

5. O Guð! veit þína ást og náð, með aðstoð heilags Anda, úr mínum huga af sé máð, öll gyrnd og lysting synda; en hjartað, túnga og munnur minn, mikli þitt nafn samtøka, svo eg án saka, elsku bæði og ótta þinn, um æfi kunni að rækja.

6. Ástríki Herra, ó Jesú! eg bið þig hjartanlega, að á þessari nóttu nú, náðugur viljir eiga, vist og haggvæma hvíld í mér, svo heppnast sálu megi, að sjálfur segir: friður og blessan fylgi þér. Framar eg gyrnist eigi.

7. Myrkra høfðíngjans vald og vél, virðist þinn guðdóms kraptur, svo mér ei bruggi svik né hel, sannlega að reka aptur; úr öndu og hjarta uppræti∫t, ógn og samvitsku qvilli, samt óttinn illi; vertú mín nætur verndin best, vondslegt svo ekkért hylli.

8. Eg er limur og eiga þín, ertú mitt hofuð líka, yfirgéfur því ei sinn vin, ástin þín gjæðskurika, harmandi sálar athvarf er, undir signaðar þínar, sem miskun sýna, veittú þar holla hvílu mér, hugraun svo mætti dvína.

9. Hvíld mína blessir, Herra! þú, helgasta nafn þitt gleðji, sálina gjædda góðri trú, og gjæðskunnar nægtum seðji; mitt svo viðhaldast láttú líf, sem líkar best þér einum, en mér og mínum, veitist Englanna voldug hlífð, varnandi øllum meinum.

10. Eg svo á morgun uppstandi, allskonar laus við skaða, guðdómsins náð og góðgyrni, gofgandi hábléssaða, alls þessa beiði eg, ó Jesú! álítu gjæðsku þína, og mæðu mína, því að mitt ljós og líf ertú, lof þitt skal aldrei dvína. Amen.

## Midvikudags Morgun Sálmur.

Lagid: Guds Son í grimmu daudans bønd.

O þú máttugi einvalds Gud! eilífi lífsins Herra! af míns hjarta innstri alúd, eg vil þér þackir gjøra, útréttir hjálpar hendur mér, og herskildi Engla vardveittir, nýafstadinni nóttu á, Halelújá.

2. Aptur hefi eg nú uppvaknad, alheill og med fögnudi, þackláti verdi því offrad, þeim allsvaldanda Gudi, fyrir dýrdlegar dásemdir, daglega sem hann audsýnir, hjartad og andinn hrópi þá, Halelújá.

3. Gjædskuríkasti Gud Fadir! géf þad fyrir Son þinn blída, umsorgun þín og ást frá mér, ei skuli á burtu lída, heldur befalinn hédan af sé, hjálpræðis ráð og gódgyrni, Drottins míns þessum degi á, Halelújá.

4. Hjartad leid þú og huga minn, Herra! med Anda þínum, svo aldrei styggi almátt þinn, med illsku verkum mínum, allann minn veg til góds þú greid, gódi Jesú! um lífdags skeid, fridarins rata eg feril þá, Halelújá.

5. Géf þú eg ætíd meir og meir, miskunar sætleik smacki, og í náð þinni eblist hér, elskusemina þecki, svo aldrei gleymist sídar mér, sífeldt medteknar velgjørdir, í hjarta mínu hvíl þú þá, Halelújá.

6. Mér í skaut þinnar miskunar, mildiríkasti Fadir! frá módur-lífi varpad var, veit eg mín sorg og gledi, medláti allt og andstreymi, almættis hønd þín skamtadi, hjálp þín aldrei mér hverfi frá, Halelújá.

7. Verdi mér luckan léut í dag, lát mig þar vel med fara, ef mótlætid minn hryggir hag, hjálpar mér til ad bera, þolinmódlega þad, Gud minn! þinn svo afdrecki kaleikinn, prísandi þig med heidri há, Halel.

8. Í þínu nafni öll mín verk, uppbyrja eg, Fadir sæti! þar til veittu mér þrótt og styrk, þau svo eg framqvæmt gæti, og gjaldi hjartans þackir þér, þú sem fulltýngi audsýnir, nád þín jafnan mér nægir þá, Halelúja.

9. Ei lát mig girnast annars fé, ólevfilegum hætti, né útvega mér uppheldi, eg svo fráskiljast mætti, veraldar klækja villu-stig, vor Gud! ei reidann sýndu þig, þegar mig neydin þvíngar þá, Halel.

10. Nær eg hefi þig, Herra minn! um himin og jörd ei skeiti. hjartkjærari enn heims audinn, hef þig ad öllu leiti; æ! géf eg skiljist ei frá þér, ei heldur víktu burt frá mér, eilíf sætleikans elskan þá, Halelúja.

11. Mig fel eg þessa morgun-stund, minn Gud! í umsjón þína, veikann líkama, eign og önd, ástmenn og vini mína, gledjast láttu þá gódur í þér, géf sömuleidis óvinir, mínir leidréttíng megi fá, Halelúja.

12. Veittu umhyggju, Herrann minn! med hjástod nádar þinnar, þeim kross-þjádu sem þjáníngin, þreyngir til ógledinnar, hverjir ad nafnid þeckja þitt, þig ákallandi í raunum midt, hjartans qvein þeirra heyr þú þá, Halelúja.

13. Heilsa og lífsins hjálprædi, Herra! vertu kristninnar, og veit mér þad eg ætíd sé, einn þarfur limur hennar, svo þegar endast æfi-kíf, armæda heimis og skammvinnt líf, hreppi eg gledi himnum á, Halelúja.

14. Ó sæti Fadir! álít þú, ákall grátbeidni minnar, svo eg audmjúkur ödlist nú, áheyrslu bænar-

innar, fyrir bænheyrslu Frelsarans, og forþénustu alla hans. Æ leggdu þar til Amen, Já, Halelúja.

## Midvikudags Kvøld Sálmur.

Med sama Lag.

Dýrdlegi Herra Drottinn minn! daginn sem skapad hefur, til erfidis í sérhvert sinn, til svefns nóttina gefur; eg vil nú, Herra! hvíla mig, hrædist eg samt of margfaldlig, brot mín drýgd þessum degi á, Halelúja.

2. Hef eg forþénad hér fyrir, Herra minn! reidi þína, framar enn veittir miskun mér, myrkrin þegar sig sýna; enn samt, Lausnari líknsamur! líka sem fortapadi sonur, dyr þinnar nádar drep eg á, Hal.

3. Bidjandi, Gud minn blessadi! blessud nád þín mér hlífi, af sorgfullu hjarta segjandi, sálin svo fyrrist kífi: sálar brúdguminn sæti minn, syndgadi eg í himininn, og fyrir þinni hátign há, Hal.

4. Utskúfa mér ei, Drottinn dýr! frá dýrdar augsjón þinni, lát miklu framar, Herra hýr! heitord þín verda í minni, ad syndugs dauda ei viljir, enn til þín heldur snúi sér, og lifi þér med heidri há, Hal.

5. Æ hvad, Drottinn! mig ángrar nú, ydran hefi eg freistad, trúfasti Gud! mér til þín snú, tak burt veikleikann mesta, þá verd eg hreinn og heill í þér, Heilagur Andi veittu mér, þinni hátign ad þjóna þá, Halelúja.

6. Medtak mig aumu únga kynd, undir væng nádar þinnar, svo Satans aldrei særíng blind, né svik veraldarinnar, komi mér eda kristnum nær,

klárt ljós og sólar birtan skjær, vertu í nótt oss, Herra! hjá, Halelúja.

7. Haldtu mér undir handar þín, hlífd, svo ei vondslegt skadi, og íllt mér veiti einga pín, eilífi hjartans Fadir! fyrir vondum draumum vernda mig, veit mér ad stygi eg aldrei þig; gef þinni kristni føgnud fá, Halelúja.

8. Veittu nád þeim er vona á þig, og vernd um nóttu þessa, sjúkum vert adstod elskulig, og gjør volada hressa; naudþreyngdum tjäist gjædskan gód, gudhræddra eckna tára-flód, álíttu, Herra himnum á! Halelúja.

9. Í þínu nádar nafni eg, nú legst í hvílu mína, vert hjá oss hátign háleitleg, hrædslan mun þig ei pína, vertu oss skjól og skjøldur dýr, skadsemdin þá burtu flýr, vér vonum, Drottinn! einn þig á, Hal.

10. Eg befala þér allann mig, med øndu og líkama, Gud minn! eg nú grátbæni þig, geym mig um nætur tíma, og unn mér, Fadir eilífi! uppvakna ad morgni komandi, þína prísandi hátign há, Halelúja.

11. En hafir þú ásett, Herra minn! hédan í nótt eg skyldi, gud-dómlegur mér géfist þinn, gjædsku krapturinn mildi, svo vel tilreiddur þóknist þér, þinn vilji verdi æ hjá mér, lát mig þína nád finna og fá, Halelúja.

12. Hér um bænheyr mig, Herra Gud! himneski Fadir nádar, en Jesú Kristi blessad blód, bevari mig frá voda, hann sé med þér og heilagur, hærsti Andiun vegsamadur, medan ad eilífd endast má, Halelúja.

Fimtu-

## Fimtudags Morgun Sálmur.

Lagid: Sælir eru þeim sjálfur Gud.

Hjartkjæri Fadir Herra Gud! hafandi krapt án enda, lífinu hefur þú háldid vid, hér til nálægrar stundar, eg byrtist hér, enn fyrir þér, og augliti fyrir þínu, ád lofa þig, nád eilífflig, af öllu hjarta mínu.

2. Almættid fýndir á mér þú, uppstanda létst án meina, á umlidinni nóttu nú, nád þína féck eg reyna, myskunin þín, þúsundföld skín, þecki eg mig ómaklegann, allt hingad til, audmjúkur vil, ángrast med hjartans trega.

3. Brot mín í ydran beyskri eg, bljúgur medkénna vildi, ad mitt líf var á eingann veg, á sig komid sém skyldi, eg beidi þig, álíttu mig, fyrir árnan Jesú besta; ó Fadir! þú, ei reidst þeim nú, er mig á krossin festa.

4. Æ! hvad opt syndgá eg þér mót, eg veit þad sjálfur eigi, bugar mig holdsins blindni ljót, ad bregdá af dygda vegi; er mér nú leidt, ád eg hefi breytt, illa mót þér, minn Fadir! ad stygda eg þig, þad ángrar mig, og optlega þín freistadi.

5. Forláttú mér þad, Fadir minn! fyrir þitt nafn heilaga, aumkastu yfir þrælinn þinn, þann er sín afbrot klagar; eg hrópá á þig, útrek ei mig, ó Gud! í reidi þinni, þitt þeckir barn, því líknargjarn, þú varst frá eilífdinni.

6. Láttú mig finna nýa nád, nú fyrir augsýn þinni, þíns góda anda géf mér rád, til gyptu áthøfn minni, ætíd mig hér, þinn Engla her, á sín=

um höndum beri, líf, eign, önd mín, og öll gjöf þín, æ þér befalað veri.

7. Öllum þeim sem að óttast þig, ó Guð! af gjæðsku þinni, vertú upplýsing elskulig, að líf og heilsu finni, í athöfnum, öllum mínum, aðstoð þín jafnan styrki; að kostgjæfni, eg ástundi, í embættisins verki.

8. Erfiði mitt og athafnir, ávört þessháttar fái, að luckist vel og þóknist þér, þinni blessan svo nái; að eg sem ber, útvegi mér, atvinnu og björg daglega, en þinni gjöf, sem hlotið hef, hrósi eg þacklátlega.

9. Túnga, varir og munnur minn, miskunar stjórnan hljóti, svo formæling og íllgjörðin, aldreji þar framsljóti, frá munneiðum, og ódygðum, ofáúnd, lostá, dramblæti, frá ágyrni; og fédrætti, forðá mér, Guð minn sæti!

10. Hjartað og liminn hvern einn minn, Herra! virðstú bevara, svo hvergi nái holds viljinn, hugsa vondt eður gjöra, enn þennann dag, með elsku hag, í ótta þínum standi, og sálin mín, andvarp til þín, af innstu kroptum vandi.

11. Allt svo verði til æru þér, eilífi Fadir mildi! en sáluhjálpar sjálfum mér, slíks eg þig biðja vildi, fyrir Jesúm Krist, er auglýsist, af Guði til vor kominn, honum með þér, það skyldugt er, þacklæti veitist, Amen.

## Fimtudags Qvöld Sálmur.

Med sama lag.

Himneski Fadir Herra Guð! hjartans nádar og mildi, aldrei þá sem þín agta boð, yfirgéfa þú

vildir, hverninn fæ ég, á allann veg, óverdugur þig príſad, ad þíns nafns dýrd, út verdi ſkýrd, eins og ſkyldan tilvíſar.

2. Hvad hjartanléga hefur þú; Herra! mig ad þér tekid, og þennann daginn elſkad nú, en háſkann burtu rekid, medtakú því, af mér á ný, míns Jeſú offrid ſæta, til þackflætis, alls ágjætis, er þú gjördir mér veita.

3. Fyrir hans ſakir, Fadir minn! frid og nád virdſt mér ſýna; nema mig geymi Gud Drottinn; gjora nátt=myrkrin tína. Æ vertu því, eg til þín flý, eitt ljós og ſlotid tryggva, þú lofadir, ad medur mér, miſkunin ſkyldi byggja.

4 Mitt brjóſt og hjarta ber þá hrygd, blódugra végna ſynda; hvar med ad er þín hátign ſtygd; helſt um tíd dagsins ſtunda. Æ Drottinn minn! þín myſkunin, mér virdiſt þad forláta, fyrir Jeſúm Kriſt, ſvo fridþægiſt, í Frelſarans nafni ſæta.

5. Gladværann anda géf mér þá, géf þad mín trú verkadi, ad kynni' eg þig ætíd kalla á, kjæraſti elſku Fadir! ſvefn=ró væra, ſaunbléſsada, ſend mér af løſtum fría, ad ſálin mín, í umſjón þín; unadſemd hljóti nýa.

6. Enn þó ſofi mín augun hér, auga þitt jafnann vaki, íllt láttu ſneida allt frá mér, ſvo eckért vondslegt ſaki, eg befala, af alhuga, ønd, hold og vini mína, Guds verndar hønd, um hvørja ſtund, hér med trúada þína.

7. Fyrir mér ſjálfur al þú ønn, enn þó eg hvíli og ſofi, vaktan þín ſé mín verndan ſønn, vor Gud og Drottinn géfi, ad alſkyns bøl, og andar

qvøl, umflýa þadanaf megi, og nær árla, eg uppvakna, eilífar þackir segi.

8. Herra Jesú! huggadu þá, hrelldu sem freistni lída, er Kristí nafnid kalla á, í krapti trúar bída; æ láttu þá, finna og fá, fulltíngi nádar þinnar, svó strídi vel, med þolgott þel, þar til sigurinn vinna.

9. En med því svéfninn andláts er, uudanfari og bródir, veit þú heilaga hjástod mér, hjartans Fadirinn gódi! ad ilsi eg hér, svo líki þér, lífs þegar stundir dvína, leidist mín ønd, í Herrans hønd, í hvild dýrdlega sína.

10. Hverfur þá gjørvøll heims ánaud, Herrann mun eg þá prísa, leid þú mig þángad, gódi Gud! og gef bænheyrslu vísa, álíttu mig, eg beidi þig, í Jesú nafni góda, æra og dýrd, þér æ sé skírd, af munni heimsins þjóda; Amen.

## Føstudags Morgun Sálmur.

Lagid: Náttúran øll og edli manns.

O þú ilmsæti elskuginn, ó Herra Jesú Kristi! mér unnti vel þín miskunnin, minnar værdar sem lysti, eg kann líka, ad uppstanda, alheill og hress á fætur, þitt almætti, og ástsemi, yfir mig breidast lætur.

2. Þína gódgyrni þacka eg, þá nád og lídsemd hreina, sem í dag hefi aumur eg, af þér fengid ad reyna. O minn Jesú! eg bid þig nú: auglitid lystilega; sýndu mér þitt, svo hjartad mitt, sárum burthrindi trega.

3. Med heilags Anda hjástod mig, Herra! virdist ad styrkja, og upplýs svo eg ætíd þig, elski med þjónkan merka, mínar syndir og misgjørdir, med

hugsun, verki og orði, forláttú, eg bið, Faðir! um grið, svo forðæmdur ei verði.

4. Fyrir qvøl þína og blessað blóð, bróðir minn, Jesú Kristi! leys mig af sárum synda móð, svo þína náð ei bresti; von, elsku, trú, viðauktu nú, veikstøddu hjarta mínu, að allt mitt traust, efunarlaust, eg hafi á þinni pínu.

5. Leið mig svo sem þér líkar best, á lífsins orða vegi, svo að eg aldrei afvillist, en boð þín geyma megi, Lausnari minn! líkama þinn, létst í dag jorðu dylja, eins veittú mér, eg kunni hér, með ydran syndir hylja.

6. Afbrotum fleig þú á bak þér, og øldúngis þeim gleymir, svo aldrei mínar íllgjørðir, optar til minnis komi, með réttlæti og rósemi, reisa þú sálu mína, á lífsins braut, mér legg í skaut, ljóssins Englana þína.

7. Geym mig eins og þinn auga-stein, Israels trúi hyrdir! svo kunni ei barn þitt kénna mein, sem keyptir dýru verði, ef óvinir, ásetja sér, einhvern skaða mér gjøra, sé teikn þíns blóðs, þeim mest til móðs, en mér skjøldur og verja.

8. Léna mér, Jesú! lið og náð, í lífsins athøfn minni, svo mitt erfiði, efni og ráð, allvel farsælast kynni; en afstýrir, því ei sómir, eða horfir til skaða, elskan þín best, þeim útbýtist, er á þér von hafa glaða.

9. Drottinn! tillegg þú deildann verð, og dagslega næríng mína, kristinna sanda hóp og hjørð, haldtú við kallan sína, svo gjæðsku ráð, og guðdóms náð, géti sannprófað þína, um lífsins skeið og lika deyð, lát hana aldrei dvína.

10. Af hjarta biðjum allir vér, ó Herra Jesú

Kristi! þegar líf stundlegt þrotið er, þá sé þinn Andinn besti, vor lífsins gjøf, líka þín grøf, ljúfasti hvíldar-staður, og líkamans sár, vor lækníng klár, Lausnari minn blessaður!

11. Þín hærsta sorg og hjartans pín, hún sé vor æðsta gleði, að vér hvenær sem æfin dvín, út af sofnum í frið, og háskalaust, með hjartans traust, hvílum í faðmi þínum, afstoðnum deyð, útlegð og neyð, eilífa gleði reynum.

12. Um þetta biðjum allir nú, í hjartans fullu trausti, það sama viljir veita þú, vor Herra Jesú Kristi! fyrir nafnið þitt, og frelsið mitt, forþénan náðar þinnar, æra og prís, þér æ sé vís, af krøptum sálar minnar.

## Føstudags Qvøld Salmur.

Með sama lag.

Lofaður sértu, Lausnari minn! ljós þessa dags er burtu, nú yfirkoma nátt-myrkrin, náð mín og aðstoð vertu, umþenki eg, á allann veg, æfinnar stytt-ist tími, stund eptir stund, styrki þín hønd, og stjórni mér í heimi.

2. Líknsamasti Lausnari trúr! þín lifandi náðar gjæðska, var mér í dag einn verndar múr, varnandi øllum háska. Æ hversu vel, Emanúel, aðhjúkrun børnum þínum, veitt hefur þú, og verndað nú, frá voða, neyð og pínum.

3. Veittu svo vel eg þjóni þér, sem þinni ást og kjærleika, Guð minn Herra meddeilir mér, minnar sálar veikleika; græt eg, Drottinn! því guðdóm þinn,

gjørdi eg tídum styggja, en gleymdi því, þín gjædskan ný, gott virdtist til ad leggja.

4. Vor Herra Jesú! virdstu mér, vesælum miskun sýna, blódid þitt sem útrunnid er, ádreifist sálu mína, þitt sídu-sár, mér sýndu klár, sem þínum Læriſveinum, svo hvíli eg þar, án ógnunar, óvinum fyrir mínum.

5. Forláttú, Jesú! mildur mér, mínar blódugar syndir, mjøg opt frambar á móti þér, um mínar æfi-stundir, veit mér í nótt, ad verdi rótt, og vakni med fagnadi, í þér, minn Gud! sem ert mín stod, og eilíf hjartans gledi.

6. Virdstú ad líkna þeim sem þig, Prí-eini Gud! ákalla, blessan þín yfirbreidist mig, blessa þú kristna alla, vidhaldtú þeim, sem hér í heim, heidra þitt nafnid góda, en syndugir, géf snúi sér, sálar fráskildir voda.

7. O Herra Jesú! láttú ljós, ljómandi nádar þinnar, og huggun skína yfir oss, um nótt þessa, svo kynni, mitt sinni, sál, minni og mál, mildi Gud! til þín vaka, þú ert mitt traust, efunarlaust, ílt láttú mig ei saka.

8. Lát mig þá stundlegt lífid þver, lifa hjá áſján þinni, svo þitt um allar eilífdir, auglitid skoda kynni, blídi Jesú! bænheyr mig nú, blóds þíns og sannleiks vegna, þér þar fyrir, þad veit þú mér, þacki eg sem framast megna, Amen.

## Laugardags Morgun Sálmur.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Miskunsamasti máttugi, minn Gud! fullur af nád, eg aum manneskja medkénni, mildi og hjálpar

ráð, á morgni þessum, er þú mér, allt frá móðurlífi, til lífs og andar andsýndir, enn nú framhaldandi; ecki kann eg að upptelja, alla þína velgjörnínga, önd mín þó dáist að því mest, fyrir upphaf heimsins þú, elsku þína auglýsast létst, er það mín lausnin trú, þegar kross dauða borgun best, blóðið var míns Jesú.

2. Þér, góði Faðir! þacka eg nú, þá með auðmjúkri lund, í náðar kjör og kristna trú, komst mér á æsku-stund, fyrir hönd minna foreldra, og fræðíng orða þín, hefur þú virðst að hughreísa, hjálplega sálu mín; géf þú að aldrei gleymi eg, gjæðsku þinni, náð eilífleg! heldur til-leggi heiður þér, og hljóti þíns Anda náð, svo ecki brjóti eg af mér, ást þína, líkn og dáð, en géti svo sem; góðum ber, guddómsins aðhyllst ráð.

3. O Drottinn! aumur eg fyrir þér, enn stend grátbænandi, mínar syndir og misgjörðir, miskunnin forláti, drýgðar á móti mildi þín, með hugsun, verk og orð, um afstaðna vikn og æfi mín, er það stærsta mótgjörð. Minnstú á þína miskun því, minn Guð! eg hrópa enn á ný, lát ei réttlætis reiði-slag, reka út barnið þitt, sem treystir Jesú hjálpar hag, að hennar brot sé qvitt, og í hans benjum enn í dag, afbrotið hylur sitt.

4. Afvend þú Satans ófögnuð, er mig leiðir frá þér, svo fái hann aldrei framkomið, skáræði sínu á mér, leið mig svo þinni elsku í, eruggur stend eg þá, sætasti Faðir! svo á ný, síst eg þér sleppa má. utan þú blessir aður mig, og verk farsælist þarfsamlig, sem byrja eg nú í nafni þín, náðugi hjálparinn! stjórna þú allri athöfn mín, að þér veitist

dýrdin, hvar af mér líf og lucka skín, lifandi Gud Drottinn!

5. Lát mig embættid ástunda, allra mest leita ad þér, þeckjandi hátign heilaga, og hrædast svo sem ber, björg vora og næríng blessan med, begási í heimsins dvöl, ei lát gudhræddra afqvæmid, af skorti lída qvöl; en ef, minn Drottinn! þóknast þér, þad eg rati í mannraunir, veri þín blessud hjálpar hönd, hlífd mín í eymda sjó, þolgód svo æ mín þreyi önd, þar til hún hreppir ró, og nær sem losna lífsins bönd, lifi í trúnni þó.

6. Miskun þín er ómælanleg, miskun því veittú hér, öllum þeim sem ad elska þig, og eptirleita þér, þín trúud börn og kristnin kjær, qveinar um þessa tíd, vertú henni med verndan nær, voldugi Herra Gud! alla þá sem þig ákalla, af nád virdstu ad bænheyra, veitandi huggun, hjálp og lid, hinum naudlídandi; í voru landi ebldu frid, þar eg er framandi, svo þyggi gjædsku þína og grid, þitt lof ástundandi.

7. O Gud! sérdeilis er mín bón, upplýs þú hjartans kér, á mér þínum aumasta þjón, ad eg vel treysti þér, og öllu framar elski þig, ástundandi sem ber; yfirgéfdu því ecki mig, er mín von bygd á þér; í þína mildu magtar hönd, mitt hús, börn, qvinnu, eign og önd, æruna, góts og embættid, eg befel hvert eitt sinn, vertú mín hlífd og hjálprædid, hjartkjæri Drottinn minn! íllt svo ad fái eckert skéd, Engill þinn veiti lid.

8. Ad eg svo búi ótta frí, undir Guds hlífdar væng, þar til eg frelsi fæ á ný, frá mædu og daudans sæng, í hérvist þar vid huggadur, hjástod þín,

Gud! ei dvín, en af þér sídan innleiddur, í dýrd sem fegurst skín, þetta veittu af miskun mér, minn Drottinn! sem eg beidi hér, fyrir sætasta Soninn þinn, sem er vor tals-madur, hver ed med þér, og Huggarinn, hærst sé vegsamadur, á medan tilvinnst eilífdin, Amen, háblessadur.

## Laugardags Qvøld Sálmur.

Med sama lag.

Kjærasti Fadir, gódi Gud! grunnlaus er mildin þín, eins og þú sjálfur er þín nád, allstór med krapti sín, þad vidurkénnir enn mín ønd, á qvøld-stund þessari, af því þín sterka hjálpar hønd, hana svo verndadi, um þessa viku og enn í dag, allskyns fordandi slisa-hag, en hversu ílla lifda eg, alltíd móðgandi þig, mín synda brot á margann veg, mest hafa fjølgad sig, því mín samvitska sorgarlig, svoddan vitnar um mig.

2. Eg medkénni þad enn á ný, eg er fortaptur son, gáfum sóandi Guds míns því, og gódri arfleifdar von; eg er svo sem óhlýdid barn, sem ílla frávilltist, en þú, Drottinn! ert gjædsku gjarn, géf þad eg leidréttist; hingad sendir nú Soninn þinn, sem græda skyldi veikleik minn, glæpa fjøturin greid af mér, og géf þad réttlæti, sem ad í Adam ádur hér, øllu fortapadi, sælu og líf í sjálfum þér, svo ad eg medtaki.

3. Mitt ángrad hjarta andvarpar, ó þú mildi Fadir! ofbod syndanna ofþjakat, ó Gud! líkna þú mér, fyrir mergd þinnar miskunar, misgjørdir afmá þú, ad eg betur enn ádur var, ástundi hlýdni og

trú, tilreið mig svo í heimi hér, sem hæfir að vera um eilífðir, nær þig í ángist ákalla, álít bænar hróp mitt, fjærri sé þér að forláta, forlíkað barnið þitt, fyrir þinn Soninn sætasta, sem útgaf blóðið sitt.

4. O Jesú! blessuð árnan þín, umsorgun veiti mér, svo ángrað hjarta og øndin mín, orð þau heyri af þér: vertú hughraustur barnið blíðt, boða eg sannan frið, af því mín misgjørð øll er qvitt, eg er þitt réttlætið. Guddómsins Andi eilífi, æ sé minn Lærimeistari, bjargandi øllum breiskleika, burt-taki úr hjarta mín, samvitsku vonda syndanna, svo eg í ljósi þín, forsjáll kunni að framgánga, fram til þess æfin dvín.

5. Helgasta Þrenníng hábleśsuð! hjálpa mér framvegis, með þinni vernd og vængja-stoð, varnandi eg fái slis; eins og þitt barnið umgéfinn, aðhjúkrun náqvæmri, þessa nótt hvílist ugglaust enn, ønd mín og líkami, ó Drottinn! vak þú yfir mér, svo enginn háski grandi hér, sál mín þó í þér sjálfum best, síseldlega vaki, unnunar finni aldrei brest, ætíð føgnuð taki, minn óvinur undirtroðist, og aldrei mig saki.

6. Láttú svo þína hjálpar hønd, hvar eg teiknaður er, nú á þessari nætur stund, náqvæma hlífa mér, og fyrir þennann mikla mátt, að morgni upprísa, en þig, minn Guð! af hjarta hátt, heiðra, lofa, prísa; en með því endast æfin mín, og kémst ei yfir takmørk sín, eg veit þó ecki utan sé, allmjøg því nálægur, eg gyrnist því og grátbæni, Guð minn almáttugur! að hverki hel né saurgan sé, svefnhøfginn þacknæmur.

7. Bevara mig frá bráðum deyð, en búast lát þar við, að eg veraldar allrar leið, umgeng og dauðans hlið, og þegar lífið endast fer, eg feli mína sál, af hjartans grunni, einn Guð! þér, með ýkért vit og mál; gladur eg hvílast gyrnist nú, góður staðnæmist hjá mér þú, blíðasti Jesú! breið á mig, blóðugann kyrtil þinn, þíns dreyra merki dásamlig, dreifist í hjartað inn, svo vondska Satans voveiflig, veiti ei áhlaupin.

8. Helgi Andi! míns hjarta ranns, Herra og gestur ver, svo eg í værdum svefnhøfgans, syndgi ei né gleymi þér. O þú guddómsins Þrenning þýð! þér befala eg nú, og um ókomna alla tíð, allt hvað mér léntir þú, í lífi og dauða annast mig, að þá dags birtan sýnir sig, géti eg heill með gladværi, gøfgað þitt mikla nafn, þú dýrðar Kóngur þríeini! þér finnst ei nockur jafn, um eilífð lof þitt útbreiði, Engla og manna safn, Amen.





# Fimmtu Viku Sálmar,

Qvednir af

Þorbyrni Salómonssyni.

## Sunnudags Morgun Sálmur.

Lagid: O Gud, minn Herra! aumka mig.

Nú er ein vika ný-komin, nýann saung hefjum, kristnir menn, lofun af heilum huga, Herrann vorn almáttuga; hann gaf oss líf og heilbrygdi, hann gaf oss værd og rósemi, heidur sé Herra gódum, himneskum, þolinmódum. Allt hvad lífs anda ødlast vann, elski, lofi og prísi hann, hvad sig hrærir á himni og jørd, heidur, vegsemd og þackargjørd, syngi med sætum hljódum.

2. Arla morguns í traustri trú, til þín, Drottinn! eg kalla nú, álít andvarpan mína, ofan send miskun þína; lát mig og mína þjóna þér, þennann dag svo sem skyldugt er, send oss þinn sannleiks Anda, sem vyrdist hjá oss standa, gef oss nú sælann Sunnudag, sálna vorra ad rækja hag, læra

þitt orð og lifa rétt, lát þú oss hvern í sinni stétt, orð og athafnir vanda.

3. Géf þú oss, Drottinn! góðann frið, grandi og slísum forða við, unn oss þitt orð að læra, og ávöxt þar af færa; lát oss það eina aðhafast, er þinni hátign velþóknast, veri þitt orð og Andi, ætíð hjá oss búandi. O Drottinn! vér þig ákøllum, þá endast vort líf í heiminum, veit oss um aldir eilífðar, að sýngja þér til vegsemdar, á lifandi manna landi. Amen.

## Sunnudags Qvøld Sálmur.

Með sama lag.

Ljósanna Fóður lofgjørð sé, ljósið daglegt oss veitandi, réttlætis sólin sanna, sáluhjálparinn manna. Jesú, vor bróðir! þøck sé þér, þú sem í dag auglýstir mér, bæði þín verk og vilja, velt mér það rétt að skilja, að mitt hjarta sé akur sá, í hvern þitt sæði falla má, og ávøxt færa þar af þann, sem þér, minn Herra! géðjast kann, lát mig þitt lof ei dylja.

2. Æ! hvað opt hef eg aumur þræll, egnt þig til reiði, Guð minn sæll! margføldum syndum safnað, síðferði góðu hafnað. Burt úr djúpinu því til þín, þrátt nú andvarpar sála mín; góður á gjæðsku tamur, Guð! vertú mér líknsamur, géf þú mér qvitta glæpi mín, géf þú mér, Faðir! miskun þín, géf þú mér syndum grant við sjá, géf þú mér þig að treysta á, og elska øllum fremur.

3. Nú dregur yfir nátt-myrkrið, nú bið eg, Guð! þú sért oss með, útsend þinn Engla-skara, oss í nótt að bevara. Vaki yfir oss verndin þín, vaki

nú í þér sála mín, miskun þín mig svo geymi, medan eg dvel í heimi, ad mér, þá hérvist enda skal, í þinn himneska dýrdar-sal, audnast megi ad inngánga, med útvøldum og samsýngja, eilífa lofgjørd, Amen.

## Mánudags Morgun Sálmur.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Jesú nafni uppstadinn, eg byrja þennann dag. Eilíft lof sé þér eining þrenn, allann minn lífsins hag, annast hefur þín nád í nótt, neyd og ólucku frá, vardveitti mig þín gjædsku-gnótt, greidist þér vegsemd há, því vil eg nú af hjarta hér, heidur og lofgjørd sýngja þér; ó Drottinn! láttu ánda þinn, efla mig þar til best, virdst þú ad styrkja veikleik minn, ad vanda þinn lofstýr mest, og þar um tala sérhvert sinn, svo ad þér vel þócknist.

2. Eg kalla, Drottinn! því til þín, þessum dags morgni á; líknar augum þú lít til mín, og lát mig blessan fá, virdstu mér aumum leggja lid, leid mig af glæpa-slód, seig þú mig qvittann syndir vid, Sonar þíns fyrir blód. O Drottinn Jesú! minnstu mín, miskunar verndan blessud þín, yfir mér standi mild og merk, medan eg lifi hér, heilagra Engla hlífdin sterk, hafi nú gát á mér, svo munu øll mín vikuverk, verda blessud í þér.

3. Vardveittu mig og mína í dag, minn Gud! frá allri pín, veit þú ad hagstædt vedurlag, vel signi oss høndin þín, lát oss í vorri lifa stétt, til lofs og dýrdar þér, og svo frammgánga alltíd rétt, eins sem hæfir og ber. En þá vor hérvist enda

fær, og heiminn qvedja skulum vær, géf oss þá, Drottinn! himneskt hnoss, høndla í réttri trú. Fyrir blessadann Jesú benja-foss; bæn mína álít þú. Fridur Guds sé med øllum oss, æfinlega og nú. Amen.

## Mánudags Qvøld Sálmur.

Med sama Lag.

Gudi sé dýrd sem gaf oss nú, gódann dag útenda, án allra slísa adstod sú, oss gjørdi vardveita, heilagra Engla himneskt vakt, Herranns af skjærri nád, hefur oss enn þá lidsemd lagt, ad luckadist allt vort rád. Því sé dýrd, heidur, þøck, og lof, príeinum Gudi sem oss gaf, samvitsku-spekt og hugarhægd, heilbrygdi líkamans, atvinnu, frid og alls góds nægd, oss veitti miskun hans. Miklud sé því og mest vídfrægd, miskunsemd Gjafarans.

2. Angradur kém eg enn til þín, ó minn Herra og Gud! syndanna byrdi margføld mín, mér gjørir óføgnud. Vertú nádugur, minn Gud! mér, minnstu á Soninn þinn, hver til kross-dauda hlýdinn þér, hópinn fridkeypti sinn. O Herra Jesú! árnan þín, allra meina sé bótin mín, géf ad eg hafni synda sid, setjandi alla von, uppá þitt blessad líkuar. lid, og ljúfa fyrirbón, þar til mér eilíf géfast grid, hjá Guds og Lambsins trón.

3. Geymdu nú mig og mína í nótt, myrkranna valdi frá, svo ad vér meigum sofa rótt, sæll Jesú! vert oss hjá, þá mun líkamans hvíldin hæg, og hjártans rósemd léd, samvitskan gód og Gudi þæg, géfast oss einnig med. En ef nótt þessi einasta,

á að vera vor síðarsta; vört skal á Kristó faðmlag fest, fastlega í trúnni þá, svo nætur-hvíldin samteingist, sælunni eptir á. Gángi hverjum sem gegnir best. Guð veri oss øllum hjá. Amen.

## Þriðjudags Morgun Sálmur.

Lagið: O Guð, vor Faðir! sem í himnaríki ert.

Sönnum Guði sæta lofgjørð vér syngjum enn, upprennur dagur, endar nótt, yfirskyn ljósið bjarta. Einn og sérhvér af oss heilbrygður uppstaðinn, vegsami Drottins gjæðsku gnótt, góðfúslega af hjarta, hvered oss hefur liðsemd léð, og leidt frá øllum voða, føðurlégana fráfnúið, fordjørfum allra handa, því látum oss nú þackætið, þrí-einúm Guði vanda.

2. O hjartans Faðir allrar náðar! eg framber, fyrir þig mína morgun bón, manneskja alls þurfandi: upprenni nú þín eilíf miskún yfir mér, heilagur Guð á hæsta trón, himni og jørð ráðandi, lífs vegi réttum leið mig á, lesti svo fordast kynni, innri maður þér hvíli hjá, haf gát á sálu minni, lát mig þér aldrei falla frá, Frelsarinn nockru sinni.

3. Guð vor himneskur! géf oss øllum góðann dag, og veit oss einn í værð og ró, vorrar atvinnu leita, Drottinn! blessa þú verkin vor og vinnulag, að vér mættum með æru þó, atburða vorra neita. Hald þú oss fast í hreinni trú, með hverskyns dygðasafni, svo einn og sérhver æ og nú, allskonar løstum hafni. Morgun fórn þessa meðtak þú, minn Guð í Jesú nafni. Amen.

Þirðjudags

## Þriðjudags Qvøld Sálmur.

Með sama Lag.

Hvor himneski hjatans Fadir, hærsti Guð! lof sé þér fyrir liðinn dag, líf og velgeingni alla, þú sem oss veittir sætann frið og samføgnuð, andar og lífsins auðnu hag, aðstoð og náð gjørvalla. Heiður og dýrð í allri átt, eins vel á nótt og degi, sé vorum Guði súngið hátt, sú vegsemd glemmist eigi, allt það sem hefur andardrátt, eilíft lof honum segi.

2. Frammvegis bið eg, Fadir náðar! forlát mér, íllverkin mín og afbrot ljót, er eg á þessum degi, með illum þaunkum, orðum, verkum, æ því verr! gjørt hefi þér, minn Guð! á mót, og gengið á lasta vegi. Jesú þíns Sonar blessað blóð, blóðskuld afmáði mína; Lausnari minn til líknar þjóð, lét sig saklausann pína, láttu það blessað friðar flóð, Fadir sæll! á mér hrína.

3 Voldugi Drottinn! vertú nú mín vernd í nótt, myrkranna ógn og meinum frá, miskun þín að oss gæti, svo að vér meigum sofa í friði sætt og rótt, Engla vakt þinni um mig slá, svo eingum háska mæti. O Drottinn! sýn þú miskun mér, meðan eg skal hér þreya, en þegar linnir líf mitt hér, lát mig í trúnni deya, síðan um allar aldir þér, eilífa lófgjørð segja. Amen.

## Miðvikudags Morgun Sálmur.

Lagið: Blíði Guð! børnum þínum ei gleym.

Sála mín! saung nýann upphef þú, fagurt skýn, fjórða dags ljósið nú. Þock sé Guði þeim oss

gaf, þessa nótt enda, slísum frjálsa øllum af, oss virdtist senda, hærstur Gud, hlífd Engla sinna, hans blessud, hjálprád oss vinna, samføgnud, svo lét oss finna: Heidrud sé á hverri stund, ævarandi, eilíf, sæl, ódaudleg vera. æ. e. s. ó. v.

2. Andvarp mitt, eg sendi nú til þín, auga þitt, í nád sjái til mín, sýndu, Gud! mér sekum vægd, svo ad eg finni, frid og gledi, hvíld og hægd, hjá þér, sál minni. Gjæt þú mín, Gud allsvaldandi! ásjón þín, yfir mér standi, Satans pín, svikum og grandi, frelsa þú mig frá í dag. Ævarandi, eilíf sæl, ódaudleg vera. Æ. e. s. ó. v.

3. Allt hvad mér, unntir af miskun þú, fel eg þér, Fadir sæll! í dag nú, vil eg svo til verks míns gá, vernd þín mig geymi, hjá mér standi og hrindi frá, hættu andstreymi. Lát þú hér, líf mitt svo enda, ad heppnist mér, hjá þér ad lenda, med Engla her, ædst lof þér senda. Heyr nú mína hjartans bæn. Ævarandi, eilíf, sæl, ódaudleg vera. Ævarandi, eilíf, sæl, ódaudleg vera. Amen.

## Midvikudags Qvøld Sálmur.

Med sama Lag.

Gudi lof, gjørum vér, kristnir menn! þeim oss gaf, þennann dag, umlídinn, lífs og sálar heilla hag, hverskyns þarfinda, verkin vor og vinnulag, vel ad útenda, alls góds nægd, oss virdtist sýna, hlífd og vægd, hjá oss lét skína, Satans slægd, svo vard ad dvína, heidrist því á hverri stund, ævarandi, eilíf, sæl, ódaudleg vera. Ævarandi, eilíf, sæl, ódaudleg vera.

2. Fyrirgéf, Fadir kjær! verkin ljót, er eg hef, í dag þér gjort á mót, lát mig njóta Lausnarans, er líf sitt til nauda, útgaf fyrir afbrót manns, í krossins dauda; Andi þinn, ætíd mig leidi, hvert eitt sinn, hjá íllu sneidi, lifs veg minn, líknsamur greidi; þar til eg fæ þig ad sjá, ævarandi eilíf; sæl, ódaudleg vera. Æ. e. s. ó. v.

3. Veit mér nú, værd og rósemi i nótt, sæll Jesú! svo ad oss verdi rótt, øndu mína og innra mann, í þér lát vaka, en minn lúna líkamann, ljúfa hvíld taka. Fel eg þér, úti og inni, allt hvad hér, af miskun þinni, léntir mér, líf, sál og minni, heidri þig um eilíf ár. Ævarandi, eilíf, sæl, ódaudleg vera. Ævarandi, eilíf, sæl, ódaudleg vera. Amen.

## Fimtudags Morgun Sálmur.

Lagid: Adams barn synd þín svo var stór.

Sé Gudi þackir sem oss enn, sýnir dags-ljóma ný-runninn, og aptur upprísandi, af værum svefni vakna lét, vondsku-fullt Djøfuls slægdar-net, öss vard ad engu grandi, sérhver í fridi svaf og lá, sæll Guds Engill oss vakti hjá, svo eckért saka kunni, verdi því af oss vegsamad, völdugt Guds nafn, og hátignad, af hjartans innsta grunni.

2. Fimmta dags ljósi føgnum vér, Fadir himneskur! veittú mér, þitt lán med þøckum taka, || láttu mig hafna ljótum sid, líferni frómt mér haldtu vid, svo eckert kunni saka. Eg befel mig og allt mitt rád, undir þitt guddóms vald og nád, blessa þú mig og mína, allt hvad þin nád mér unnti blíd, eins vel í dag sem hverja tíd, fel eg í forsjón þína.

3. Herra Gud Fadir himnum á, hag vorn miskun virdstú sjá, og yfirgéf oss eigi, veittú hvad sem oss vinna ber, verdi nú blessad allt í þér, svo njóta síns hver meigi, ad vér, þá dvínar dagurinn, Drottins vídfrægjum heidurinn, fyrir ástgjøf margfalda. Vegsemd med ædstri virdíngu, vorum Gudi og Lambinu, syngist um aldir alda. Amen.

## Fimtudags Qvøld Sálmur.

Med sama lag.

Einn vil eg segja þackir þér, Prí-eini Gud, sem veittir mér, ástríka umsjón þína, þennann dag hverskyns þrautum frá, þín hefur nád og miskun þá, bevarad mig og mína; lof sé þér fyrir lán og hag, lof sé þér fyrir vernd í dag, uppsprettan alls hins góda, ædst lof og heidur øllum lýd, eilífi Gud! á hverri tíd, þér einum ber ad bjóda.

2. Jeg medkénni og játa bert, eg hef syndgad og ílla gjørt, móti þér mínum Herra, vondum glæpum eg vafinn er, vægdu, Drottinn! syndugum mér, lát ei nád þína þverra, minnstú nú á þinn sæta Son, sem er mitt líf og hjálpar von, og veit mér í hans nafni, syndanna qvittun, frelsi og frid; framferdi gott mér hald þú vid, svo øllu íllu hafni.

3. O Gud! vardveittú oss þinn lýd, eptirkomandi nætur-tíd, med øllu umvardandi, voldugra Engla verndar skjøld, virdstú nú senda oss í qvøld, hver oss geymi frá graudi, svo vér mættum í sætri ró, sofa óhullt, en vakna þó, til lofs lifandi Gudi. Unn

oss, Drottinn! þá æfin þver, í hædum dýrd ad sýngja þér, í sælum samfögnudi. Amen.

## Föstudags Morgun Sálmur.

Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Sælir í sönnum Gudi, sjötta dags morgun vikunnar, egum vér enn í fridi, augum ad líta fagnadar. Sambuga sýngjum gladir, sæta lofgjörd í trú, árdegis uppvaknadir, af vorum svefni nú, hvers verndar hönd oss lénti, blífd og vardveitslu em, svo engin hörmúng hendti, hverki sképnur né menn.

2. Drottins há=valdi hrósa, hverjum lífs viku=degi á, skal vor skyldan aughjósa, Skaparans fyrir verkin há, veiti hann oss sinn Anda, ad vér kunnum í trú, vors Guds þjónustu vanda, med virdíng allri nú. Um oss þig ætíd lofa, ó Jesú! Gud og mann, og í þér huggun hafa, hvad sem til falla kann.

3. Leid oss á luckn vegi, líknsami Fadir! enn í dag, svo eckért óhapp megi, yfirfalla med nockurt slag. Géf oss í nádum nenta, náqvæmrar blessunar, sem þú virdist oss veita, til vors lífs naudþurftar. Sérdeilis um oss enda, æfi=tíd vora hér, svo mættum sídast lenda, sælir í dýrd hjá þér. Amen.

## Föstudags Qvöld Salmur.

Med sama lag.

Ó Gud eilífdarinnar! æra, dýrd, heidur, lof sé þér, einn dagur æfi minnar, allareidu nú lidinn er. Þér vil eg þackir vanda, þér vil eg lofgjörd tjá, óluckn allrahanda, oss vardveittir þú frá. Æ!

hverju óverdugur, er eg þó slíks af þér, ad þú, Gud almáttugur! audsýnir þvílíkt mér.

2. Enn med ydrandi hjarta, elskunnar þelid bid eg þitt, øll brot og íllsku parta, uppgéfi mér og segi qvitt. Sonar þíns signud pína, sem hann leid fyrir mig, bætt hefur misgjørd mína, minn Gud! en fridstillt þig; enn þó mig eymdin mædi, opt sem tilfalla kann, eilíf audlegdar gjædi, afrekadi mér hann.

3. Vakandi verndar auga, virdstú nú hafa yfir mér, í nótt svo enginn plága, yfir mig kunni falla hér, hjálpin þín hjá mér vaki, himnesk á alla lund, oss þín børn ad sér taki, einkum á dauda stund. Herra Gud! hjálp oss lenda, hjá þér til eilífdar, þá hefur eymd vor enda, Eja! værum vér þar. Amen.

## Laugardags Morgun Sálmur.

Lagid: Vaknid upp, því oss vekur ein raust.

Øll Kristí brúdur uppríjandi, einn Gud vegsami háttsýngjandi, af hjartans rót, Halelúja. Vald, dýrd, makt, heidur, virding, sómi, veitist Gudi med sætum hljómi, hvør øllu íllu frelsti oss frá, og veitti værd í nótt, svo vard oss hægt og rótt. Honum sé dýrd af øllum túngum, søgd og súngin, samstemmandi Guds Engla hyrd.

2. Emanúel vor ædsti bródir, sem endurleystir heimsins þjódir, árla kalla eg enn til þín, fyrir þitt blessad blódid rauda, bitra pínu og krossins dauda, géf þú mér qvitta glæpi mín, og veit mér adstod nú,

ó minn gódi Jesú! ad hlýda þér, á þessum degi, ad eg megi, elska þig rétt, þad veittú mér.

3. Drottinn! blessa vort dágs erfidi, Drottinn! láttú oss nú í fridi, med þøckum táka lán þitt léd. Bænrækuir hlýdum bodúm þínum, brodurlegann kjærleika sýnum, þeim vórs fulltýngis þurfa med, lát oss svo lifá hér, líss medan audid er, ad vér mættum, þá hérvist endar, hjá þér lenda, í himna dýrd med útvøldum, Amen.

## Laugardags Qvøld Sálmur.

Med sama lag.

Dýrd sé Gudi í hærstum hædúm, hvør allshattudum nægdar gjædúm, ándgar sín háleit handaverk, fyrir hans nádar hjástod hreina, høfum vér endad viku eina, blessud sé Herrans hønd'in sterk, svo eikst vort ára tal, í þessum sorgar-dál, þángad til vér, lífdagá saddir, loksins gladdir, leidumst hédan þá æfin þver.

2. Avi! þad viku verkid ljóta, vér høfum gjørt svo opt ad brjóta, mildur Drottinn! á móti þér; Sonar þíns blód og signud pína, sjøfalda bæti íllgjørd mína, Herra Jesú! miskuna mér, búi í brjósti mín, blód unda minníng þín, svo ønd mín mædd, svølin þar finni, og athvarf inni, eilífri nádar huggun gjædd.

3. Nádugi Gud! í nafni þínu nú vil eg hætta verki mínu; géf þú oss øllum góda nótt, myrkranna vald og íllann anda, ó Drottinn! láttú mér ei granda, veit oss ad sofa vært og rótt, hellagra

Engla her, haldi vørd yfir mér, og aptur mig, veki med skapta, skilníngs krapta, Skapari minn! ad lofa þig.

4. Hvad sig hrærir á himni og jørdu, hvad eitt í sinni réttri ordu, heidri Gud í hans helgidóm. Hans dýrdar veldi hátt auglýsi, hrósi, vegsami, lofi, prísi, øll náttúran med einum róm. O Jesú! unn þú mér, einninn ad færa þér, þad lof = saungs lag, og med þér halda, um aldir alda, eilífann dýrdar Sabbatz dag. Amen.



# Sjöttu Viku Sálmar,

Qvednir af

Þorvaldi Magnússyni.

---

## Sunnudags Morgun Sálmur.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Lof, æra, prís og þøck sé þér, þú mildi Gud og Fadir! sem hefur audsýnt miskun mér, mig í nótt svo verndadir, hér med unntir mér heilbrygdum, hvíldar í nætur myrkrunum, holds kraptar hressast gladir.

2. Eins og sjáaldur augna hér, einn kann vel geyma sinna, skýldir þú, gódi Skapari! mér, í skugga vængja þinna; veittir mér svo med føgnud fá, fagurt dags ljósid aptur sjá, helg Sabbatz verk ad vinna.

3. Drottinn Gud! þínar dásemdir, daglega því eg prísa, og volduga nád sem veittir mér, vil eg jafnan auglýsa; frá lífi minnar módur þú, mig hefur geymt og hér til nú, veg þinn mér gjørdir vísa.

4. O Guð! framvegis eg bið þig, auðsýn mér gjæðsku þína, aunna manneskju álít mig, íllsku fyrirgéf mína; trúfasti Guð! eg treysti þér, tak ecki þína hønd frá mér, þá allt vill annað dvína.

5. Minnstú á sæta Soninn þinn, saklaus þá leið hann pínu, fyrir brot øll og breiskleik minn, blóði úthellti sínu; vegna þess, Faðir! væg þú mér, vesælum ei burtkasta hér, í frá augliti þínu.

6. Heldur inntak mig enn í dag, í skaut miskunarinnar, annastu svo minn allann hag, eptir vild gjæðsku þinnar; lát enga nevð né nockurt slis, nálægjast til míns heimilis, sértú vernd sálar minnar.

7. Í þínar hendur eg mig fel, ó hjartans Faðir kjæri! mun eg þar huggast mjúkt og vel, mein þó að høndum bæri. Þú ert minn Guð, enn eg þitt barn, aumum vertú mér líknargjarn, náð þín mig endurnæri.

8. O Guð, minn Herra! eg bið þig, er mig villt hólpinn gjøra, innsiglaðann lát ætíð mig, í þínum høndum vera, hér eptir allt til eilífðar, að eg blessaður mætti þar, fríð og føgnuð uppskéra.

9. Mig geymi í dag þín miskun blíð, mína farsæli vegi, einkum á minni andláts tíð, og hinum stránga degi, þá Drottinn alla dæmir þjóð; fyrir dýrmætt Jesú hjarta blóð, géf að eg glatist eigi, Amen.

## Sunnudags Qvøld Sálmur.

Lagið: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Hærstur Guð Faðir himnum á, Herra míns lífs og Drottinn sá, ríkir allsráðandi; øll þín verk sem á oss ské, eru þau náð og sannleiki.

2. Þú hefur mínum heilsu hag, haldið við lífið þennann dag, og allt gott auðsýndir, og fyrir illu forðað mér, Faðir himneskur! lof sé þér.

3. Fyrir þinn krapt og mikla mátt, minn þú verndaðir andardrátt; lofi þig munnur minn, önd mín og túnga sérhvört sinn, sætlega prísi almátt þinn.

4. Framvegis hjálpa, Faðir! mér, fyrir þitt nafn sem eilíft er; ert þú einn efalaust, Ísraels huggun, hjálp og traust, heyrðu nú minnar bænar raust.

5. Afmá þú mína misgjörð því, minn Guð! sem aðra þoku og ský; hreinsa samvitsku sár, svo hún verði af syndum klár, Sonar þíns fyrir blóð og tár.

6. Umsjón þín vaki yfir mér, eilífur Guð! eg treysti þér, og bið af auðmýkt þig, sjá þú nóttin nálægir síg, nú er þar dimmt í kríngum mig.

7. O þú mitt sæla andar skjól, ó þú mitt ljós, mín fagra sól, sem alla upplýsir, undirgack þú nú ei hjá mér, allt mitt hjarta svo tak að þér.

8. Set þá eldlegu Engla vakt, allt um kríng mig, svo hvíli eg spakt, þeirra vernd voldug sé, á mínu lífi, æru og fé, eckért vondt svo mig kunni að ské.

9. Veittú nú sæta svefn-ró mér, sál mína, Drottinn! fel eg þér, öll mín von einn ert þú; í þínu nafni og traustri trú, til minnar hvíldar leggst eg nú.

10. Skýli mér væingja skjólið þitt, skuggi þeirra sé athvarf mitt; taktú enn æ að þér, sál mína, líf og allt hvað er, af þinni mildi géfið mér.

11. Lát mig, að nætur liðnum blund, lofa þitt nafn um morgun stund, verði þinn vilji á mér; fyrir þíns Sonar fórn, sem er, til friðþægíngar offrud þér, Amen.

## Mánudags Morgun Sálmur.

Lagid: Heidrum vér Gud af huga og sál.

Gjædskuríkasti Gud minn kjær! gledur sig dagsins ljómi skjær, eg kém nú gladur á þinn fund, um þessa gódu morgun stund, fallandi nidur flatur þar, fyrir skør þinnar hátignar, med lotníng stærstu lofgjørdar.

2. Nú hefur vel þín nád umskipt, nætur-myrkrunum frá mér svipt; og svo látid mig aumann mann, upp aptur rísa heilbrygdann. O hjartans Fadir! høndin þín, hefir enn verid skjaldborg mín, med guddóms nádar geymslu sín.

3. Satan hefur med sinni makt, sínar snørur forgéfins lagt, geymdi mig Drottins gjædskan hrein, granda ei kunni nockurt mein, munnur og túnga miklar þig, mín sál í þér nú gledur sig, sem svo vel hefur verndad mig.

4. Framar bid eg þig, Fadir kjær! fyrirgéf þú mér syndir þær, sem úngur og gamall eg hefi drýgt; ángrar mig samt af hjarta slíkt; minnstú ei þeirra, minn Gud! nú, miskunsemd þinni til mín snú, veikann mig styrki vonin sú.

5. Lát þína Engla enn í dag, annast minn lífs og sálar hag, vegum mínum svo verdi eg á, verndadur øllum háska frá; þvíad eg fel í þína hønd, þú, minn Skapari! líf og ønd, mýk þú vor allra mein og grønd.

6. Geymi mig blessud gjædskan þín, géf þú ei nálgist illt til mín, vertu mitt skjól og skjøldur trúr, skjaldborg, verja og hlífdar múr, blessi nú inn- og

út gáng minn, almættis dýrdar kraptur þinn, þennann morgun og sérhvert sinn.

7. Harmandi alla hugga þú, heilbrygdi géf þeim sjúku nú, naudstöddum sértú voldug vørn, vernda þú, Gud! þín freistud børn, og ef mótlætis eitthvort ský, yfir mig kjæmi heimi í, styrk þú minn krapt í strídi því.

8. Ástríki Fadir! enn í dag, allt mitt blessa þú vinnu-lag, erfidis mædu allshattar, einninn verk minnar kallanar; til ónítis svo ei þad sé, en þér til dýrdar mætti ské; blídi Fadir þad bænheyri!

9. Lát mína sálu þeinkja um þig, í þínu ordi gledja sig, í mínu hjarta halda þér, og hafa þinn ótta fyrir mér, kristilega ad lifa nú, líka deya í sannri trú, fyrir blód Jesú, þad bænheyr þú, Amen.

## Mánudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Fadir vor sem á himnum ert.

Enn er dags tídin útendud, elskuríkasti Fadir og Gud! á hverjum ástar augun þín, enn hafa litid hírt til mín, og nádar forsjón fødurlig, frá øllum háska verndad mig.

2. Hjartanlega eg þacka þad, þér, sem hefur mig bevarad, grátbæni eg af audmikt þig, í Jesú nafni bænheyr mig, gódi Fadir! og géf mér qvitt, glæpugt synda líferníd mitt.

3. Med hverju, æ þad ángrar mig, ad eg í dag hefi módgad þig, í øllum mínum athøfnum, ordum, gjørdum, og hugsunum; Drottinn! mín synd ei dylst fyrir þér, Drottinn! syndugum væg þú mér.

4. O hjartans Fadir! minnstu míns, Medalgángara, Sonar þíns, og lausnar-gjalds sem lét fyrir mig, ljúfi Fadir! ad blídka þig, vegna Jesú verdskuldunar, væg þú mér, brunnur gjædskunar.

5. Líknsami Fadir! lít til mín, ligg eg ber fyrir augum þín, hrædt og skjálfandi hjartad er, Herra! syndugum hjálpa mér, minna glæpa ei minnstu nú, miskunar auga til mín snú.

6. Lát þína hlífd og gjædsku gnótt, gjæta mín vel um þessa nótt, líkama, sál, og lífid, mitt, legg eg nú, Gud! á valdid þitt, frá óvinum og illum heim, alla mína og mig þú geym.

7. Lát einga plágu, eymd né sótt, yfir mig koma þessa nótt, vertu hjá oss vort hjálprædi, þinn hlífdar vænga skuggi sé, athvarf mitt, skjól og einka traust; eg mun þá sofa hættulaust.

8. Sorgmæddra hjörtu harmþrúngin, hugga þú sjálfur, Jesú minn! þinn sterki kraptur styðji þá, sem strídir nockur freistíng á, þinna útvaldra allra hjörd, annast og geym þú hér á jörd.

9. Nú fer venjuleg hvíld í hönd, Herra! þér fel eg líf og önd, þín Engla fylkíng elskulig, enn í nótt geymi og veki mig, Drottni til lofs þá dagurinn skín, Drottni sé lof fyrir verkin sín. Amen.

## Þridjudags Morgun Sálmur.

Lagid: Einn Herra eg best ætti.

Allra elskulegasti, Endurlausnari minn, kjær Herra Jesú Kristi! krapt vil eg prísa þinn, mig til dágs ljómans leiddir, lof og heidur sé þér, myrkrunum aptur eyddir, þau urdu ad sleppa mér.

2. Minn Guð! af gjæðsku þinni, geymdir mig þessa nótt, á lífi, sál og sinni, svo mér er vært og rótt, léntir svo lífi mínu, lucku og friðar-hag, út af almætti þínu, allt framm á þennann dag.

3. O Jesú ástúðlegi! þitt elsku hjartað ber, á hverjum einum degi, umhyggju fyrir mér, og mig svo yfirskyggir, af þinni miklu nað, hvað sem mitt hjarta hryggir, huggar sig önd mín þjáð.

4. Eg kann í eingann máta, ástríki Frelsari! þakklæti það framláta, sem þér sé bjóðandi, þú gjæðskan þúsundfalda, sem þar fyrir verðugt er, eður að endurgjalda, allt gott sem veittir mér.

5. Öll mín verk eg meðkénni, gum og vesæl mannkind, eru í augsýn þinni, eitt ránglæti og synd; en þú sem brot mín bættir, og barst vorar misgjörðir, síðan við Föðurinn sættir, syndugum bið fyrir mér.

6. Er mér gjörðir útvega, ást við Guð Föður þinn, láttu þín tár og trega, trúfasti Jesú minn! ávaxtarlaus ei vera, á mér nú syndugum, heldur mig hólpinn gjöra, og hreinann af illverkum.

7. Fyrir þinn ástar auða, í dag mér stjórna þú, lát mig stöðugann standa, í sterkri von og trú, frá vondum véla heimi, verndi mig nað þín skjær, hún mig hættulaust geymi, hún sé mér ætíð nær.

8. Eg befel umsjón þinni, allann mig þennann dag, líkama, sál og sinni, sjá þú best um minn hag, virðstu og vel framleiða, verk minnar kallanar, og embættis ómak greiða, allt mér til farsældar.

9. Guð! af nægð gjæðsku þinnar, géf þú mér deildann verð, umhyggju andar minnar, eg fel þér hér á jörð, fæ eg þá fyrr og síðar, fullnægju alla

vel, þér gjøri eg þackir þýdar, þú minn Emanúel: Amen.

## Þridjudags Kvøld Sálmur.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Hvørnin kann eg sem ætti, almátt ad prísa þinn, af innsta andardrætti, ó Herra Jesú minn! er dag enn nú hefur, ætíd bevarad mig, þú sem allt gott mér gefur, Gud minn! eg lofa þig.

2. Undir verndar væng þínum, vaktan hafdir á mér, svo eg med øllum mínum, og allt hvad mér tilheyrir, er frí af øllum vodá, enn framar bid eg þig, med sterkum armlegg adstoda, styrdja og leida mig.

3. Húmar og hallar degi, hvíldar tíd kemin er, láttu þó, ó Gud! eigi, undir gánga hjá mér, mildasti minn Frelsari! miskunar þinnar sól, svo lengi sem eg hjari, sértú mitt ljós og skjól.

4. Minnstu ei synda minna, med hverjum styggt þig hef, út af nægd nádar þinnar, nú mér þær fyrirgéf; veittu mér eg þér unni, og elskan verdi svo sterk, ad eg hér eptir kunni, umflýa holdsins verk.

5. Þitt blessad ljósid bjarta, bid eg upplýsi mig, svo eg í hreinu hjarta, herbergi einann þig; ad eg í ótta þínum, áfram gángi mitt skeid, forda mér fári og pínum, freistíng og sálar neyd.

6. Sjá þú, minn Herra sæli! sígur ad nætur þel, mitt slot, mitt verndar hæli, mitt líf, eg þér befél,; eg er þin barnkind auma, yfirgéf mig ei nú, lim á þínum líkama, ljúfasti minn Jesú.

7. Eg hefi í undu þinni, ørugga, von og trú,

láttu mig æ þar inni, óhultann sofa nú; Herra Jesú hjartkjæri! hvílu rúm blessa mitt, ond mína endurnæri, ilmsæta nafnið þitt.

8. Lát Engla fílking fríða, Faðir trúr! að mér gá, líka dags ljósið blíða, leif mér heilbrygðum sjá, svo með gladværum munni, mætti eg prísa þig, og hjartans innsta grunni, Amen, bænheyrðu mig.

## Miðvikudags Morgun Sálmur.

Lagið; Herra Guð í himna=ríki.

Drottinn heilagi, Herra minn! heiður sé þér og æra, aptur er nóttin umliðin, upprunnið ljós=ið skjæra.

2. Af hjartans rót eg heiðra þig, sem hafðir á mér gjætur, houdin þín bjó svo hægt um mig, heill komst eg enn á fætur.

3. Framar bið eg þig, Faðir minn! fyrir vorn líf=gjafara, sætasta Jesúm Soninn þinn, svo mig í dag bevara.

4. Láttu þá sömu sætu náð, sem þú mér jafnan géfur, enn í dag blessa allt mitt ráð, eins og fyrr verið hefur.

5. Stjórna þú mínu sinni og sál, svo að allt mitt framferði, hegðun, vit, gjörðir, hugur, og mál, Herra! til lofs þér verði.

6. Þíns heilags Anda hjástoð best, hjarta mitt virðist byggja, svo ílt eg ékkért aðhafist, í dag sem kann þig styggja.

7. Yfirgéf þú mig ei þitt barn, umsjón þín góð mér hlífi, þú sem mig hefur gjæðskugjarn, geymt allt frá móður=lífi.

8. Allt hvad eg líd um æfi skeid, allt fram ad burtför minni, öll mín lucka og öll mín neyd, er víst í hendi þinni.

9. Þóckníst, minn Herra! þér í dag, þanninn vid mig ad breyta, og mýskuná enu þá mínum hag, og medlæti nockurt veita.

10. Láttu mitt hjarta þackláttt þér, þiggja vel slíka mildi, og þínar gódar gáfur mér, géfnar, brúka sem skyldi.

11. En skuli nockud áma ad, íllt sem mér kunni gjora, láttu mig, Drottinn þídur! þad, þolinmódlega bera.

12. Mér veittu líka, mildi Gud! mín verk á þessum degi, í þínu nafni uppbyrjud, öll vel framquæmast megi.

13. Velgjördir þær er veittir mér, vil eg í allann máta, sem hlídin barnkind þacka þér, og þær mér næaja láta.

14. Dag hvørn svo bid eg, Drottinn! þig, drag mig frá veroldinni, vondum gyrndum og villu stig, sem vilja fylgja henni.

15. Þess bid eg einninn þína nád, þó ad eg hrasa megi, vidréttu, Gud! mitt veika rád, vertu mér strángur eigi.

16. Nær eg hefi þér, Herra! nád, og haldid í trúar fángi, hvørdi eg hverki um himin né lád, heims þó öll magt forgángi.

17. Æ! hvad þú ert fyrir augum mér, unnusti sálar minnar, dýrmætari enn allt hvad er, ædst hnoss veraldarinnar.

18. O þú sætasta elskan mín! aldrei lát mig þér

gleyma, heldur ástúdleg ordin þín, í mínu hjarta geyma.

19. Önd og líkama, æru, fé, öll verk og gjördir mínar, í dag befalad enn nú sé, einn Gud, í hendur þínar.

20. Leid þú svo áfram lífid mitt, og laga til himna ferda; ad eg í ríkid eilíft þitt, inntekinn megi verda.

21. Hjartans Fadir á himna trón, fyrir hjartans Son þinn kjæra, heyrdu nú mína hjartans bón, heidur sé þér og æra!

## Midvikudags Qvöld Sálmur.

Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Drottinn Gud dýrdar mildi! sem daginn hefur til birtu sett, á honum einninn skyldi, erfida hvör í sinni stétt, og á nóttunni aptur, afliást verkum frá, ad mannsins mæddur kraptur, mætti svefn-værdum ná; svoddan líkn Gud oss gefur, sem getur nær veikleik manns. Allt hvad andardrátt hefur, almættid prísi hans.

2. Í þínu nádar nafni, nú geng eg minnar hvílu til, blessa þú öll mín efni, uppá þad gladur sofa vil, eg má þó aumur játa, þad angrar af hjarta mig, ad eg í margann máta, minn Gud! hef styggdann þig; medur ránglæti mínu, margt íllt þá hafdist ad, og í augliti þínu, ekkért gott forskuldad.

3. Nú þó samvitsku særi, syndanna slærd og íllgjörd mín, ó minn Fadir ástkjæri! aptur kém eg nú samt til þín, fyrirgéf glæpi alla, sem gjördi eg móti þér; særdur af syndagalla, sýndu vægd aumum mér;

burtkásta ei barni þínu, blessaði byrðir minn! fyrir Frelsarans þínu, er friðþægði lýðinn sinn.

4. O Faðir, Faðir kæri! Faðir vors sæla Lausnarans, mundu nú sjálfs þíns særi, að syndugs vilsir ei dauða manns, heldur að hann sér snúi, af hjarta og betri sig, eg því án efa trúi, að miðan ei tókstú mig. O þú mín elskan sæta! áhræer mitt hjartans þel, lát mig svo líf mitt bæta, eg læri að deya vel.

5. Í nótt og allar stundir, augliti þínu til mín snú, vernd þinna vængja undir, vil eg óqvíðinn sofa nú, mig svo og alla mína, minn líkama og ønd, eg fel í umsjón þína, umfaðmi mig þín hønd, sértú ljós sálar minnar, set eg mitt traust á þig, nockra ógn næturinnar, nálgast lát ecki mig.

6. Høndin þín helg afvendi, háska, og øllu frá mér snú, íllu yfirhángandi, ef það kynni tilfalla nú, voldugur vel mín gjæti, verndar armleggur þinn, ógn svo að engri mæti, ønd né líkami minn, óróssemd, íllá drauma, og allt hvað sálu kann þjá, ónytsamlega og auma, áhyggju tak mér frá.

7. Miskunar Faðirinn mildi! miskuna øllum kristnum þeim, er þitt eilíft ráð vildi, útvelja sér úr þennann heim; lækníng þeim veiku vertu, vesælum hjálp og skjól, oss í nótt øllum sértu, ein føgur gleði-sól. Til sængur geng eg glaður, Guð vaki yfir mér, vel er eg þá verndaður, vært svo hvílist í þér.

8. Géf mér að morgni aptur, megi eg glaðvær lofa þig, þinn góði guddóms kraptur, gjøri framvegis vel við mig, vilji þinn á mér verði, vertú mér náðugur, farsæl og mitt framferði, Faðir almáttugur! lát mig með hegðan hreina, halda svo

boðorð þín, að þér til lofs alleina, æfinnar stund sé mín. Amen.

## Fimtudags Morgun Sálmur.

Lagið: Lof sé þér, Guð! fyrir liðinn dag.

Heilagi Guð og Herra minn! heiður sé nafni þínu, enn má eg prísa almátt þinn, af ölla hjarta mínu, sem allt frá mianar æsku = tíð, og fram að þessum degi, mér enn brást eigi, heldur hefur þín blessan blíð, bevarað mína vegi.

2. Fram fyrir ástar auglit þitt, auðmjúkur vil eg koma, enn með lofgjörðar offrið mitt, á þessum morgun = tíma, þakkandi, Faðir! þinni náð, þessa nætur = vernd hýra, og dásemd dýra; og í dag bið eg enn þitt ráð, athöfn minni að stýra.

3. Af þinni miskun er það skéð, að eg syndugur maður, er nú með hughraust hjarta og géð, heilbrygður uppvaknaður; ástar þakklæti þér sé tjáð, fyrir þína velgjörð alla, og vernd gjörvalla, þúsundfalda af þinni náð, er þú létst mér tilfalla.

4. En hvað mátti eg aum mannkind, ángraður fyrir þér gráta, þá eg minnist á mína synd, margdrýgða, sem eg játa, hjarkað þá sára hug = raun ber, að hef eg ei sem bæri, og verðugt væri, viljað hlýðugur vera þér, væg þú mér, Faðir kæri!

5. Minnstú þins Sonar árnan á, og hans sáru pínu, illgjörðum mínum öllum frá, augliti snú þú þínu, fyrir þitt nafn, ó Faðir! nú, forþénta reiði sefa; eg veit án efa, misgjörðir allar munir þú, mér af náð fyrirgéfa.

6. Aumur bið eg þig enn á ný, að hjá þér miskun finni, burtskúfa mér ei bræði í, barnkind vesælli

þinni, þú ert minn Fadir eilífd frá, er þad þitt nafn háleita, mér virdstú veita, minn gódi Drottinn! gjæfu þá, Guds barn rétt = trúad heita.

7. Eg flý nú, Herra! enn í dag, undir væng nádarinnar, bidjandi þig minn blessa hag, af brunni gjædsku þinnar, allann mig fel eg á þitt skaut, med önd, heilsu og lífi, hönd þín mér hlífi, leidi hún mig á lífsins braut. leystann frá heimsins kífi.

8. Vertú öllum sem óttast þig, eilíft líf og hjálp=rædi, blessa mitt líf og metta mig, med lífs og sálar fædi, láttu þad allt vel luckast mér; líka verd=ugt þacklæti, eg greidt þér gæti, fyrir daglegt braud sem þigg af þér; þad veit þú, Gud minn sæti!

9. Voldugi Gud! mér vert þú hjá, vernda þú túngu mína, ónytsamlegum ordum frá, er styggja mildi þína, svo þér til dýrdar, Drottinn minn! í dag allt mitt framferdi, vel = skickad verdi, svo afmáist fyrir Anda þinn, illverkin sem eg gjördi.

10. Lát mig, Herra! svo lifa hér, ljúfur ad vilja þínum; svo eg daglega þóknist þér, þarfur náúnga mínum, Frelsarans Jésú fadmi í, fagni, voni og treyi, sæll sídan deyi, og med útvöldum eymda = frí; eilíft lof, Gud! þér segi. Amen.

## Fimtudags Qvöld Sálmur.

Lagid: Vor Herra Jesús vissi þad.

Drottinn Gud Fadir dásemdar, Drottinn! sem öll=um miskunar; þeim sem hans hjálpar leita, í þúsund lidu lætur hann, likn sína ské vid sérhvern mann, sem vill hans bod vardveita. Hvornin fæ eg, ó Herra minn! heidur nóglega vídfrægt þinn, og

útbreidt þitt lof sem bæri? Frá allri skadsemd enn í dag, andar og lífs minn veikann hag, geymdir þú, Gud ástkjæri!

2. Þigg þú nú af mér þar á mót, þíns góda Sonar fulla bót, sem blídkadi þína brædi, fyrir hans nafn miskuna mér, mig svo framvegis tek ad þér, heill mín, líf og hjálprædi, umvef mig nádar örmum nú, aldrei mér glemma viljir þú, heilög ord þín svo hljóda; ángrar mig mest þig módgad hef, mína synd alla fyrirgéf, og veit mér ydran góda.

3. O Gud! veit mér ad ondin mín, andvarpa megi svo til þín, hvad sem ad höndum bæri, í fullri von og traustri trú; til mín ásjónu þinni snú, Abba! Fadir ástkjæri, nú vil eg hvíla hægt med ró, hjá þér mín sálin vaki þó, glod þinni geymslu undir, augun þó lykist aptur mín, augun þá blessud vaki þín, yfir mér allar stundir.

4. Uppá þad sætt eg sofna vil; sérhvad þad mér nú heyrir til, fel eg þinni forsorgun, myrkranna leystur fári frá, fyrir þinn krapt svo mætti eg þá, mæla þitt lof á morgun. Sorgmædda alla annast þú, í nótt sem kunna verda nú, qveina og til þín kalla, í nafni Jesú, nafn þitt á, nádugi Fadir! bænheyr þá, géf þeim huggun gjörvalla.

5. Góðgjarni Fadir! géf þú mér, ad géta nú svo lifad hér, æ fyrir augsýn þinni, ad nær mín endast æfi-tíd, og unnid hefi þetta stríd, frjáls af armædu minni, ad megi eg komast þá til þín, þar sem útvaldra flockur skýn, og þú vilt tár af-þerra, þig sídan lofa, Þrenníng blíd, þar um eilífa lífsins tíd, Amen, bænheyr minn Herra! Amen.

## Föstudags Morgun Sálmur.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Ástúdlegasti ó Jesú! unnusti hjartkjær minn, verndadi mig í nótt enn nú, nálægur kraptur þinn, hresti sál mína hvíldin sú, heill er og líkaminn, var mér svo þessi verndin trú, vanmátt eg engann finn.

2. O! hvad med glödu hjarta hér, hvíld minni geng eg frá, önd mín fagnandi þakkar þér, þú guddóms tignin há! nætur = hvíld þá sem nú gafst mér, nóttu lidinni á, og adrar slíkar ástgjafir, ei þær fulltelja má.

3. Eg bid barmþrúngnu hjarta med: Herra! fyrirgéf mér, öll mín afbrot sem eru skéd, önd mín því qveinkar sér, syndinni hef eg hjartad léd, herbergi þitt sem er, andvarpar því mitt grátid géd, Gud minn! um vægd hjá þér.

4. Stjórni í dag þín mildi mér, minn Gud! og alla tíd, líf mitt gjörvallt og hegdun hér, hönd þín framleidi blíd, adhyllist gott sem ydka ber, íllt varist fyrr og síd, svo heppnist nær eg hédan fer, hvíld eptir unnid stríd.

5. Efl mína von, mitt traust og trú, til þíns blóds, Jesú minn! því fridþægíngar fórnin sú, færdi mér ávöxt sinn. Á þessum degi, Drottinn! þú, daudann líkama þinn, greftra létst, svo ad gjördir nú, gledi = svefn dauda minn.

6. Géf þú mér nád eg gjæti ad því, greftrist syndir mínar, þínum djúpu blód-undum í, allar svo hyljist þar, svo aldrei drottni uppá ný, í mér rót vondskunnar, leid mig af öllum löstum frí, í ljósi gudrækninnar.

7. Frelsarans Jesú fángid blídt, fadmi mig ørm= um tveim, ønd mín, líkami og allt sé mitt, ætíd verndad af þeim, eins og sjáaldur augna þitt, elsku Fadir! mig geym; lát øll mín verda afbrøt-qvitt, ádur enn skilst vid heim.

8. Fyrir þitt blód og beiskann deyd, barn þitt dýrkeypt eg er, verk minna-handa vel fram=greid, svo verdi til luckn mér. Yfir þá alla blessan breid, brauds sem rétt abla sér; hjálpa þú þeim í hvers= kyns neyd, sem hafa sitt traust á þér.

9. Þegar vér heimi førum frá, í fødur=landid inn, lífid vort vera lát þú þá, líknsamur dauda þinn; þín helg grøf sé vor hvíld, þar má, hægt sofa lík= aminn; í sælu=vist þér sjálfum hjá, svo leid oss, Jesú minn! Amen.

## Føstudags Qvøld Salmur.

Lagid: Hærsti Gud Herra mildi.

Himneski Herra mildi! húm dagsins komid er, þín guddóms gjædska vildi, greindust ad tímarnir, svo einn dag eptir annann, eg kém daudanum nær, þá fæ'eg føgnud sannann, fyrst Jesús yfirvann hann, hvíld mín því verdur vær.

2. O þú elskulegasti, Endurlausnarinn trúr! hjart= ans huggarinn besti, heill mín og verndar=múr, med= kénni eg miskun þína, mér sem enn hefur veitt, sanna medaumkan sína, sálu bevarad mína, frá hverskyns háska leidt.

3. Sonur Guds Jesús sætur, sannur Emaníel, sem'ad oss géfur gjætur, geymir frá íllu vel, ó Gud! gjæsi eg kynni, þitt aumt og vesælt barn, þóckvast

svo elsku þinni, sem þú ert sálu minni, mildur, og gjæðsku-gjarn.

4. Guð nàdi gleymsku mína! Guð betri slíka synd, hvar með eg hátign þína, hefi styggt aum mann-kind; ó! hvað mig mætti trega, mín sála! gjæt að því, og það rétt yfirvega, að við þannig daglega, gaungum fram glæpum í.

5. Nú með því nætur-rökur, nálægir sig til mín, kém eg fram hjarta-klökkur, krossfesta elsk-an mín! minnstú ei synda minna, margfjölda þeirra gleym, veit mér bót á þeim vinna, vegna blóð-unda þinna, vernda mig vel og geym.

6. Náð þín í nótt mér hlífi, náð þín mig bevari, yfir önd'u og lífi, ætíð þinn friður sé, láttú ógn næt-ur eigi, ónáða kunna mig; nær mér eg aptur megi, á tilkomandi degi, ljóssins Guð! lofa þig.

7. Hugga í hörmum sínum, hjörtu trúaðra fróm. Upplyptu augum þínum, yfir þinn kristinndóm. Herra! þitt blóðið hreina, hjá oss nú finni stað, lífs-kreptug lækníng meina, lát ei mann-eskju neina, á sér óníta það.

8. Enn í nótt nálægð þína, og náðar-ljós fag-urt þitt, láttú ljóma og skína, legu-rúm kríngum mitt, í því mín ondin vaki, en holdið leiti sér, hvíldar, og hressíng taki, hjartað samt til þín qvaki, sef eg þá sætt í þér.

9. Veit mér, Lausnarinn ljúfi! lífs meðan dvelst eg hér, að eg minn allann hafi, endar fögnuð í þér, þángað til þú mig kallar, þessari mæðu frá, í dýrð til himna-hallar, hvár eg um aldir allar, auglit þitt sællt mun sjá.

10. Heyr þú nú. Herra sætur! hvörs eg grát-bæni þig, á villtu veraldar-stræti, villast lát ekki mig,

héðan vill hjartað leita, hefur það gyrnd til þín; þetta virðstú mér veita, vegna þíns kjærleiks heita, Amen, það ósk er mín. Amen.

## Laugardags Morgun Sálmur.

Lagið: Nú bið eg Guð þú náðir mig.

Almáttugur Guð allsherjar, einn réttur Faðir gjæðskunnar! eg aumur hlaðinn sekt og synd, saurguð og vesæl skepnu-kind, meðkénni þessa morgunstund, miskun þína á alla lund, og margføld gjæði géfin af þér, góði Herra! og auðsýnd mér.

2. Ástríkar gjafir allar þær, elsku-ríkasti Faðir kjær! þakka eg mildri þinni náð, þúsundfold lofgjørð sé þér tjáð; géf að eg aldrei gleymi hér, því góða sem þú veittir mér, heldur sem annað hlýðið barn, heiðri þig, Drottinn náðar-gjarn!

3. Sjá mitt ángrádt og sorgfullt geð, sem þig umbiður tárum með, fyrirgéf mína sok og sekt, syndaathæfið ógndlegt, móti þér Guðdóms þrenníng þíð, þessa viku og alla tíð, sætust forþénan Sónar þíns, syndir af-þvoi hjarta míns.

4. Ljúfi Drottinn! mér líkna því, leið þú mig þínum sannleik í, ást þín veri mér aðstoð blíð, allra minna lífdaga tíð, hjarta mitt aldrei láti laust, lífs míns og sálar einka traust, fostust trúar faðmløg um þig, fyrr enn þú hefur blessað mig.

5. Hønd þín í dag mér stjórni sterk, stiðji og blessi øll mín verk, láttu þau ské til lofs við þig, en luckast vel fyrir sjálfann mig, og sáluhjálplega framqvæmd fá, farsæl það, Drottinn himnum á! Drottinn blessi vort daglegt brauð, Drottinn bæti vorn skort og nauð.

6. En skuli í dag, ad skickun þín, skadsamlegt eitthvad vitja mín, offókn, þrautir og þreyngíngar, í þessum ó=sjó veraldar, réttu mér þína hjálpar hønd, svo hverki fordjarfist líf né ønd, heilagt þol=gjædi gef þú mér, glóandi von og trú á þér.

7. Miskuna þeim med þinni nád, þú vort einasta hjálpar=rád, er þín leitandi elska þig, í þér svo megi gledja sig; alla naud=þreyngda bænheyr best, blessan þeim aumu meddeilist; gef voru landi gledi og frid, góda rósemd lát haldast vid.

8. Lát oss þiggja med þakklátt gèd, þínar gáfur, sem hefur þú léd, gef mér aumasta þínum þjón, þad er, Drottinn! mín audmjúk bón, eitt hjarta sem þig heidri vel, heita elsku og kærleiks þel, yfirgef, Herra! ecki mig, æfinlega eg vona á þig.

9. Sál mín, æra og embætti, í þína geymslu falid sé, endurlausn mín og adstod trú, Engla þinna lát vardhald nú, umkríngja mig á alla hlid, alskyns skadrædi forda vid, svo leingi sem eg lifi hér, lidsemd þeirra sé yfir mér.

10. Þú sem mig hefur vel vardveitt, viku þessa í nád framleidt, lát mér svo, gódi Gud! þennann, gledi dag verda farsælann, ad eg megi þér, Herra! hjá, hjartans rósemd og unun fá, lenstur af mínu mótlæti, mildasti Drottinn! lát þad ské. Amen.

## Laugardags Qvøld Sálmur.

Lagid: Øldúngar Júda annars dags.

O! hvad mikil þín miskun er, mildasti Drottinn! samjøfu þér, ómæliley frá eilífd sú, þad er mín trú, svo er hún stór sem sjálfur þú.

2. Svoddan mískun var sæl og blíð, sál mín! um liðna dagsin tíð, ockur géfin af guddóms náð, með gjæðsku dáð, honum sé dýrd um himin og láð.

3 Þessi dásamleg hjálp og hlíf, hefur frá slisum geymt mitt líf, varð því við eingum háska hætt, en hjartað kjætt, lof mínum Guði sýngur sætt.

4. Framar bið eg, minn Faðir! þig, framhald þú þinni náð við mig, afmá þú mínar misgjörðir, mig tak að þér, nauðstöddum munt ei neita mér.

5. Yfirgéf þú mig ei, minn Guð! þitt auma barn, í minni neyð, vegna þíns Sonar sára-flóðs, þess sæta blóðs, sem út er runnið, oss til góðs.

6. Kom minn Jesú, Guðs kjæri Son! með kröptuga þína fyrirbón, til lífs og sálar hjálpar hér, í hjarta mér, seg þú: minn friður sé með þér.

7. Minn vertu lærimeistari, mildur Guð, Andinn heilagi! hverja stund er þín hjástoð ný, eg huggast því, breiskleika mínum öllum í.

8. O þú há-blessuð Þrenníng þýð! þinn náðar væng eg undir skríð, gjörti mín vel í nótt enn nú, þín nálægð sú, hún sé mitt skjól og skjaldborg trú.

9. Svo sem þitt barn vel varðveittann, vera lát mig og óhultann, hæga svefn-ró og hvíldir fá; háska, neyð, þrá, Sonur Guðs Jesús svipt mér frá.

10. Allt mitt svo fel eg á þitt vald, ó minn Jesú, mitt lausnar-gjald! öndina, líf og æru mín, í umsjón þín, meðan hérvistar dvöl ei dvín.

11. O Jesú! vak þú yfir mér, enga skaðsemd lát hreifa sér, éttelaust sef eg uppá það, sem eg um bað, höndin þín sæl mér hjúkri að.

12. Hylji nú síðast hvílu mín, heilög purpura-

kápa þín, með því blóðs-teikni aðreifðann, sem af þér rann, lát þú mig vera verndaðann.

**13.** Í hjarta mínu hvíld þér bú, heilagi guðdóms Andi nú! svo eg í mínum svefni hér, síst gleymi þér, hverskyns þraut sem að hondum ber.

**14.** Prí-eini Guð! í þína náð, þessa nótt fel eg allt mitt ráð, líkna þú mér í lífi og deyð, leys mig frá neyð, yfir mig þína blessun breið.

**15.** Pegar dags-ljóma skynið skjært, skuggann nætur fær burtu hrært, lát þú sál mína lofa þig, leið síðan mig, fram á þann rétta friðar-stig.

**16.** Æra sé þér og æðsta dýrð, af Engla og manna túngum skírð, heilaga Prenníng himnum á, Halelúja, um allar aldir, Amen já. Amen.





# Sjöundu Viku Sálmar,

Qvednir af

Prófastinum Síra Þorsteini Ketilssyni,
fyrrum ad Hrafnagili í Eyafirdi.

## Sunnudags Morgun Sálmur.

Lagid; Herra Gud í himna=ríki.

Frelsarans Jesú Fadir og minn! Fadir alleina gódi, kannast eg nú vid kjærleik þinn, og qvaka uppá þig í hljódi.

2. Aúgljós er sól fyrir sjónum manns, sína med geisla prýdi, hún vermir allann veraldar krans, vonda sem góda lýdi.

3. Dyljast kann enginn, Drottinn! vid, dýrdlega miskun þína, þú leggur sekum líkn og frid, sem lítir ei glæpi mína.

4. Ecki létstú mig enn í nótt, adstodarlausann víla, aukid hefur mér þrek og þrótt, þessi mín nætur=hvíla.

5. Rann bestu prísi munnur minn mildust þín hjarta gjæði, hjá þér einum eg fríðinn finn, og fagnaðar best' úrræði.

6. Vilda eg kunna þackir þér, það sem mín skyldá býður, Guð minn! láttú það géfast mér, og gjættu mín ei að síður.

7. Óhreinann klæðnað af mér drag, íklæð Jesú réttlæti, þú kannt allt færa ljótt í lag, og leggja til sálar mæti.

8. Ránglátum Djöfli, höldi og heim, hamla frá velferð minni, fyrir slægð þeirra, Guð! mig geymi, að glati ei sképnu þinni.

9. Á þig sét eg mitt einka traust, athvarf og bestá hæli, óvinum munt ei láta laust, lífið mitt; Drottinn sæli!

10. Hvört sem eg lít, er háskinn nýr, hjartað fær stríði að mæta; yfirgéf mig ei, Drottinn dýr! dygð þín kann allt að bæta.

11. Í þrautum vertú vinur minn, og veikleiká trúarinnar, Satan villir um sauðinn þinn, sé hann án gjætslu þinnar.

12. Mig lát dagléga þjóna þér, þér fel eg mig á hendur, enginn kann vinna meinið mér, mér ef að hjá þú stendur.

13. Náðin þín veiti næring mér, og nauðþurft lífs og sálar, fyrir oss sjálfur sorg þú ber, síst dregur neinn á tálar.

14. Um lífdaganna léngð og stærð, líka þín best fyrir ráði, að qvöldi lífs mér veitir værð, og vist á himna láði.

15. Mun eg þá kunna eilíf ár, inna þacklætið

skyldur, og syngja þér af syndum klár, sífeldt lof Herra mildir!

16. Þér vil eg bjóda í þeirri vón, þjónkan, minn Drottinn frómi! hjálpadu mér, Guds sæti Son! sídast á efsta dómi.

17. Sje eg þá gjørlá rétta rann, af reynslu trúarinnar; nær þú ert sjálfur líf og laun, ljómandi kristri þinnar.

18. Dýrd sé þér, Fadir! dýrd sé þér, dýrdlegi Jésú! framin, dýrd helgum Anda dýrust ber, dýrkist Þrenningin, Amen.

## Sunnudags Qvøld Sálmur.

Med sama lag.

Þrenning almáttug guddóms góð! gjæt ad qveinstafan minni, fyrir míns Drottins dýra blód, dásemd eg treysti þinni.

2. O Gud! eg þacka af andmýkt þér, ástsemd og velgjørd þína; Fadir eilífi! fyrirgéf mér, fárlega glæpi mína.

3. Ránglætid vex en rækur er eg, rétt eins og fórtapadur, Sónur, er gleymdi sínum veg, sannlega daudans madur.

4. Sóad hefi eg andar and, arfleidslu gódzi mínu, sockinn því djúpt í sálar nand, sekur helvítis pínu.

5. Til þín, Drottinn! og flýa fer, fullur blygdunarinnar, Jesús Kristur miskuni mér, af mikilleik elsku sinnar.

6. Eg hefi daginn aflifad, undir Guds þolinmædi, Frelsari minn svo fyrir mig bad, fann eg ecként skadrædi.

7. Jesús taktú enn mæddann mig, í miskunár förssjá pína, Englanna verndin ástúðleg, umkríngi hvílu mína.

8. Réttláti Drottinn! rick mér frá, rauða drekans klóskesti, hafðu mér sjálfur auga á, Ísraels hyrdir besti.

9. Nakinn þó leggist niður hér, nak'ekkinn þinn mér hlífi, bjargþrota sképnu eg besel þér, bædi með sálu og lífi.

10. Komir þú með þinn kalda devð, kallandi burtu héðan, í himnaríkis hvíld mig leið, hvar eg fæ þig best séðann.

11. Eg mun þá fagna, Frelsari trúr! föðurlands blíðu þinni, þá er eg vanda öllum úr, innlæstur hendi þinni.

12. Til þess hef eg að treysta þér, trúadra hjálpar ferra, að þú verdir eitt meðal mér, miskunar góði Herra.

13. Eckért gleður mig annað hér, í andstreymis nauða róli, utan að meiga þjóna þér, þínum hjá dýrðar stóli.

14. Lángar mig því að fara sem fyrst, og finna gjæfu mína, í þeirri höllu himna vist, hvar engin snertir pína.

15. Sál mín fær allar sorgir endt, sæl þá gefst dauða stundin, og misgjörð sú, sem mig hefur hendt, mun ecki lengur fundin.

16. Sjá til, ef lénar lífið mér, lát mig það betur vanda, trúr svo eg finnist fyrir þér, Föður, Syni og Anda.

17. Dvina lát ei gledjast geð, af gløtun sálar

minnar, vertu mér, Guð! í verki með, vitjaðu sképnu þinnar.

18. Náð þín, Drottinn! mér nægjast skal, náð þinni eg aldrei gleymi, náða þú mig í neyðar dál, með náð leið burt úr heimi.

19. Prís þinn og æru elska vil, enn þó eg glæpum safni, himnéski Faðir! hjálp ei dyl, heyr mig í Jesú nafni! Amen.

## Mánudags Morgun Sálmur.

Lagið: Hjartkjæri Faðir himnum á.

Skapari allrar sképnu dýr, er skiptir degi og nótt, ó! hvað mætti eg reiknast rír, að reyna þinn náðar þrótt, samt lætur þú ei leiðást þér, lifandi Guð! að bjarga mér, og hepta hefndar gnótt.

2 Minn hefur varðveitt veikann hag, og varnað sálar deyð, líka géfið mér góðann dag, Guð! sem að fyrir mig leið; aldrei fullrómast elskan þín, allt gjördir Jesús vel til mín, þér leggist þockin greið.

3. Géf þú nú, Drottinn góði! mér, eg géti rúmi frá, skriðið hægt uppá herðar þér, hjálp mín ríður þar á, Djöfull kann ecki draga mig, Drottinn! meðan eg hefi þig; veit þú mér velgjörð þá.

4. Sképnu þinnar þú þeckir best, þróttleysið raunum í, vorkénn þú mínum vonar brest, voldugi Jesú! því, óvina grimd, og heiptar-hald, hindri, Drottinn, þitt mikla vald, svo verð eg frjáls og frí.

5. Þinni góðgyrni, því mig fel, þína géf stundi vild; í forhérdíngu síst mig fel, að Satans gyrnd verði ei fylld, láttu mig íllum hafna heim, hans fyrir vélabrögðum geym, mér nægir náð þín mild.

6. Gudlega lát mig gánga fram, og gjøra mitt skyldu verk, fordast allskonar vondsku og vamm, vel stunda boð þín merk, eðrum svo gésist ei af mér, ill dæmi, eda hneixlanir, hønd þín mig stodi sterk.

7. Að lifa hér, við lángg þraut, líir það huga minn, feginn vildi eg fara á braut, í fridar salinn þinn, þar sem óvinur einginn má, optar tæla mig Gudi frá, í vondann selskap sinn.

8. Sáluhjálplega send þú mér, síðustu dauða stund; þegar mín æfi á enda fer, og afhenda skal mitt pund; bið þá fyrir mér bródir minn, blessaður nádar andinn þinn, gledji þá grætta lund.

9. Að deya er minn ábati, er Jesús lífið mitt, í hønum finn eg yndi og fé, øll ér þá sokin qvitt. Far vel verøld! eg vil þig ei, vistum þínum eg segi nei, tak með þér burtu þitt.

10. Æskilegann uppríſu dag, unni mér Gud að sjá, Jesús géfi það gángi í hag, svo gledinni mætti eg ná; helgur Andi mér hjálpi við, hér á þó verdi stundar=bið. Þér sé dýrð Þrenníng há, Amen.

## Mánudags Qvøld Sálmur.

Lagið: Þann heilaga kross vor Herra bar.

Fadir vor Gud! ó Fadir minn! sem fyrir mér upplétst himininn, eg mæni uppá miskun þína, en minnist samt á glæpi mína.

2. Í þínar hendur fell eg fús, fyrst að þinn Sonur minn Jesús, hefur útlagann keypt með kaunum, og qvalafullum daudans raunum.

3. Fel eg því allann málstað minn, mildasti Gud!

í vilja þinn, láttú mig njóta Sonarins sára, og syndalausra bænar-tára.

4. Mína aumlega æfi-tíd, alla þeckir þín nádin blíd, og hvörsu eg er vannátt vafinn, í vóndra synda strídi kafinn.

5. Sál mín qvídir vid dauda dóm, døpur gledst þó vid nádar róm, ad einkis viljir þú andar dauda, eda fortøpun þinna sauda.

6. Drottinn! þú veitst mín dagleg brot, dauda þíns vildi eg ødlast not, ecki lát synd og íllsku mína, upp-þurka nádar-strauma þína.

7. Jesú! þitt auga allt kann sjá, ecki heldur þig sifja má; svo sem þú Péturs eyddir ama, eins bid eg gjörir mér hid sama.

8. Med líknar anda leid þú mig, lífs orda þinna gøtu-stig, svo ad eg allar æfi-slódir, eptirfylgi þér, Jesú gódi!

9. Tak mig berann sem barn í skaut, blessunar þinnar er sæll hver naut, þá hef eg dag í dimmu húmi, Drottinn Gud verdur mér ad rúmi.

10. Þú hefir alid ønn fyrir mér, á burtrekandi Djøfuls her, sem vængir hænu vesælum úngum, veita skjól fyrir ama þúngum.

11. Minn Herra! lát mig nú í nótt, nádar þinnar fá reyna þrótt, bjarga þú mér fyrir blód þitt rauda, og bevara mig frá íllum dauda.

12. Anda fridarins Gud mér gèf, og gledi hjartans medan sef, ad eg í þinni elsku vakni, og einkis góda hjá þér sakni.

13. Amen, innsigla ó Jesú! allra bæna sem eg í trú, fyrir þig ber; þú fót minn greidir, framm á himneskar gledi leidir, Amen.

## Þridjudags Morgun Sálmur.

Lagid: Endurlausnarinn vor Jesú Krist.

Herra Gud! sem á himnum býr, hverskyns rád-andi, nádar dýr, þér vegsemd vandi, vort líf og andi. Gud géfi oss øllum gódann dag.

2. Upp hef eg lokid augum mín, er þad skéd fyrir mildi þín, íllt andar kífid, ei mitt stytti lífid, Gud g. o. ø. g. d.

3. Vel hefir Engla valdur her, vakad þessa nótt yfir mér, heipt forna fjanda, féck mér síst ad granda. Gud g. o. ø. g. d.

4. Meta kann enginn miskun þín, minn gódi Jesú! lít til mín, syndin mín svarta, særir mig til hjarta. G. g. o. ø. g. d.

5. Fyrirgéf hana, Frelsarinn kjær! fyrir þitt blód, og endurnær, sinnid sorg-þjáda, sannlega mátt því rada. G. g. o. ø. g. d.

7. Augum mín lita uppá þig, alls-herjar Drottinn nádi mig, væg veføld minni, í vorkunsemi þinni. G. g. o. ø. g. d.

8. Syrg þú fyrir mér, gódi Gud! gled mína sál í hvørri naud, brest minn lát bæta, blessan þína ágjæta. G. g. o. ø. g. d.

9. Lýsi mér, Jesú! ljósid þitt, lífgi formyrkvad hugskot mitt, svo eg í sama, sæki dygda frama. Gud g. o. ø. g. d.

10. Greid þú spor mín á gódann veg, geymi mig hønd þín fodurleg, æ vindst mig aga, eins og bést kann haga. G. g. o. ø. g. d.

11. Hjálpa þú, Jesú mildi! mér, mitt erfidi svo

luckist hér, verk mín svo vandi, í vingan þinni standi. G. g. o. ø. g. d.

12. Send mér blessan og nýa náð, náð þín far-sæli allt mitt ráð, lund mína laga, svo líki þér alla daga. G. g. o. ø. g. d.

13. Viljir þú að eg deyi í dag, og dauðann qveð-ji lífsins hag, leið mig þá liðinn, lífs í dýrðar frið-inn. G. g. o. ø. g. d.

14. Þar er dagur sem þúsund ár, þar er Jesús vor sólin klár, sæl hans sjón bjartá, seður þá gyrnd míns hjarta. G. g. o. ø. g. d.

15. Þar er hvíld fyrir þreittann mann, þar er ró fyrir ofsóktann, húngraður mettur, hrakinn í virð-íng settur. G. g. o. ø. g. d.

16. Þar er gleði sem grát afþvær, gnógt auðs hverjum sem fátækt slær, sæt svölun þyrstum, sátt í gédi bistum. G. g. o. ø. g. d.

17. Hiti er þar fyrir hjartað kaldt, hreppa veik-lyndir traust óvallt, meinsemd og mæða, mun þar engann hræða. G. g. o. ø. g. d.

18. Sjóndapur hefur þar sífeldt ljós, sá hinn for-smáði eilíft hrós, íllt aldrei skaðar, í unun mun ég þá baða. G. g o. ø. g. d.

19. Svoddan veiti oss sælu víst, sjálfur Guð fyr-ir Jesúm Krist, hans þöck ei þrjóti, þó veröld end-ast hljóti. Guð géfi oss øllum góðann dag, Amen.

## Þriðjudags Qvøld Sálmur.

Með sama lag.

O Jesú Guðs Son eingétinn! eg kém fyrir þig, Drottinn minn! verkfærið veika, von mína lát ei skeika. Guð géfi oss øllum góða nótt.

2. Hjartad, sál, líf og holdid mitt, hnegist nú undir valdid þitt, blygdun mér bæri, betri mig Jesú kjæri. G. g. o. ø. g. n.

3. Opt hef eg, Jesú mildur minn! misbrúkad helgann vilja þinn, í dag sem ádur, er eg því rétt forsmádur. G. g. o. ø. g. n.

4. Ecki er þér gagn ad gløtun mín, gódi Jesú! fyrir benjar þín, lát sál heill halda, og hjartans lof þér gjalda. G. g. o. ø. g. n.

5. Reiknadu ecki, mildin mæt! mína synd er eg fyrir þér græt, eg fel mig án fára, í fylsnum þinna sára. G. g. o. ø. g. n.

6. Þó ecki hafi eg ordid þitt, innrætt sem bæri í hjartad mitt, þess nádar neisti, í neydinni mig hughreisti. G. g. o. ø. g. n.

7. Jesú kross-skugga skjólid vært, skal nú vera mitt hælid kjært, med Lausnarans lidi, eg leggst í sæng med fridi. G. g. o. ø. g. n.

8. Veit þú sál minni ad vaka í þér, vak þú, Jesú! í hjarta mér, svo mun eg sofa, og sætlega Drottinn lofa. G. g. o. ø. g. n.

9. Skuli eg láta lífid mitt, legg mig í nádar skautid þitt, dauda-stund sæla, send þú mér yndæla. G. g. o. ø. g. n.

10. Enn ef ad rís eg upp af sæng, yfir mig breid þinn hlífdar væng, ólucku illa, ei lát gjæsku spilla. G. g. o. ø. g. n.

11. Æfidøgunum unn þú mér, eyda, svo hlotnist dýrdin þér, eg skal bøl mitt bera, í brjósti, og gladur vera. G. g. o. ø. g. n.

12. Hefur mér lofad himnum á, Herrann algjørd-

ri sælu að ná, því skal þess bíða, í þolinmæði, og líða. G. g. o. o. g. n.

13. Í nafni Föðurs og Sonar, og Anda sællrar huggunar, eg síg að svefn-bóli, og sef í Drottins skjóli. Guð gefi oss öllum góða nótt, Amen.

## Miðvikudags Morgun Sálmur.

Lagið: O Jesú elsku hreinn.

Guðs lof í allri átt, æ hljómi dag sem nátt, nú er mín sálin sátt, syngjandi af Jesú mátt.

2. Máttþrota er aum mannkind, marg syndug, dofin, blind, því skyldi hún sem hind, í hreina sækja lind.

3. Lind sú er miskun mæt, míns Herra fögur og sæt, hvorn morgun gefst ágjæt, gyrnd mína þar með bæt.

4. Bæti nú brunnur þinn, brjóst-þurkinn sálar minn, lifandi Lausnarinn! ljós send í hjartað inn.

5. Innljómar dagur dýr, dapur skugginn því flýr, allt bolið á burt snír, ef þú í hjarta býr.

6. Býr það í minni mér, sem má ei gleymast hér, finna björg enga er, utan í sjálfum þér.

7. Þér fel eg sjúka sál, sinni, verk, heyrn og mál, mótlætis skæinta skál, skaðlegt er heimsins tál.

8. Táldregin opt var eg, á vondann glæpa veg, heillin vor hjartanleg, hjálpa mér, ecki treg.

9. Tregleikann tak mér frá, til þess sem gjörast á, þú verkar það eg má, þín náð mér standi hjá.

10. Hjá mér efl dáð og dug, Drottins náð almáttug, eins svo sem únga flug, á þér festi eg minn hug.

11. Hugur minn hjá þér sé, hverskyns í mótgángi, svo að eg varist ve, verndi þín réttindi.

12. Réttláti Kristi klár! klár gjørdu øll mín tár, tár þín og nida ár, allt stilli rauna fár.

13. Fárlegum synda síd, sjá lát mig, Drottinn! vid, géf þú mér gódann frid, Gud! þess af hjarta eg bid.

14. Bid eg ad blessan þín, bjørg veri nægust mín, þar til líf dapurt dvín, dreck eg þitt gledi vín.

15. Víngardsins Drottinn dýr! dugnadur minn er rír, gjør því, ó Herra hýr! herkid þitt vinnudýr.

16. Dýrt keyptir, Drottinn! mig, djofullinn flúdi þig, hamli mér heljar stig, ho.din þín mildilig.

17. Mildin þín mig stodi, minn gódi Frelsari! ok mitt svo afleggi, í þína hvíld nái.

18. Nád þín mig stodi sterk, ad stunda tiltrúad verk, frá Drekans fornu qverk, frelsi mig trygd þín merk.

19. Merki eg, sæll Zebaoth! senn komid æfi-þrot, mig hédan leid sem Loth, lífs eilífs géf mér not.

20. Nýt eg þá þín í því, þar verd eg rauna frí, sí-gladur sælu í, sýngjandi lof-vers ný.

21. Ný og fersk nád þín hér, nábjargir veiti mér, handur þá holdid ber, himins til sálin fer.

22. Fer sál í Fodurs-mund, fagnar af því mín lund, þegar eg fæ þinn fund, á fridsamri dauda stund.

23. Stundir og allt hvad er, uppi og nidri hér, menn, sképnur, himna her, hærsta lof sýngi þér, Amen.

## Midvikudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Pétur þar sat í sal.

O Fadir fridargjarn! frelsis upphafid, hér er þitt brotlegt barn, bølinu vafid.

2. Þér hjartans þöck að tjá, og þig að biðja, sjálfskyldug segjast má, syndugs manns ydja.
3. Það er og meining mín, þó misgjört hafi, að qvaka upp til þín, úr súta kafi.
4. Opt hefur auðsýnt mér, elskuna þína, eg sýndi aptur þér, íllskuna mína.
5. Dags ljósið dapraſt fer, enn dæmin vaka, hver veitir miskun mér, margt er til saka.
6. Ei þrítur efni qveins, allt stundlegt dvínar, eg vildi eyddist eins, íllgjördir mínar.
7. Opt hef eg syndum sáð, svo mínkar dugur, géf þú mér gagnlegt ráð, Guð almáttugur.
8. Til margrar vondsku vann, veröld mig tegja, Herrann á himnum kann, hér frá að segja.
9. Eg gleymdi orðum þín, íllu fylgjandi, mér jók og mestu pín, með sálar grandi.
10. Von er, sem viðurstygð, verði eg burtþrakinn, kaldur í kjærleiks dygð, kallast því nakinn.
11. Skémt hef eg skírnar lín, og skrúðann hvíta, eg blygðast upp til þín, augunum líta.
12. Mig létstu marga nátt, miskunar njóta, þó gjörði eg samða sátt, sífeldt að brjóta.
13. Embættis verk og veg, vandaði eg eigi, lund-in var leið og treg, á liðnum degi.
14. Óvini andar nú, ei hata gjörði, rétt er þó ríckir þú, reiðinnar sverði.
15. Trú er í voða veik, vill það mig buga, eg ved sem annann reik, í mínum huga.
16. Lát mig ei bresta bót, bárnkind með tárum, þinn sem að faðmar fót, í fjörbrotum sárum.
17. Nú qveður nauðstödd sál, nauðþurftar-sinn-ar, henni er meir enn mál, miskunar þinnar.

18. Mørg er hér mædu stund, margt hjarta qvein-
id, Jesú! þín ljúfust lund, kini því meini.
19. Alít í miskun mig, mildasti bródir, eg qvaka
uppá þig, ó Jesú gódi!
20. A þér er øll mín von, í hverjum vanda, Jesú
Guds sanni Son! send mér þinn Anda.
21. Eg hefi allbjart ljós, í ángurs húmi, hvíl-
ir þú himna rós, hjá mér í rúmi.
22. Yfir og undir breid, adhjúkran þína, svo
mun ei særa-neyd, sálina mína.
23. Í þína heilla hønd, hún sé nú falin, mikir
þad meinin vønd, mun aldrei qvalin.
24. Send henni sætann frid, saunleikans Anda,
al-brynjad Engla lid, afstýri fjanda.
25. Hjálpa svo hugsi þad, í hvílu minni: eg geing
í grafar-stad, þá gráts-tíd linnir.
26. Sætt géf eg sofi þá, og sviptur qvídá, sálin
í sælu má, síns holdsins bída.
27. Enn ef eg upp skal stá, úr legu-bóli, géf ad
eg gángi þá, í grida skjóli.
28. Lát mig þitt ljósíd sjá, á lífsins vegi, og
nád finna effta á, endurgjalds degi.
29. Svo mun eg synda frí, sýngja þinn hródur,
dýrdlegri unum í, eilífari gódur.
30. O Jesú! unn þess mér, í fridi fari. Eilíft
lof inni þér, útvaldra skari, Amen.

## Fimtudags Morgun Sálmur.

Lagid: Sá ljósi dagur lidinn er.

Minn Gud! eg lít á morgun-stund, mínum aug-
um til þín, vaknadur upp af værum blund, vel-
gjørd sú fagurt skín. Heidur sé Gudi í himnaríki.

2. Morgun-stjarnan upprunnin er, um loptið dagurinn sjest: Herrans skíni í hjarta mér, huggunar ljósið best: heyri það Guð í Himnaríki.

3. Mjúk þegar færir mig af bed, miskunar höndin þín, og skjæra fæ eg sólu sjed, sætt fagni öndin mín; svo hjálpar Guð í himnaríki.

4. Þetta dregur nú þar til mig, að þakka Drottins náð, og, Jesú skjær! að þekkja þig, þú ert mitt hjálpar-ráð, hrós, líf, sæla, og himnaríki.

5. Faðir himnanna alla einn, umsorgun fyrir mér bar, eins og eg væri auga-steinn, eingétins Guðs Sonar, hann mun géfa mér himnaríki.

6. Mig særði eingin neyð í nótt, náqvæm þín hjálpar-hönd, verða lét bæði vært og rótt, verndaði líf og önd, hann leiði mig í himnaríki.

7. Framar bið eg um fylgi þitt, Frelsarinn Jesú kjær! þér í skaut legg eg lífið mitt, lát mig þér vera nær, og hugsa til mín í himnaríki.

8. Þó hormúng særi huga minn, og heilsu líði brest, í þér eg hjálp og huggun finn, sem hátt á krossi létst, og hefur útvegað himnaríki.

9. Lát þú mig ætíð þjóna þér, og þín boð stunda á, svo þegar lasið lífið þver, lendi eg útvöldum hjá, herskaranum í himnaríki.

10. Mig þá kallar af minni gröf, hið mikla lúðurs-hljóð, og uppvaknar fyrir utan töf, öll hín sofandi þjóð, hjálpi mér Guð í himnaríki.

11. Í landi skuggans lángar mig, lífs morgunstjörnu sjá, í bústað ljóss, sem birtir sig, burtdrifin myrkra-þrá, í hæst ljómandi himnaríki.

12. Jesú réttlætis sanna sól, sæla er að líta

þig, við il þíns varma, eg bý mér ból, blessun þín hressi mig, hér og síðar í himnaríki.

13. Allann mig gef eg øllum þér, allt fel eg þér mitt ráð, allann þig losi allt í mér, allt prýði Drottins náð! Herrann gefi oss himnaríki! Amen.

## Fimtudags Qvøld Sálmur.

Lagið: Jesús Kristur er vor Frelsari.

Miskunsamasti minn Frelsari, mitt einka traust og naudhjálpari! ómøgulegt er aumum mér, útskýra þínar dásemder.

2. Hver kann þann sjó að mæla og meta? mun það djúp nockur stikað géta? í svoddann náðar afgrunn þinn; eg kasta mér nú, Jesú minn!

3. Þar inní skal mín sálin sveima, eg sæki ei bjørg í aðra heima, þar er mitt eðli, og allt hvað kýs, æra, næring, og friður vís.

4. Reynt hef eg þetta, græðarinn góði! þó gengið hafi villu-slóðir, allann dag þennann og æfi-tíð, annaðist mig þín gjæðskan blíð.

5. Þreittst hef eg varla þig að styggja, né þína góða Engla hryggja, hár eru mørg á høfði mér, en hvergi færri glæpirner.

6. Þinn kross sem aðrir, átti eg að bera, undir hørðum þolgóður að vera; vanartin ljót í vondsku mátt, viljaleysinu fylgir þrátt.

7. Nær þú gefur mér gleði-tíma, grát og vílsemi burt að ríma, óstirilætið eblist þá, athugasemin víkur frá.

8. Trú og kjærleik, þú krefur af manni, ef kom-

aſt ſkal hjá reidinnar banni, líkara myrkri ljós mitt er, ef ljós ei fær af ſjálfum þér.

9. Aga þú mig nú, elſkuginn gódi! og mig hreinſa í þínu blódi, tárum ſálar ei tín þú hér, trúlofadiſt hún fyrri þér.

10. Lifandi Jeſú! lífga hana, þó liggi nú ſem barn andvana, æ ſkíl þú henni í undinn þín, elſkulegaſta hjálpin mín.

11. A kroſsinum baudſtú munn þinn milda, man eg þad líka er min ſkylda, ad tjá þér aptur trúarkoſs, ſem tíndir líſi ad bjarga oſs.

12. Kom nú, mín ſál! í kroſs-fadm þenna, kann Jeſú blód til ſkyldu ad renna, þú ert teiknud í höndum hans, haldtú faſt þeſsum varnar-ſkans.

13. Géfi oſs Drottinn gódar nætur, gjørandi á øllum ſorgum bætur, vefjum oſs í hans vænga-ſkjól, hann veri vor ædſta gledi-ſól.

14. Meinvættir eingir meiga oſs granda, milli Frelſarans hjálpar handa, annars heims bædi og einnig hér, óttalauſir þá hvílumſt vér.

15. Samanlýk gladur ſjónar-hvarma, á Sonar Guds fell eg blídu arma: ónádi mig nú einginn ſá, ſem ecki trúir Kriſtum á.

16. Hér vil eg lúinn lifa og deya, líka góda nótt heimi ſegja, þegar Gud vill, eg géf mig því, gjarnſamlega hans viljann í.

17. Alíttú þetta andvarp ſára, ó Jeſú! vegna þinna tára, eg ſkal þig lofa, Lauſnari minn! leid þú mig inn í himininn. Amen.

Føſtudags

## Föstudags Morgun Sálmur.

Lagid: Gled þig Guds Sonar brúd.

Himneski hirdir minn! Herra Jesú, eg finn, syfjat þitt auga eigi, á nótt, eda björtum degi, miskun þín mildilega, mig sviptir öllum trega.

2. Jeg vildi nú á ný, nád þína prísa frí, aptur má augum mínum, uppljúka fyrir þínum, og sjá dags byrtu blída, burt-drífa nætur qvída.

3. Augu mín áhrær þú, ad eg þeim líti í trú, upp til himnanna hæda, hvadan mér vænti gjæda, þar øll farsæld og fridur, frá Gudi stígur nidur.

4. Lát hjarta, og munninn minn, mildastur Frelsarinn! opnast ástar-gjöf þinni, inn-hell þar blessaninni, ad eg þér allt hvad hefi, aptur í trúnni gefi.

5. Prófa þú meiníng mín, minnstu á gjæsku þín, hverja frá øld, til alda, auglýsir þúsundfalda, nú svo eg nái henni, ný og fersk, mér upprenni.

6. Eg veit þú verkar minn, viljann og gjörníngínn, endurnær alla krapta, í mér sem hefur skapta, svo eg velþóknun þinni, þjóni med glødu sinni,

7. Mig geym þú meinum frá, og myrkra verka þrá, frá Djøfli og daudans pínu, Drottinn! hlíf barni þínu, fellt, reisi á fætur aptur, þinn födurlégur kraptur.

8. Jesú, Jesú minn kjær! jeg bid: vert þú mér nær, fyrir þinn fridar Anda, førda mér synda vanda, ad hafi eg hegdan góda, sem heiløg ord þín bjóda.

9. Eg reikna allt í heim, ekkert hjá føgnud þeim, ad vera þitt kross-barn kjæra, og kynníng þína læra, adrir vid aud sig gledji, eg held mig þetta sedji.

10. Réttu mér hjálpar-hønd, herd þú mín kjær-

leiks-bønd, einginn mig af þér dragi, allt fari í gódu lagi, slepptu mér aumum eigi, ó Jesú! þó ég deyi.

11. Séf þú mér gódann frid, sem gétur ei veraldar lid, veittu mér stod ad strída, stundir líss medan lída, lát þú mig ljúst þad berá; sem lítst þér gott ad vera.

12. Víngard þinn vernda hér, svo veitist losid þér, unn honum ávøxt færa, ylm-sætum berjum tæra, svo ad lund þinni líki, leid oss í himnaríki.

13. Dýrd sé þér, Drottinn minn! í dag og hvert eitt sinn, dýrd Fødur, dýrd Guds Syni, dýrd sýngist af mannkyni, dýrd Englar Drottni vanda, dýrd sé heilogum Anda. Amen.

## Føstudags Qvøld Sálmur.

Lagid: Upphef eg angun mín.

Jsraels hyrdir hár, hofdíngi Drottnanna! sýngi þér saung-vers klár, sérhver ein skepnanna; sál minni líka lítst, losid ad vanda þér, málid þó megni síst, ad mikla þitt nafn sem ber.

2. Pad hefi eg þinni nád; þacka; minn gódi Gud! óvina ílsku-rád, ei snertu vilkann saud. Þín hefur, þennann dag, þídasta hjálpar-hønd, stjórnad vel hættum hag, hord slitid súta-bønd.

3. Mín telur hofud-hár, háska og slisum ver, villandi vitis ár, víst kunni ei granda mér, hver þackar? hver þad sjer, hvad lángt þín miskun nær? allt hvad eg orka og er, unni þér, Jesú kjær!

4. Heyr framar, Herra Gud! himneska verndin mín, send þú nú sálar frid, sýtandi skepnu þín, hjart-

ad er hrygdum spennt, huga minn vylid slær, synda fær kauna kénnt, kénnir lækníngu fjær.

5. Veldur því vondskan þver, vanart og synda þrá, straffs-óttinn brjóstid ber, burt-slitid Gudi frá; samt huggar særda önd, sár pína Frelsarans, stittist ei hjálpar-hönd, himneska grædarans.

6. Hún þerri hryggdar-tár, hún reidi svipti mig; hún grædi synda-sár, sollin og banvænlig; hún snúi öllu enn, ólappi mér til góds, hún prýdi sálu senn, sakleysi Jesú blóds.

7. Verndi mig vængur þinn, veittu mér nökt-um skjól, svæf þú mig, svo eg finn, sætasta værdar-ból; eins þegar upp eg stend, aldrei mér vík þú fjær, þá geingur happ í hönd, haldi eg þér, Jesú kjær!

8. Þú ert mín þocka-bót, þú ert mér sjálfum nóg; þín nádar hýrleg hót, held eg minn audnu plóg. Medan eg mædist hér, minnstu þess, Drottinn minn! þitt herfáng enn eg er, eigindóm hyrdru þinn.

9. Yfir mig ecki lát, óvini stígid fá, legg til þess góda gát, eg gángi þér aldrei frá; en þegar æfi-húm, ad medur danda fer, byggdu þér, bródir! rúm, bjartast í hjarta mér.

10. Svo veidur sálin aum, af sjón þinni mett-ud best, fyllt öllum gledi-glaum, sem gyrntist hún ádur mest; þar til ég þetta fæ, þér vil eg lofid tjá, seint, fyrri, síd, og æ, svo sem ég kann og má. Amen.

## Laugardags Morgun Sálmur.

Lagid: Ó vér syndum sétnir.

Allrar sképnu skara, Skapari! lof sé þér, voldugur vilt ei spara, ad veita bjargir mér; þó hef eg

þinni mildi, þrálega stygdir veitt, og adhylst ei sem skyldi, þitt ástar-þelid heitt: Gud fyrirgéfi mér, Gud minn, eg treysti þér, sem allt medur ordi ber.

2. Byrtan dagsins dýra, dimmunni eyda kann; ljósid himneskt hýra, heilagi Gud og mann! fría formirqvad hjarta, vid fordæmíngar ský, svo ad þú sólin bjarta, sjálf mégir lýsa því. Guds nád mér géfist hér, Guds kraptur alldrei þver, Jesú! miskuna mér.

3. Kristi Jesú kjæri! eg kalla á morgun-stund; mig þín miskun nærí, og mædda gledji lund, géf mér glidrækni æfa, svo gédjast mætti þér, undir því øll mín gjæfa, æfinleg komin sé, blessun þín bjarga kann, brjóst-gódi hjálpar mann! þad veit eg víst med sann.

4. Drottinn dýrdar klári! deyd minn gamla mann, frelsa oss af fári, og frída mig syndugann, ei lát Satan arga, endurkeiptri sál, minni fá ad farga, né færa í vítis bál. Gud dæmi, Djøfull! þig; Drottinn, vardveiti mig! frá hættum heljar-stig.

5. Eg hefi eingar stodir, útan þig, Jesú minn! medan í æd líf lodir, lát þú mig vera þinn, og aldrei af mér brjóta, endurlausnar frid, hvers eg nú vildi njóta, nád þín mér sýni lid. Guds Sonar benja-blód, blædi í hjarta-sjód, þá leggst mér lækníng gód.

6. Fyrir þinn dýrann dreyra, Drottinn! varna þú mér, ad elska annad meira, enn þad sem líkar þér; embættis verkin vandi, veraldar hati sid, þó hún geysi med grandi, og géfi mér engann frid. Í helgri Herrans und, hef eg minn Jónas lund, þad dugir á dauda stund.

7. Géf þú mér, Gud minn blídi! eg géti þennann dag, í kristinna stadid strídi, stýr þú sorganna hag, allt vel svo yfirvinni, allt sé til dýrdar þér, og himnesskar hvíldir finni, hédan þá deya fer. Frelsi oss Fadirinn, frid veiti Sonurinn, og helgasti Huggarinn. Amen.

## Laugardags Qvøld Sálmur.

Lagid: Dagur er, dýrka ber.

Dagur þver, dýrdin ber, Drottins tign há, þér hin góda, gyrndin þjóda, Gud trúr, aumum frid, líkn og lid, lagdir hvert sinn. Hvad sem má, hródur tjá, heidri Drottinn.

2. Sýnir vørn, blessar børn, braudi lífs med, sálar forda, Satans mordi, vel ver, nærir líf, nauda kýf, nú eg ei finn. Hvad sem má, hródur tjá, heidri Drottinn.

3. J dag enn mæt, dugdi sæt, dygdin þín mér, hærsti gódi, gjæðsku bródir, Guds Son, líknar hønd, med lífi og ønd, læstir mig inn. H. s. m. h. t. h. D.

4. Margføld synd, særd og blind, samvitskan aum, trúin veik, sem visnud eyk, en von brast, í svoddan naud, sjálfur Gud, sýndir mátt þinn. H. s. m. h. t. h. D.

5. Hald mér vid, hjartans frid, hvad sem mót blæs, í heimsins strídi, eg þó lídi, Jesú! þig sem bad, á eg ad, eins á qvøldin. Góda nótt, gédid rótt, géfi oss Drottinn.

6. Láttu nú, trausta trú, taka vid þér, Jesú gódi!

bæt med blódi, brot mín, hjartad mitt, þad er þitt, því eg ró finn. G. n. g. r. g. o. D.

7. Eg fæ sjed, sálar med, sjón, þig Jesú! yfir mér vaki, og ad sér taki, ást þín, óvin þá, einginn má, ángra hug minn. G. n. g. r. g. o. D.

8. Hvert eg dey, eda ei, ó minn Jesú! lid mér veiti, líkn þín heita, og ljós gladt, mig úr neyd, og døprum deyd, drag í himin. G. n. g. r. g. o. D.

9. Þar eg má, þeckja og sjá, þína vegsemd, líka sýngja, lifendra Kóngi, lof sætt, um aldirnar, eilífar, eg þá hvíld finn. Góda nótt, gédid rótt, géfi oss Drottinn. Amen.





# Viku Bænir,

úr Þýsku útlagdar,

af

Síra Gudmundi Hognasyni,

fyrrum í Vestmanna-Eyum.



## Sunnudags Morgun Bæn.

Gud Fadir minn Skapari! ó hversu heilagur er þessi dagur, á hverjum þú sjálfur hvílst hefur. Eg kém nú frá hvílunni, og fer til hvíldarinnar. Hvílt hef eg í nótt á þínum ørmum, þar fyrir þacka eg þér; viljir þú í dag hvíla í mínu hjarta, þar yfir fagna eg. Nóttin er umlidin, dagurinn er kominn. Lát nú verda ljós í mínu hjarta, þú ljóssins Fadir! ad eg í þínu ljósi sjái ljósid og gángi í því. Vardveit minn fót, ad eg í dag vitji þíns húss. Mína sál lángar eptir þínum forgardi. Legg þín ord í minn munn. Fyll mín eyru med þinni raust. Upplýs mín augu med þínum sannleika. Ahrær mínar varir med þínum fingri. Uppfyll mitt hjarta med þinn sætleika, Lát ecki mína gudrækni vera hræsni, og ecki mína Guds þjónustu, manna

þjónustu. Nær eg með tollheimtumanninum stend í þínum forgarði, þá sé mín fyrsta andvarpan: Guð! vertú mér syndaranum náðugur! Guðs Sonur minn Frelsari! þessi dagur er þinn. Á honum ertú upprisinn. Æ! lát mig í dag upprísa frá villunni til sannleikans, frá syndunum til heilagleikans, frá harminum til fagnaðarins. Þú ert vegurinn, sannleikurinn og lífið. Æ! tala í dag í þínum helgidómi, þá verð eg glaðvær. Eg legg mig á þín brjóst. Drykkja mig með mjólk þess hreina Evangelii. Legg þig, fyrir þitt orð, í mitt hjarta, svo eg fái ríkuglega huggun af þínu húsi. Haldt mínu hjarta við það eina, að eg óttist þitt nafn. Bygg þetta land og vökva það, því þín uppsprettа hefur nægð af vatni. Sá þínu sæði í góða jørð, svo það beri hundraðfaldann ávøxt. Lát þitt orð vera mitt ljós á veginum, minn veg til himinsins, og minn himin í hjartanu. Þá fæ eg lysting til þinna vitnisburða, og einn lystugann hvíldar-dag. Guð heilagur Andi minn huggari! þessi dagur er einnig þinn dagur, á hverjum þú ert berssýnilega úthelltur. Úthell þér í dag yfir mig, innhell þér í dag í mig; sýn mér á þessum sólar degi, sól réttlætisins, og hjálpræðið undir hennar vængjum. Fall þú yfir mig, nær eg heyri orðið. Lát það gégnum eyrun gánga inn í hjartað. Skrifa það með þínum fingri í mitt hugskot. Hreinsa mig í yðraninni. Styrk mig í trúnni. Auk mig í elskunni. Betra mig í lifnaðinum. Hugga mig í ángurseminni. Tilreið mig til sællrar dauða-stundar. Þá verð eg ecki einasta heyrari, heldur einnig gjørari; en þú munt géfa mér bæði viljann og framqvæmdina, og það

góda sem þú hefur í mér uppbyrjad varðveita, og sannlega innsigla, allt á þann dag minnar endurlausnar. Heilaga þrenning! helga mig í dag á allar síður, vertu allt í mér, svo megna eg öllu fyrir þig. Gjör þér musteri í mínu hjarta, þá skédur mínu húsi í dag heilsa. Bú ecki einasta hjá mér, heldur blíf og svo í mér. Söfnudur trúadra sé á þessum degi, med einu hjarta og einni sál. Enginn þjóni þér med folsku hjarta. Viðhaldt öllum frómum í heilagri hvíld, allt þángad til vér finnum þá hvíld, sem Guds fólk á fyrir hondum, þá munum vér loksins halda eitt Sabbat eptir annad med öllum útvöldum. Amen.

## Sunnudags Qvöld Bæn.

Gud Fadir minn vaktari, þú verndari Israels! Eg hefi mitt athvarf á þessu qvöldi til þinna opnu augna. Þú sefur ecki, og ecki sifjar þig. Eg má hvert-tveggja gjöra til hressingar mínu mæddu lífi. Upplýs því mín augu, ad eg sofni ecki í dandanum; Eg hefi nú í dag sjed þær undranir í þínu Logmáli. Hvad skírlega hefur þú mig frædt? hvad fodurlega áminnt? hvad trúlega advarad? hvad hjartanlega huggad? en þegar eg skoda sjálfann mig, þá skélsist eg. Hvad treglega hef eg þig heyrt? hvad dauflega elskad? hvad ógjarna þér fylgt? hvad þverlega þína regln forsmád? æ! lát þad ordid sem eg forsmád hefi, ecki dæma mig á nockrum degi. Lát ecki sólina yfir minni vondsku og þinni reidi undirgánga. Eg bid um nád fyrir réttinn; um miskun fyrir hyrting. Vert

einnig í myrkrinu mitt ljós, að eg á morgun uppstandi til að sjá nýtt ljós, og að hafa nýtt framferði. Guðs Sonur minn hyrðir! gjør mér nú í þínu blóði einn fagrann qvøld roða. Þinn sauður leggst í þitt skaut. Þinn úngi skríður undir þína vængi. Þinn lærisveinn hænist að þínu brjósti. Varðveit mig sem þinn auga-stein. Set mig sem eitt innsigli á þinn arm. Haldt mér sem einum hríng á þínum fíngri. Lát þína elsku vera minn draum, og þitt orð ræðu míns hjarta í mínu hvíln-rúmi. Þín vinstri hønd leggi sig undir mitt høfuð, þín hægri hønd hugstyrki mig. Afklæð mig þessa dags syndum, og í-klæð mig purpura þinnar forþénustu. Í þessum svefn-klæðum mun eg sætlega hvílast, þángað til dagurinn kémur, og morgun-stjarnan upprennur í mínu hjarta. Guð heilagi Andi mín aðstoð! innsigla í mér, það eg á þessum degi heyrt hefi. Þú hefur himininn og helvítið fyrir mig lagt, blessanina og bølvanina mér kunna gjørt, lífið og dauðann mér til vals géfið. Lát mig svo velja, að eg það besta og eina útvelja megi. Vert í mér brunnur lifanda vatns, sem framflýtur til eilífs lífs. Sundurdreif í mér þeim meðfæddu myrkrum, fyrir þitt himneska ljós, útsløck þar á móti elsku til heimsins í mínu hjarta. Lát mig þessa tilkomandi nótt í þinni elsku sofa, og í henni gleðilega aptur uppvakna. Uppørfa mína sál með heiløgum hræríngum, að þær jafnan vaki til þín, þó líkaminn sofi. Vísa mér með minni sæng til lík-kistunnar, og með mínum svefni til dauðans, að sá síðasti svefn yfirstígi mig ecki, heldur vakandi og biðjandi finna megi. Hugga þá hrelldu, hvíl þá ó-

rólegu, umvend þeim er endurbót vilja gjøra Heilaga þrenníng, minn Fadir og Gud! miskuna þig yfir mína og alla menn. Lát þennann heilaga Sunnudag yfir allt útbreida elskunnar og nádarinnar geisla. Þín sól gángi eingum undir, sem þig einasta þeckir og elskar. Einginn er gódur, nema þú Gud einn. Lát oss ecki skiljast vid þig, ó þú ósundurskiljanlega vera, þángad til vér til þess eilífa Sabbatz kommumst, og prísvar heilagur syngja munum óaflátanlega, Amen.

## Mánudags Morgun Bæn.

Gud Fadir minn Drottinn! þad er þitt nafn, því þú vilt þína dýrd eingum ødrum géfa. Í þessu allra heilagasta nafni stend eg nú upp, og færi þér fyrst á þessum viku degi frumburdi minna vara. Eg prísa þig, Fadir og Herra himins og jardar! ad þú hefur á umlidinni nótt skýlt mér med þinni nád, yfirskyggt mig med þinni elsku, og umkríngt mig med þínu almætti. Lof sé þér, o þú huldi Gud! ad þú mig svo vel hylur, og nú úr leynum lætur mig aptur í ljósid framkoma. Sed mig einnig nú árla med þinni nád, árla viljir þú heyra mína raust, árla vil eg til þín koma og merkja þad. Eg kém í dag snemma í þeirri nýu viku. Í nafni vors Guds slæ eg upp mínu merki, Eg kalla til þín, ad þú hjálpir mér í því, til hvers þú hefur mig kallad. Þú ert uppspretta alls góds, lát þinn brunn ríkuglega til mín renna. Þú ert minn styrkur, styrk mitt líf og sál, Þú ert mitt ljós, útsend þinn vísdóm hér ofanad frá þínum heilaga himni, sem hjá mér sé og med mér verki, ad eg

þeckí hvad þér velþóknast. Gud Sonur mitt A og O! þú ert sa fyrsti og sídasti, med þér inngeng eg þá nýu viku, gack framfyrir mig med þinni kroptugu fyrirbón, ad eg í þínu sætasta Jesú nafni, marga blessan úr bítum beri. Þessi dagur hefur sitt nafn af túnglinu, túnglid hefur sitt ljós af sólunni. Þú ert þad sanna ljós og ljómi dýrdarinnar. Utdeil mér ad eins einum neysta af ljósi þinnar nádar, þá verd eg túnglinu skjærari. Túnglid mínkar og vex; lát mig einnig mínka í því vonda, en vaxa í því góda. Og skyldi sá dagur í dag koma, á hverjum sólin, túnglid og stjørnurnar munu formyrkvast, þá gjør mig hlut = takandi þíns eilífa ljóss, ad eg ljómi í þínu ríki sem himinsins byrta, sem stjørnur um aldir og ad eilífu. Medal þessa blessa mig svo lengi, eg bý í þessu hreysi. Blessa øll mín fótspor sem eg geng á þínum vegum. Blessa øll ord sem af mínum vørum framgánga. Blessa øll verk sem eg í mínu kalli gjøri. Blessa alla bita sem eg læt í minn munn. Blessa alla menn sem eg umgengst med. Blessa allann kross ad hann þéni mér til hins besta. Gud heilagi Andi minn gjafari! géf mér af þínum Anda og nád. Gjør mig á þessari nýu viku ad nýum manni, og lát mig gánga í nýum lifnadi. Géf mér gáfur, svo eg kunni þær Gudi og mínum náúnga aptur ad géfa. Uppvek í mér lyst og ástundan í verkum minnar kallanar, en niðurkéf þar á móti mitt hold og blód, sem einasta til tregleika hneigt er. Gjør minn skilníng skinugann til þess góda, minn vilja gjarnann á þad góda, og mitt hjarta stadfast í því góda. Gódi Andi! leid mig á réttum vegi. Leid einnig

alla mér kjæra, og vernda oss og alla fróma frá vanblessaninni. Heilaga þrenníng! þú ert rík af miskun, miskuna þig yfir oss. Þú ert sjálfur kjærleikurinn; æ! elska oss því meir og meir, og vísa oss til þín, til einskjærrar gjædsku! gef frid í landinu, blessa sérhvern í sinni stétt. Uppfyll vort hjarta og hús med þinni lofgjørd. Þegar dagar vorra rauna skulu enda taka, þá lát oss upprenna einn dag í þínum forgardi, sem betri er enn þúsund. Hér til segum vér: daglega sé Drottinn lofadur! Amen.

## Mánudags Qvøld Bæn.

Gud Fadir mín hreyski! þackir séu þér, ad þú hefur gjørt mig hraustann til ad bera hita og þúnga dagsins. Lof sé þér, ad þú hefur haft fødurlega tilsjón yfir mér, og mig í minni kallan margfaldlega blessad. Stór eru þín undrunar-verk og þínar velgjørdir, eg vil þau kunngjøra og þar af segja, þó þau séu oteljanleg. Þú hefur mér í dag margt gott gjørt; eg hef þér, því midur! ecki nema margt vondt audsýnt. Mín samvitska sýnir mér fleiri fleckanir, enn túnglid í sínu ljósi. Mánadagurinn yfirbevísar mér stór-myrkur míns hjarta. Minn munnur klagar yfir því, mitt hjarta ángrast af því. Æ Drottinn! snú ecki þínu augliti í móti mér, heldur til mín. Vertu mér syndaranum nádugur. Frelsa mig frá yfirvaldi myrkranna, og lát mig ecki sitja í daudans dimmu; en yfirskygg mig á tilkomandi nóttu med þinni hægri hendi, og lát mitt traust vera undir þínum vængjum. Vertu mér einn eldlegur múr, minn skjøldur mót allri skélfíngu, mín ró í ó-

róseminni, og mitt líf, nær eg líka sem lidinn liggja skal. Guds Sonur mitt hjálpræði! tak alla vanheilsu frá mér, sem mínar syndir hafa í dag undirbúid, Græd minnar samvitsku sár, ad eg þurfi ekki ad væina af órósemi míns hjarta. Ryd þínu blódi á dyrustafi míns húss, svo Mord-Engillinn fram hjá fari. Eg vil mitt hjarta med þínu dýra nafni innsigla. Lát þad mína lausn, og mitt tæikn vera, ad eg þér tilheyri, og Djöfullinn hafi eingann hlut hjá mér. Vertú hjá mér því ad qvøldа tekur, og á daginn lídur. Sjái eg ecki kríngum mína sæng annad enn Egyptsk myrkur, þá lát þó eitt ljóss-gosen, fyrir þinn ljóma, vera í mínu hjarta, því myrkrid er ecki myrkt hjá þér, og nóttin lýsir sem dagur, hvar þú ert. O! þú ljós af ljósi, Himneski Salomon! set þína hina sterku kríngum mína hvílu, og lát mig med andans augum sjá, ad þeir eru fleiri sem eru med mér, enn þeir sem eru móti mér. Þú Engill þess mikla ráds, lát mig ecki Englana vanta, heldur hlíf lífi og sálu med þínum heiløgu voktursum, ad eg undir þinni varatekt ugglaus hvíla megi. Gud heilagi Andi mín huggun! eg þacka þér, ad þú hefur í dag margt vondt í mér hindrad. Þad er þitt, sem eg hefi sæmilega gjørt, enn mitt, þad mig hefur brostid, og mér hefur á ordid. Hafi eg í dag saurgad musteri míns hjarta, þá vík þó þessvegna ecki frá mér; helga og hreinsa þad í Lambsins blódi. Set þad innsigli aptur á mitt hjarta, sem eg hefi med mínum syndum afbrotid. Yfirskygg mig, þú kraptur þú hins hæsta! vitna í mér um Guds barna rétt, sýn mér í svefninum þá himnesku arfleyfd, og tilbú mig, vid daudans tilsýn, til sællrar

lífsins endalíktar. Heilaga þrenníng! af þ:r eru allir hlutir, og vér í þér. O þú óransakanlega djúp audæfanna! miskuna þig yfir ríka og snauda. Haf tilsjón yfir þessum þínum útvøldum. Vardveit mér teingda og kunnuga. Vernda innlenda og framandi. Blessa vini og óvini. Vert allra naudstaddra Gud, allra hryggra huggun, allra sofendra verndari og vaktari. Einginn er gódur, nema þú Gud einn, géf oss því øllum í þér góda nótt, Amen.

## Þridjudags Morgun Bæn.

Gud Fadir minn vardveitari! þessi þridjudagur krefur af mér nýrrar þjónustu. Æ! vertú prísadur fyrir þína nádugа verndan, sem hefur verid umkríng mig á umlidinni nóttu. Í svefninum var eg fyrir utan mig, en þú varst í mér. Sá slæmi óvinur þeinkti ad gjøra mér vondt, en þú, Gud! hefur gjørt þad ad gódu, svo sem þad nú í dag er. O þú allra trúasti mannanna vardveitari! hvad stór er þín gjædska, ad madurinn hefur traust undir skugga þinna vængja. Eg þacka þér, ad þú ert míns andlitis hjálp, og minn Gud. Lát þennann morgun, med nýu ljósi þíns andlitis, ad nýu lýsa yfir mig, ad mitt líf og sál gnægd hafi. Hafi sérhver dagur sína plágu, þá lát einnig sérhvern dag hafa sína blessan. Vert mér í dag líka sem þoka sú er landid vætir. Lát mig ei einasta í sveita míns andlitis, heldur einnig í lofgjørd þinnar gudlegrar gjædsku, míns brauds neyta. Þín hønd sé í verki med mér, ad eg med mínum høndum nockud gott gjøri. Viljir þú hyrta mig, æ! þá gjør þad ecki í

brædi, svo þú mig ecki afmáir. Guds Sonur minn Immanúel! Gud med oss, vert einnig í dag med mér. Gjør mig á þessum degi þinnar nádar og dýrdar kér. Hjá þér alleina er nád og mikil endurlausn. Syndgi eg, æ! þá haldt þó ecki uppá mig mínum syndum. Falli eg, þá lát mig þó ecki liggja, skrifa ecki mína skuld uppá mig, hedur frá mér, útskaf ecki mitt nafn af bók þeirra lifandi. Lát mig á þessum þridjudegi ecki þjóna syndunum, því þær launa mér med einusamann ángri, ecki verøldinni, því hún betalar oss med vorri eigin fordjørfun, ecki Djøflinum, því hans laun eru í dýkinu. Géf ad eg þér þjóni í heilagleika og réttlæti, sem þér vel þócknast, og vert þar med minn skjøldur og mín mjøg stór laun; eg vil fyrir þér gánga og frómur vera. Lát þinn Anda leida mig í allann sannleika í þeim margføldu freistíngum; en í þeim margføldu hørmúngum, géf mér hjarta eptir þínum vilja. Særir þú, svo græd þú einnig, hrellir þú, svo gled þú einnig, skuli eg sá med tárum, þá lát mig uppskéra med fagnadi. Eg vil ad morgni þína nád, og ad qvøldi þinn sannleika kunngjøra. Gud heilagi Andi, minn nádar Andi! lát mig í dag gánga í andanum, og ecki fullkomna holdsins gyrndir. Upplýs mín skilníngs augu, ad eg þeckja megi hver ad sé von minnar kallanar. Géf viljann, innskrifa Jesúm í mitt hjarta. Endurnýa mig í þeim innra manni. Stjórna øllum mínum limum. Géf mér einfeldni hjartans, og munnsins hreinleika. Verka allt í øllum eptir þinni velþóknan. Lát mig jafnan reyna hvad best er, og uppfyll mig med ávøxtum réttlætisins, sem fyrir Jesúm Kristum gjørast til dýrdar og

lofs Gudi. Vardveit þann dýra fésjód, sem eg bet í leyr=kéri. Og skuli í dag koma mín sídasta stund, þá vardveit mig og vidhaldt mér til eilífs lífs. Heilaga Þrenníng! eg géf mig þér til eins offurs, sem lifandi er og heilagt, og Gudi þócknanlegt. Vert med mér og mínum í lucku og ólucku, í heilsu og vanheilsu, og øllu áliggjandi. Lát í dag hverki mig, né nockra sál fortapast. Vidhaldt oss í eining trúarinnar, í bandi fridarins, og í von vorrar arfleifdar. Gjør loksins, fyrir einn sælann dauda, vorn mædusama erfidis dag, ad einum himneskum frelsis= og gledi=dégi, og fær oss af Egyptalandi, um þad rauda haf Jesú blóds, inn í þad eilífa Canaan, þá viljum vér þjóna þér í þínu Mustere dag og nótt, Amen.

## Þridjudags Qvøld Bæn.

Gud Fadir mitt fulltraust! einn dagur er aptur á enda, en þín gjædska ecki, sem eingann enda hefur. Æ! eg vildi ad mínar syndir hefdu svo einnig enda, med hverjum eg hefi þennann dag þýngt minni samvitsku. O eg aumur madur! hverr vill frelsa mig frá líkama þessa dauda? Eg hefi, því midur! á þessum þridjudegi, mína limu mjøg naumlega géfid réttlætinu til þjónustu, ad þeir heilagir yrdi. Eg átti þér einasta ad þjóna, því enginn kann ad þjóna tveimur Herrum; en eg hefi framar þjónad sképnunni enn Skaparanum. Eg er ordin syndarinnar þræll, og hefi látid hana drottna í mínum daudlegum líkama, til ad hlýda henni í hennar gyrndum. Hvern ávøxt hefi eg þann tíma, sem eg skamm=

ást mín nú fyrir? Hvíad endir hvílíkra hluta er dauðinn. Æ Fadir! straffa mig ecki svo sem eg hefi forþénad, lát á þessum þjónustu-degi, forþénustu þíns eingétins Sonar, gylda fyrir allar mínar syndir. Þegar dimmir, þá set ecki mínar syndir í ljós fyrir þínu augliti, heldur lát þær í Jesú sárum niðurgrafnar verda. Guds Sonur minn Drottinn og minn Gud! þú hefir verid medal vor sem einn þjón, og hefur þjóns mynd uppá þig tekid, ad þú frelsadir oss frá syndarinnar þrældómi, og færir oss til þess himneska frelsis Guds barna. Frelsa mig einnig frá þjónustu ránglætisins, ad eg hédan af ecki framar þjóni syndinni. Send til mín þína þjónustusömu Anda, sem standa kríngum þinn stól. Apturhaldt, ó þú Leonid af ætt Júda! því grenjandi Leoni, sem leitast vid mig ad uppsvelgja. Hafir þú í dag med þínum augum vegvísad mér, þá lyk nú einnig sjálfur til, mín mædu augu. Vardveit mig og þad mitt er, því þad er þitt. Frásnú vatns og elds naud, því þú ert naudhjálpari. Vernda oss frá ógnan og skélfíngu. Þín hønd kann øllu um ad breyta. Þú hefur mér í dag margt gott audsýnt, æ! bæt því einnig vid, ad eg megi bera til hvíldarinnar eitt forlíkad hjarta vid þig. Skuli, sem ské má, sængin verda mín grøf, þá lát mig þeinkja um þína grøf, og mína sál hvíla í þínum sárum. Gud heilagi Andi! mitt ljós, lát mér ecki þitt nádar ljós med sólunni undirgánga. Sofi augun, þá lát þó mína samvitsku vaka. Lát mér betur íka ad væta mína sæng med tárum, enn saurga med syndum. Vardveit mig frá hneixlanlegum og hrædilegum draumum. Gjør mitt hjarta ad þínum helgidómi,

og helga þad í minni hvílu, fyrir þína sætu stjórnan. Frelsa mitt hugskot frá þúnga allrar jardneskrar umsorgunar, og lát mig enga, nema mannlega freistni henda. Hvenær sem eg enda einn erfidis dag, þá gef mér ad umþenkja, ad þetta líf er ecki annad enn erfidis hús, og ad eg þar med gledji mig ad afleggja hégómans þjónustu, og mig jafnan tilreidi þér þadann í frá ad þjóna, í eilífu ljósi. Vidhaldt mér í þinni trúrri þjónustu, allt til míns dauda, uppá þad, ad þar sem minn Jesú er, þar megi eg einninn hans þénari vera. Heilaga Þrenníng! opinbera oss á þessari nóttu þína dýrd, fyrir mér og øllum mønnum, sem treysta á þinn mátt, leita þinnar nádur, og þurfa þinnar varateKtar. Minnst á þín fyrirheit; eg vil þig ecki yfirgéfa né frá þér víkja. Vertú, stóri Gud! hjá þínum litla hóp, þú ríki Gud! hjá þeim fátæku, þú, sterki Gud! hjá þeim veiku, þú Fadir huggunarinnar! hjá þeim harmþrúngnu, þú grædari Israels! hjá þeim sjúku, og þú eilífa líf! hjá þeim deyandi. Hjálpa oss øllum loksins þángad, hvar engin nótt er framar, heldur einskjært ljós, æ og ad eilífu, Amen.

## Midvikudags Morgun Bæn.

Gud Fadir minn miskunari! mitt hjarta er reidubúid, Gud! mitt hjarta er reidubúid, ad eg sýngi og lof segi. Þín miskunsemi er þad, ad þad er ecki aldeilis útgjørt um mig. Sá upprennandi dagur lýsir ecki svo mjog fyrir mínum augum, sem þín gjædska og trúfesti, sú ed hvern morgun ný er yfir mér. O! hversu kann eg nóglega ad prísa þig, ad þú gjørir svo

vel víd mig? Midt í vikunni, midt í lífinu er eg daudanum umvafinn, eg lá líka sem væri eg grafinn. Hvad hægt var svefninum ad afhenda mig sínum bródur daudanum? En í þínum krapti stend eg heill upp af minni sæng. Þú hefur med þinni tilsjón vardveitt minn andardrátt, og vil því prísa þig, svo leingi sem andardráttur er í mér. Þú hefur vardveitt mig sem þinn augastein, mín augu skulu þar fyrir horfa upp til Drottins. Þú hefur endurnært mitt hjarta, eg varpa því þar fyrir, sem einu offri, í þitt skaut. Allt mitt líf sé þér géfid, því þú hefur haldid mér vid lífid. Minnstú einnig á mig í dag til hins besta. Vardveit lífid frá sjúkdómum, og sálina frá svikum. Lát allt hvad eg gjøri og læt ógjort, vera þér á hendur falid. Guds Sonur minn medalgángari! lát mér alla daga midja voku vera. Gack milli mín og minna, svo sem þinna Lærisveina, med fridarins kossi. Midla øllu í dag mér til sáluhjálpar. Blessa í minum gjørdum, upphafid, midid og endann. Vert hjá mér midt í erfidinu, og gjør mér léttann þúnga minnar kallanar. Vert hjá mér midt í krossinum, og lát mig ecki freistast yfir megn fram. Nær eg er midt í ángistinni, þá hugsvala mér. Syndgi eg, þá gack midt á milli mín og þins reida Fodurs, med reykelsi þinnar høfud-kénnimannlegu fyrirbónar, þar med mun plágan stillast. Lát mig á mid-vikunni þess minnast, hversu þú hefur kallad mig í þinn víngard, ad eg ecki ydjulaus standi á mørk þessarar veraldar, heldur sem trúr erfidis-madur þar inni fundinn verdi. Skuli eg vera í dag sem rós medal þyrna, sem saudur medal úlfa, æ! þá tak ei frá mér þína huggun, því fyrir þig kann eg allt ad yfirvinna.

Gud heilagi Andi, minn leidtogi! leid mig á þessum degi eptir ordi míns Guds, ad eg sé saklaust Guds barn, hreint og óstraffanlegt, medal þeirrar órádvondu kynslódar. Gjör minn gáng vissann á þínum fótstigum. Tem mína túngu, still mín augu, byrg mín eyru, bind mína fætur, athuga mitt hjarta, nær vondir þánkar, ord og verk vilja þadan frambrjótast. Vardveit mig frá mínum eiginn vilja, og géf mér hjarta eptir þínum vilja. Uppræt veraldina úr mínu brjósti, og innplanta þar aptur í stadinn Guds ríki. Lát mig allt minnar kallanar háttalag án efasemdar í trúnni uppbyrja, án hindrunar í kærleika því halda, og án vanblessunar í voninni þad fullkomna. Gjör mig hreinferdugann, í því eg er óhreinferdugur, upplýstann, í því eg er fávís, og huggadann, í því eg er hrelldur. Án þín gét eg eckert, fyrir þig vil eg allt gjøra. Heilaga þrenníng! vert á þessari mid-viku medal vor, hjá oss og í oss. Þegar øll fjøll søckva í sjóinn, og verøldin forgengur, þá lát oss ásamt reyna, ad þú ert midt á medal Israels, og þú ert Drottinn vor Gud. Líka sem þú, ó, sterki Gud! leiddir þitt fólk midt í gegnum hafid rauda, svo leid oss, midt í ángurseminni, eins og þá frómu menn, midt í eldsins ofni. Prýf oss loksins midt úr neydinni og daudanum inn í eilíft líf, þá viljum vér þér lof sýngja midt í fagnudinum, sem hjá þér er í himninum. Amen.

## Midvikudags Qvøld Bæn.

Gud Fadir minn Frelsari! eg vil á ný færa þér fagnadar offur, og þacka þínu nafni, því þad

er svo huggunarsamlegt. Þú frelsar mig frá allri minni nauð. Því meir mínir dagar viðbætast, þess framar reyni eg þína trúfesti, þess framar nýt eg þinnar elsku, þess framar smacka eg þinn vingjarnlegleika, og þess nær kémst eg þeim degi, sem gjörir enda á øllum mínum døgum. Æ! að eg hefði svo brúkað þennann dag og hvern dag, að þinn kjærleiki hefði ecki mórgast, þitt réttlæti ecki áreitst, mín samvitska ecki þíngst, og mitt straff ecki aukist. Æ! að eg þecki myrkur míns hjarta á þessu dimma qvøldi. Mið-vikan sýnir mér miðnætti minna synda. Hvert skal eg fara fyrir þínu augliti? mundi ecki þín bølvan hitta mig, þar sem mitt skriðljós er slocknað midt í myrkrinu? æ minn Guð! hyrt mig ecki eptir þínu réttlæti, gjør þinn rétrtlæis-stól að einum náðar stól. Lát mínar syndir vera lángt frá mér, en þú vert mér ecki fjærlægur. Uppgéf mína skuld og gleym henni, en þeink á þína trygð, og vert á komandi nóttu minn Guð sem miskunar mér. Guðs Sonur minn fyrirbiðjari! afmá þá handskrift sem móti mér er. Nem midt í burt það eg á þessari mið-viku syndgað hefi. Þú lífsins tré midt í Guðs Paradís, lát mig hvíla undir þínum skugga. Eg leita hans um nóttina, sem mín sála elskar. Hvíl hjá mér, þá sef eg sæll. Ef mínir óvinir hvílast ecki, þá mótstand þeim með þínum armlegg. Liggi eg midt milli ljóna, þá lát mig einnig liggja midt milli Englanna, sem þeirra kverkum sáman-haldi. Sé eg líka sem sá maður er sefur midt í hafinu, þá géf þó kyrrð í hjartanu, að mín sál þurfi ecki að vera óróøm. Hyl mig heimuglega í þínu tjaldi, sem það frelsis orð hefur:

elſkan er hans merki yfir mér. Gnd hellagi Andi! ſem mig tilreidir, lát mig þetta qvøld med brenn-heitri bæn-rækni halda. Hafi eg í dag verid kaldur og dofinn í mínum kriſtindómi, þá upptendra þína brennheitu elſku í mér; og lát neyſta minnar trúar ecki kulna í øſkunni. Hafi eg gengid eptir holdinu, þá endurnýa mig í andanum. Leggi eg af mín klædi, þá íklæd mig Jeſú Kriſtó. Aptur láti eg mín augu, þá vaki þó mín ſamvitſka. Andvarpi eg í nótt, þá kalla þú ſjálfur, Abba! fyrir mig. Tali eg í mínu hjarta í minni ſæng, þá lát efni míns máls eckért annad vera enn Jeſúm. Falli nockur ótti yfir mig, þá ſýn þú mér, ad eg hafi medtekid ecki þrældóms heldur ſonarlegann anda, og þurfi því ecki ad hrædaſt. Heilaga þrenníng! uppá þína nád leggſt eg nidur, med þinni miſkunſemi ſkýli eg mér, med þínu almætti hyl eg mig. Læs mínu húſi, innſigla mitt hjarta med þinni varatekt. Vert hjá oſs til hægri og vinſtri handar. Vert minna vina vinur. Endurnær alla ſem erfidi og þúnga eru hladnir. Géf oſs, eptir róſama nótt, einn gledilegann morgun, allt þar til loksins eingin mid-vika meir verdur, og vér allir þángad ſamanſøfnumſt, hvar Lambid midt á ſtólnum mun fæda oſs. Þér ſé dýrd í tíma og eilífd. Amen.

## Fimtudags Morgun Bæn.

Gud Fadir minn forſorgari! Mín fyrſta umſorgun ſkal vera á þeſsum morgni, um lof þinnar óútſeganlegu gjædſku. Fimmti-dagurinn er nú lifnadur, og eg lifi einnig; þar fyrir færi eg

þér fórn minna vara, og géld þér heit míns hjarta. Eg segi með Jacob þá hann vaknaði: sannlega er Drottinn í þessum stað. Kríngum mitt hvílu-rúm finn eg fótspor þinnar elsku, þau hafa stillt mína voku, þau hafa verkað mína hvíld, þau hafa mig aptur hægt uppvakið. Æ! hver er eg, Drottinn! að þú svo hjartanlega minnist mín? þú hefur ecki látið mína sæng verða að lík-kistu, og ecki mitt hús að morðíngja bæli. Undir þinni verndan hló eg að stormi þeirra guðlausu. Þín vakt stóð í móti makt myrkranna. Nú hafa mínir kraptar tekið sig aptur, mínir limir hressir orðið og eg stend heill fyrir þínum augum. Æ Faðir! tak að þér í dag þitt barn, lát þína miskun hér framm-brjótast svo sem morgun-roðann, og þína náð svo sem þoku þá er landið vætir. Géf að öll mín spor liggi til blessunar, sem eg geng á þínum vegum. Varðveit mig vel, því eg bíð þín. Leys mig af allri minni ánauð. Guðs Sonur minn Kongúngur! lát mig á þessum morgni kissa ríkis-spíru þinnar náðar. Þegar þín ásjóna er blíð, þá er það mitt líf, lát hana einnig á þessum funtudegi lýsa, svo að mín sál nægð hafi. Vert vingjarnlegur við mig, og framqvæm það verkið minna handa. Verði eg í dag villtur og tíndur sauður, æ! þá leita að þræli þínum. Snú mér, Drottinn! þá verður mér snúið, hjálpa þú mér, Drottinn! þá verð eg hólpinn. Varðveit mig fyrir hjartans andvara-leysi, og fyrir guðleysi framferðisins. Sýn mér þín fótspor, að eg hverki mér, heiminum né Djöfl-inum eptirfylgi. Drag mig eptir þér, svo hleyp eg, og ef þú leggur mannlegt ok uppá mig, þá lát mig

þó allann daginn gánga í kjærleikans böndum. Séf að þessi, og hver dagur sem eg lifi, sé mér einn þrumu-dagur, að eg minnist á þrumu þess síðasta dóms, hræðist fyrir þínum mótsettu Lögmáls þrumum, og svo daglega í sannri endurbót fundinn verði. Með því eg veit ekki nær mín síðasta stund kémur, þá lát mig á öllum stundum tilbúinn vera, þér mínum Konúngi móti að gánga. Guð heilagi Andi minn styrkur! vert einnig í dag mér veikum máttugur. Lát mig svo þennann dag lifa, að eg að qvöldi þurfi ekki að ángrast af mínum lifnaði. Qveik ljós í mínum skilníngi, og bygg þér helgidóm í mínum vilja. Lát mig gánga í ráði þeirra frómu. Mín sál komi ekki í ráð guðlausra. Minn fótur stígi ekki á veg syndaranna. Legg taum og beisli við mínar syndsamlegu tilhneigíngar, að þær haldist í hlýðni ríkisins Kristi. Gjör mína samvitsku rósamlega, að réttlætið og friðurinn kyssist í minni sálu. Umbreyt allri krossins beyskju í læknisdóm, og lát ljós huggunarinnar framkoma midt í hörmúnganna myrkri. Séf mér ánægt hjarta með mína áskamtaða hlutdeild. Lát mig ekki ágjarnann vera, eptir því gótzi sem oss er hégómi, heldur planta í mér laungun eptir þeim sönnu fjársjóðum, sem géfa staðfasta ánægju, og eg kann í dauðanum með mér að taka. Heilaga þrenníng! eg helga þér í dag mitt líf og mína sál, lát mitt líf og hræríngar vera jafnan þinni dýrð til lofs. Snú þér til bæna þeirra yfirgéfnu. Miskuna þig yfir þína erfð, Blessa þitt fólk. Slepp mínum hverki frá þínum augum, né þínu hjarta. Leið oss eptir þinu ráði, og meðtak oss um síðir til æru. Dýrð sé Gudi

í hæðum, friður á jörðu, og mönnunum velþóknan, Amen.

# Fimtudags Qvöld Bæn.

Guð Faðir, minn hæsti góði! Hversu gott hefur þú á ný gjört mér á umliðnum degi? þín gjæðska er betri enn lífið. Nær eg saman ber minn óverðugleika við þína stóru miskunsemi, þá má eg segja með Jacob: jeg er þess ecki verðugur sem þú hefur gjört við mig. Með hvað föðurlegri forsorgun hefur þú séð fyrir mér? með hvað trúrri vaktan hefur þú mörg þúsund háskasemdum frá mér snúið? með hvaða lánglundargéði, hefur þú mig í mínum syndum umliðið? með hvaða þolinmæði og elsku hefur þú leidt mig til yfirbótar? æ! géf mér þó eina rétta tilsinníng, að eg þecki stærð þess sem eg er þér skuldugur; en hversu skélfist eg, nær eg mót öllum þessum gjæðum, finn í mínu holdi eckért gott. Þú hefur að sönnu þakið mig með velgjörníngum, eg hefi þína náð og gáfur misbrúkað. Þetta elskunnar band hef eg sundurslitið. Mínar syndir eru nú fyrir mér, þín reiði yfir mér, og helvítis ángist í mér. O Faðir miskunsemdanna! hvað syndugur eg er, þá leita eg þó hælis hjá þér. Hjá þér er fyrirgéfníngin svo að menn óttist þig. Æ Drottinn! fyrirgéf mér vegna þinnar elsku, sem þú hefur sterka á mér. Guð Sonur, mitt einasta athvarf! til þín flý eg, rek mig ecki frá þér. Eg heyri að sönnu þitt Lögmál þruma, en eg heyri einnig þitt sæta Evangelíum frið og réttlæti kunngjöra. Hafi eg, sem víst er, stórar or-

sakir ad vera hryggur vegna minna synda, þá hef eg þó margar stærri orsakir ad fagna yfir þinni elsku, sem ecki vill láta mig tortínast. Umbreit fyrir þessa elsku, reidi þess himneska Födurs, í einskæra nád, myrkrum þeirrar tilkomandi nætur, í klárt ljós, og mínum dauda, skuli hann nú uppá koma, í eimingis líf. Hafir þú nú ecki, ó sálnanna vinur! hvar þú kunnir þínu høfdi ad adhalla, þá legg þad á mítt hjarta, svo hvílist eg í þér, og þú í mér. Eg vil þér halda og ecki sleppa, til þess eg leidi þig í mitt herbergi. Æ! sértu þar inni hjá mér, þá lídur mér vel. Gud heilagi Andi, minn pantur og innsigli! innsigla mig med teikni Guds barna réttar. Minn mig á minn skírnar sáttmála, hvar med eg er innbundinn í bindini lifendra. Bygg þér í svefnínum musteri í mínu hjarta, og fyll þad med sætum draumum. Yfirgéf mig ecki, þegar allir menn yfirgéfa mig, nær eg veit ecki af mér sjálfur, þá þenk þú til mín. Fría minn anda frá þúnga allrar jardneskrar umhyggju, sem opt gjørir oss nóttina ad degi. Burtrek úr mínu sinni allar óhreinar gyrndir, frá mínum eyrum allann vondann glaum, og frá mínum augum allar helvítis skélfíngar myndir. Vek mig aptur á einni luckusælli stund. En sé mín sídasta stund fyrir dyrum, þá lát mitt sídasta augnablik horfa á Jesú sár, alleina sáluhjálplega; jafnvel mínum breiskleik óforvarandis. Uppá Kristum, og í Kristó er best ad sofna. Heilaga þrenníng! Lát einnig mína, hafa þetta innsigli: Drottinn þeckir sína. Gjør ad eingu ráđ þeirra gudlausu. Helga hvíld allra þeirra frómu. Vardveit bústadina Jacobs. Utsend oss þá sömu, sem

standa kríngum þinn stól, þá viljum vér á morg-un, fyrir þeim stól oss begja, og segja: Gud Ís-raels er med oss, Gud Jacobs vardveitir oss. Í þínu nafni segjum vér hér til, Amen.

## Föstudags Morgun Bæn.

Gud Fadir minn faugnudur! eg stend aptur upp þér til lofs. Vak upp min dýrd. Hjartad minn saltari, og varirnar mín harpa, hljóma med þinni hrósan. Þessi föstudagur er minn fríunar dagur. Mín augu eru frí frá myrkrinu; min eyru frá óttaseminni; mínar fætur frá snöru veidimannsins, og mitt hjarta frá allri næturinnar ógnan. O dýrdleg fríun! augad sjer þad, munnurinn hrósar því, sálin þeckir þad. Haldt áfram, ó allra góð-gjarnasti Fadir! ad styrkja mig í þvílíku frelsi. Lát mig vera fríann frá öllu sem mér er skadlegt og þér óþóknanlegt. Greid minn fót úr því neti, sem heimurinn og Djöfullinn hafa lagt fyrir mig. Sundur-slít öll hégómans bönd, sem festa mig vid jordina, en losa vid himininn. Lát ecki mína gyrnd hvíl-ast í þeim hlutum, sem einga hvíld í sér hafa. Inngéf mér þína nád, og géf mér ecki minni rík-dóm enn sjálfann þig. Gjör mig í mínu kalli á-stundunarsamann og ánægdann. Þín elska og bless-an, gjöri mér þad súra sætt. Fyrir krossinn vil eg ecki á þessum föstudegi frí vera, en eg verd, því midur! ecki frí fyrir syndinni. Lát mig þó finna þína huggun og nád, nær eg leita þeirra. Lát mig í krossinum ecki uppgéfinn, í syndunum ecki forherdtann verda, heldur i honum linun, og á

þeim fyrirgéfning ødlast. Vert minn Gud sem hjálpar mér, og mín hjálp sem mig í eingri neyd yfirgéfur. Gud Sonur mitt frelsi! føstudagurinn var þinn dauda-dagur. Med þínum dauda hefur þú fríad mig frá eilífum dauda. Hafir þú, Sonur Guds! frelsad mig, þá er eg rétt frelsadur. Géf þessi dagur, hverki í dag né endrarnær, hverfi úr mínum þánka. Í dag er eg med Ísrael genginn út af þrældóms húsinu; í dag hefur þú leidt mína sál út af fángélsinu, fyrir þad þacka eg þínu nafni. Æ! lát mig ecki brúka þad dýrdlega frelsi sem þú med þínum bondum hefur afrekad, vondskunni til skilu, svo þín nád í mér sé ecki forgéfins. Géf framar, ad eg bíti einni þjónustu fyrir adra, þjónustu syndarinnar, fyrir þjónustu réttlætisins. Þú hefur dýrt keipt mig, lát mig í dag, og framvegis, vera þína eign, svo eg láti mig ecki aptur á ný fánginn verda undir þrældóms okid. Planta í dag þinn kross í mínu hjarta. Þryck þínum þyrnum í mitt hold, svo þad verdi ecki lausslátt. Fest mig vid þig med elskunnar noglum. Sýn mér þitt alblóduga hjarta í gégnum þitt opnada brjóst, sem minn einasta frelsis stad fyrir sálina, nær hún er í ángist. Ryd balsami af þínum heilogu undum á mína ángráda samvitsku. Lát mig kyssa í dag, þitt í daudanum nidurhneigda hofud, ef eg skal eptir þínum vilja daudanum mæta. Þad sé mín lausn á þessum degi: Jesús mín elska er krossfest. Gud heilagi Andi minn vinur! vardveit mig í dag fyrir ollum syndum, sem eru fjandskapur í gégn Gudi. Lát mig Guds vin og heimsins óvin vera, og svo smacka og skoda hvad ljúfur Drottinn er. O hvad

stórt frelsi fæ eg á þessum degi, svo framt minn skilníngur og vilji er þér fullkomlega undirgéfinn. Því hvar Andi Drottins er, þar er frelsi. Géf, ad eg géfi holdinu eckért rúm, ecki heldur láti heimsins hégóma meiníngar mig til fánga taka. Prís mig meir og meir lausann frá því jardneska, og sýn mér í øllum hornmíngum, ad skëpnan mun undir eins frí verda, frá þrælkan hégómans, til dýrdarsamlegs frelsis Guds barna. Vér erum børn frelsisins, og væntum til Jerúsalem sem þar uppi er, þad er sú frjálsa, hvør ad er allra vor módir. Þá verdum vér fullkomlega fríir, vorar sálir frá daudanum, vor augu frá tárunum, vorir fætur frá hrøsuninni. Eya værum vér þar! Heilaga þrenníng! vert ecki í dag lángt frá sérhvørjum einum af oss, í þér lifum, hrærumst og erum vér. Israel vonar á þig, lát ecki vora von verda til skammar, því þú ert vor Gud. Upplipt yfir oss ljósi þíns andlitis. Auk þitt ríki í oss. Vért hjá oss med þínum sannleika. Lát oss trúa ørugglega, lifa heilaglega, lída þolinmódlega, og deya sáluhjálplega. Vér sleppum þér ecki fyrr enn þu blessar oss. Amen.

## Føstudags Qvøld Bæn.

Gud Fadir, minn, gjafari allra gódra hluta! hvad géf eg þér aptur fyrir allar þínar gáfur, sem eg á umlidnum degi af þér meddtekid hefi. Eg er reidinnar barn, og þó hefur þú svo ríkuglega audsýnt mér þína nád; þó eg hafi eckért forþénad, samt hefur þú gésid mér allt þad eg hafdi þorf fyrir. Allar velgjørdir sem þú hefur mér veitt, eru á-

vextir þinnar miskunandi elsku. Allur kross sem þú hefur mér uppálagt, er verkan þíns føðurlega sinnislags. Og á þessu augnabliki má eg segja: allt híngað til hefur Drottinn hjálpað mér.' Æ! því hef eg ecki engla túngu, til að hrósa með verðuglega þinni trygð og miskun? hversu láta mínar syndir mig skammast mín, fyrir þínu augliti, svo eg má óttast, að mitt þack-offur verði þér ecki þócknanlegt. Satt er það, að syndarinn kann ecki að standast fyrir þér, en það er einnig víst, að þú rekur ecki frá þér syndarann í hans yfirbót. Eg vil grípa til þíns heilaga fyrirheitis, að hvør sem á Jesúm Kristum trúir, skal ecki fortapast. Réttlæt mig í þessari trú. Afleys mig í þessu réttlæti. Vert mér fyrir Kristí sakir náðugur og miskunsamur. Myrkrin hylja nú jarðríkið, en þú hyl mig með þinni allra trúføstustu elsku. Send mér þína-nætur-voku, allt til gledilegrar morgun-voku. Guð Sonur minn allt í øllum! Hver maður þenkir nú til sinnar hvíldar; æ! mínir þánkar hafa ecki í dag alltíð verið þínir þánkar, og mínir vegir ecki ætíð þínir vegir; en eg veit að þú hefur ecki til mín reiði-heldur friðar þánka. O! þeink til mín í þinni miskunsemi, svo sem þú þenktir til þess auma ræníngja á krossinum. Kasta mínum syndum í hafsins djúp, svo þeirra aldrei framar minnst verði. Þenk, ó Drottinn! á þann ørduga tíma, á hverjum vort líf viðheldst. Hugga, Drottinn Jesú! sálirnar, hverjar þú hefur endurleyst. Hugga mig á þessari nóttu, með endurminníng þinna unda. Með því þú fyrir þær hefur frelsað mig frá yfirvaldi myrkranna, þá lát mig einninn fyrir Djøf-

ulsins ógnan og klóm, óhultann hvílast. Þitt síðasta orð sé einnig mitt: Faðir! í þínar hendur fel eg minn anda. Skuli eg á þessari nótt, hneigja niður mitt höfuð, þá lát það leggjast á þitt blóðrunna brjóst. Skuli mitt hjarta í sundurbresta, æ! þá lát það bresta í þinni opnu síðu. Það sé minn vegur inn í Paradís. Eg kyssi þín höfuð-kennimannlegu sár, og segi: þér lifi eg, þér dey eg, hvert eg lifi eður dey, er eg þinn. Guð heilagi Andi, minn túlkur! Enda mínar bænir með þínu kalli, Abba! Afreif þær með blóði þess saklausa Lambsins. Innsigla þær með því síðasta kalli míns deyanda Jesú. Þegar eg nú mitt ljós slökvi, þá sé þitt ljós í mínu hjarta. Þegar eg mín klæði aflegg, þá íklæð mig krapti af hæðum, að eg géti øllum Djøfulsins vélafullum áráum mótstaðið. Þegar eg legg mína þreytta limi niður í hvíluna, þá gjør mína sál vissa um, að eg hvílist í míns Jesú undum. Lát einnig mína sæng kunngjøra mér um mína gröf, að eg ekki í andvaraleysi sofi, svo sem lærisveinarnir á olíu fjallinu, heldur hvert augnablik vænti minnar endalyktar. Set kross míns Lausnara, sem eitt figur-merki fyrir mína sæng. Það skal mín hvíld, það skal mín dýrð vera. Umvend øllum óvinum krossins Krists, að þeir samansafnist undir þetta merki, og megi svo komast hjá fordæmingunni. Innsigla einnig með þessu náðar merki alla mína hvíld, og lát engann fyrirfarast, sem þú með því teiknað hefur. Heilaga þrenníng! þín náð sé vort ljós í myrkrunum. Þinn kraptur sé vor styrkur í veikleikanum. Þín vernd sé vor skjøldur í háskanum. Þá nær einginn plága til vorra heim-

kynna. Vert med oss, ó Fadir! í þínum Syni med heilögum Anda. Lát þetta vera skrifad á vor hús og hjörtu: hér er Drottinn. Er Gud med oss, hver vill þá vera á móti oss? Amen.

## Laugardags Morgun Bæn.

Gud Fadir mín hjálp! allt híngad til hefur þú enn þá hjálpad. Þú hefur gjort vid mig stóra hluti, þar af er eg gladvær. Stór var sá háski, í hverjum eg var staddur á umlidinni nóttu. Stór var máttur og vjelrædi óvinanna, sem sátu um mína sálu; en lángtum stærri er þinn kraptur, sem mig á móti allri makt vardveitt hefur. Þarfyrir vil eg ad morgni þína gjædsku, og ad qvöldi þinn sannleika kunngjöra. En hvörnig skal eg þér endúrgjalda fyrir þína velgjörnínga? eg sem eckért hefi, þad sem ecki er þitt. Eg vil þér allt aptur géfa, þad þér tilheyrir. Eg helga þér mitt líf til eins lifandi offurs, og mína sál til ævarandi eignar. Mitt hjarta skal þig elska, minn munnur þig lofa, öll mín lidamót skulu þér þjóna, og allir mínir hugskots kraptar þér hlýda. Eg bid einnig fyrir þessum degi, ad þú viljir hann helga med þinni blessan. Lát mig gánga svo sem byrjar í minni kallan, þar inni eg er kalladur. Stjórna öllum míns lífs tilfellum eptir þínum vísdómi, eg vil í öllu fyrir þér kyrru halda, þú kannt mér meira ad géfa, enn eg umbid; þú kannt mér betra ad géfa enn eg gyrnist; en eg bid ecki um meira enn þetta: Drottinn! verdi þinn vilji, þú munt ecki vilja, þú kannt ecki ad vilja, og þú vilt ecki mér vondt. Þinn vilji er hid besta. Gud Sonur, minn

høfud-kennimadur! eg færi þér á þessum morgni eitt lamb til fórnar. Hvad kynni eg þér þóknanlegra ad færa, enn sjálfann þig? eg rís nú upp í þínum heilögu undum, í hvorjum eg í gjær til sængur geck. Lát þær vera þann brunn, frá hvorjum í dag, öll heilsa til mín flýtur. Lát þær vera þá glugga, í gégnum hvorja þinn himneski Fadir í dag snýr til mín sínu nádar tilliti. Lát þær vera þær bjargskorur, í hvorjum eg mig í dag, sem ein ásókt dúfa, hylja kunni. Lát þær vera þær varir, hvorjar í dag fridþægi fyrir mig hjá Gudi, skyldi eg falla í synd og straff. Stjórna mér í dag eptir þínu hjarta, ad eg ecki fari villur vega. Hjá þér er ráð og gjørníngur, þú kannt ad géfa mér, þad sem mitt hjarta óskar. Utbú mig med krapti af hædum, og gjør mína vegu vammalausa. Eg vona þad, því þú ert svo nádugur. mitt hjarta gledur sig, ad þú hjálpar svo gjarnan. Breid þína gjædsku yfir þá sem þeckja þig, og þitt réttlæti yfir þá frómu. Lát mig svo brúka þann sídasta dag þessarar viku, ad ef hann skyldi vera sídasti dagur míns lífs, þá mætti eg hann í þér hægt og sálubjálplega enda. Gud heilagi Andi, mín leidar-stjarna! leid mig í dag á réttum vegi. Lát mig æfa mig í ad halda einni gódri samvitsku, svo ad hún mig ecki bíti fyrir alls míns lifnadar sakir. Vardveit mig fyrir vélrædunum. Vidhaldt mér í freistíngunni, og styrk mig móti ofsóknunum. Vert minn rádgjafi, þegar eg er efasamur. Vert minn leídtogi, þegar eg er á veginum. Styrk mig í eymdum þessa mædusama lífs, med voninni eins betra og ævarandi lífs. Haf yfirrád yfir öllum mínum tilhneigíngum. Haf vald yfir öllum mínum ordum. Stjórna mínum verkum, og

gjør allar mínar athafnir ad gódum ilm fyrir Gudi. Frida mitt hjarta med þínum heiløgu ſkickunum, ad þad láti alla óſkickanlega umſoraun hjá fara, og leggi eingann vidbætir til þinnar gudlegrar forſjónar. Lát mig fyrſt leita Guds ríkis, og ſvo viſsann um vera, ad mér alltannad til-leggiſt. Og ásamt øllum þínum gáfum, géf mér þig ſjálfann, því eg, fyrir mitt leiti, óſka mér þér allur og aldeilis géſinn ad vera. Heilaga Þreuníng! fullkomna þad góda verk í mér med enda þeſsarar viku. Gjør þad ad gódu á þeſsum degi, ſem eg á hinum ødrum hefi vondt gjørt; vardveit þína Kriſtni, og vidhaldt henni, allt til veraldarinnar enda. Géf oſs trúarinnar ſtødugleika, og þolinmædi í kroſsi og mótgángi. Géf vorum landa-merkjum frid, vorum húſum bleſsan, og vorum tilheyrandi líf og fulla nægd. Frelſa oſs ſvo lengi ſem vér lifum, Amen.

## Laugardags Qvøld Bæn.

Gud Fadir! mitt upphaf og endir í øllum hlutum. Svo ſem eg hefi þeſsa viku fyrir þína nád uppbyrjad, ſvo hef eg hana einnig endad fyrir þá ſemu. Æ! um hvada þacklæti, um hvílíka elſku er eg mínum Gudi ſkyldugur, fyrir ſvo marga óteljandi velgjørnínga, ſem eg milli hennar upphafs og enda notid hefi. Þú hefur mér ſvo margt elſkulegt audſýnt, ſem þig þó módgad hefi, þú hefur verid mér nálægur, ſem þó mínum augum hefi opt frá þér ſnúid. Þú hefur gott, en eg vondt adhafſt. Æ! eg kann ecki nógſamlega ad yfirvega ſtærd þinnar elſku, en því midur! eg kann ecki heldur ad ſjá út yfir fjølda minna

misgjørda. Samt, ó myſkunſami Fadir! hef eg mitt athvarf til þinna dýru fyrirheita. Hvar mínar ſyndir yfirgnæfa, þar yfirgnæfir þín nád miklu framar. Æ Drottinn! þú ſem ecki forſmáir verk þinna handa, hvad er þad annad, hvørs þú væntir af mér aumum ſyndara, enn eitt ſundurknoſad hjarta, ſem af øllum mætti ſnír til þín, og frá þínu réttlæti flýr til þinnar myſkunar. Lát nú þó þína nád, vera ſem eitt qvøld-regn. Svo lángt ſem auſtrid er frá veſtrinu, ſvo lángt lát einnig á þeſſu qvøldi mínar ſyndir vera frá mér. Géf ad eg ſvo brúki endir þeſsarar viku, ad eg fái ecki einn enda med ſkélfíngu, ſvo ſem þeir gudlauſu, hvørra endalok er fyrirdæmíngin. Heldur lát mig af nádinni úr býtum bera endalok trúarinnar, ſem er ſálarinnar velferd. Gud Sonur mitt réttlæti! þú ert løgmálſins fullnægja, hvør á þig trúir verdur réttlátur. Eg loka mig med þeſsarar viku endalokum í þínum undum. Set mig þínum himneſka Fødur fyrir ſjónir fyrir þitt blód. Klæd mig med þínu réttlæti. Afmá mínar ſyndir fyrir þinn eilífa kjærleika. Eg fel í þínar hendur bædi líf og ſál, þú hefur hvørt-tveggja endurleyſt, þú trúfaſti Gud! Teikna mig í þínum gégnumborudu hendum. Lát þitt høfud yfir mér vera fullt af þoku, og þína hár-locka af nátt-dropum. Géf einnig, ad eg alltíd medal þeirra forſjálu jómfrúuna fundinn verdi, og ef þú kémur um mid-nætti, ad eg þá megi med trúarinnar oleó þér á móti gánga. Med því eg er einnig á medal þeirra, yfir hvørja þeſsa heims endir er kominn, þá lát mig med enda þeſsarar viku þenkja um ſáluhjálplegann underbúning, til ad bída med gledi þinnar tilkomu. Svo ſem þú elſkar þína allt

til enda, svo vert einnig hjá oss allt til enda veraldarinnar, eptir þínu allra trúasta fyrirheiti. Gef oss trúarinnar stödugleika í kjærleikanum; og lát þitt ord loksins uppfyllast á oss: hver sem stendur stödugur allt til enda, sá skal hólpinn verda. Þá viljum vér þig án enda prísa, þar sem þíns konúngs ríkis mun einginn endir verda. Gud heilagi Andi! minn lærimeistari, kénn mér nú heitt ad bidja Drottinn; kénn mér ad þenkja, ad þad hljóti ad hafa einu enda fyrir mér, ad mitt líf hafi eitt takmark, og eg hljóti ad víkja hér frá. Tilreid mig á hverju qvøldi til daudans, og lát mig aldrei í andvaraleysi til sængur gánga. Géf ad eg alltíd vænti uppá opinberan Jesú Kristí, hver mér einnig mun vidhalda allt til enda, ad eg sé óstraffanlegur allt á hans tilkomu dag. Skuli eg á morgun lifa, þá vek mig upp til eins andlegs lífs. Á morgun er Drottins hátíd. Bú mig til hennar í heilögum ótta. Á medal þessa, innsigla nú mína hvíld med nád og elsku míns Jesú. Breid þína vængi yfir alla mér tilheyrandi. Vert ljós þeirra sorgbitnu í myrkrinu. Létt erfidi þeirra mæddu. Gjör þad, ad freistíng þeirra sem krossinn bera, fái þann enda, ad þeir géti stadist. Lát alla menn þenkja um sinn dauda-dag, þá munu þeir aldrei framar vondt gjöra. Heilaga þrenníng! þín ár taka eingann enda, en hjá oss nálægist endir allra hluta. Æ! lát ecki vera oldúngis útgjört um oss, heldur lát þína miskunsemi vid oss, eingann enda hafa. Og nær endir vors lífs skal nálægast, þá lát oss koma til upphafs þeirrar stóru himnesku viku, sem þú hefur fyrir laungu þinni arfleifd fyrirheitid. Lát oss deya réttlátra

manna dauda, og vorn endir verda svo sem þeirra frómu, þá heitir þad svo: nær endirinn er gódur, þá er allt gott, Amen.



# Adrar Viku Bænir, Dr. Johannis Olearii,

úr Þýsku útlagdar, af

Mag. Þórdi Þorlákssyni, fyrrum Biskupi ad Skálholti.



## Sunnudags Morgun Bæn.

Eg lofa og prísa þig, minn Gud! af øllu hjarta mínu, ad þú mig á þessari umlidinni nótt, med vernd og vardveitslu þinna heiløgu Engla, hefur nádarsamlega bevarad, og látid mig á þessum Sunnudegi med gledi og heilbrygdi lifa, á hverjum þú hefur ei alleinasta í øndverdu ljósid skapad, heldur einneiginn er minn Endurlausnari á þessum degi, mér til réttlætis upp aptur risinn. Eg bid þig audmjúklega: upplýs mitt hjarta fyrir þinn heilaga Anda, med því endurlífgada ljósi þíns heilsusamlega ords, ad eg, sem ljóssins barn, þennann Sunnudag, edur

Sólar=dag, kristilega útendi, til lofs og dýrdar þeirri himneſku réttlætis sólu; og ad eg gledji mig jafnan vid þad eilífa gledinnar ljós í himneſkri dýrd, og endi svo um sídir þetta stundlega líf farsællega, ad eg á sídasta degi til eilífs lífs gledilega upprísa mætti, Amen.

## Sunnudags Qvøld Bæn.

Lofadur sé Drottinn, sem mig þennann dag svó nádarsamlega verndad hefur, og med fylgd sinna heilögu Engla farsællega leidt, einnig frá óteljanlegum háskasemdum sálar og líkama mildilega frelsad. Minn Gud! fyrirgéf þú mér nú allar mínar syndir. Bevara minn líkama og sál. Lát mig rósamlega sofa, gladværann og heilbrygdann upp aptur vakna, og þitt nafn lofa og vegsama um alla eilífd. Minn Gud! vertu og sértu ætíd minn miskunsamur Gud og Fadir, bú þú í mínu hjarta, bevara mig og alla mína á þessari nóttu, hlíf þú mér fyrir vondum og skélfilegum draumnm, fyrir óværdar vøkum, og óþørfum áhuga, fyrir þúngum og hneixlanlegum þaunkum, og fyrir allri neyd. Í þínar hendur befel eg minn anda. Þú hefur mig endurleyst, Drottinn, trúfasti Gud. Gud Fadir! þad sem þú hefur skapad, Guds Sonur! þad sem þú hefur endurleyst, Gud heilagi Andi! þad sem þú hefur helgad, þad fel eg nú í þínar hendur. Þínu guddómlega nafni sé lof, æra og dýrd; oss fridur, føgnudur og farsæld, nú og um alla eilífd. Sé nafn Drottins lofad og blessad, hédan í frá og ad eilífu, Amen.

## Mánudags Morgun Bæn.

Drottinn almáttugi Guð, Skapari himins og jarðar! eg þacka þér af hjarta, að þú hefur mig á þessari umliðinni nótt náðarsamlega verndað og varðveitt, og látið mig þessa góða dags ljós með gleði sjá, á hverjum þú hefur himinsins festingu skapað. Eg þacka þér þar fyrir, að þú leiðir mig fyrir þitt heilaga orð, frá þessu veraldlega, til þess himneska, og bið þig auðmjúklega, að þú látir mig, einkum á þessum mánadegi, það furdulega mánans edur túnglsins ljós, sem bæði vex og minkar, guðrækilega gaumgjæfa og athuga, og þennann dag með góðri heilsu, þér til dýrðar, en mínum náúnga til nytsemdar, útenda. En sérdeilis veittu mér, að eg varist alla illa umbreitíng og óstödugleika í trúnni og framferðinu, og þessu jafnframt það margvíslega mínkandi tilstand þinnar kristilegrar kyrkju á jørðunni svo í-hugi, að eg ætíð þar til stundi af hjarta úr þessum fallvoltum ófullkomlegleika, í ríki þíns eilífa ljóss og gledi að komast, fyrir Jesúm Kristum þinn elskulegann Son, vorn Drottinn og Herra, Amen.

## Mánudags Qvøld Bæn.

Lofaður sé Drottinn Guð og Faðir! sem mig þennann dag hefur með helbrygdi gleðilega útenda látið, og fyrir sinna heilögu Engla vernd frá øllum skaða og fári sálar og líkama náðarsamlega bevarað, sem mig á øllum mínum vegum og stigum varðveitt hafa. Minn Guð! fyrirgéf þú mér allar mínar syndir, fyrir Jesúm Kristum þinn elsku=

legann Son. Tak mig ad þér, ó gódi Gud! hjálpa þú mér j alskyns neyd, einkum þá lífid endar. Þú trúfasti hyrdir Ísraels, sem ár og síd verndar og vakir, þér befala eg minn líkama og sál, líf og heilsu, æru og audlegd, þad er allt í þinni hendi. Til þín upphef eg mín augu, hvadan mér kémur hjálpin. Mín hjálp kémur af Drottni, sem skapad hefur himin og jörd. Miskuna þú mér, mildi Gud! upplýs mín augu, ad eg ei í daudanum útaf sofni, þú sem lifir og ríkir ad eilífu. Eg leggst nú og sofna í fridi, því þú, Drottinn! alleina hjálpar mér, svo eg aldúngis óhultur búi og byggi undir þínu verndar-skjóli; Amen.

## Þridjudags Morgun Bæn.

Almáttugi Gud og eilífi Fadir! eg þacka þér af hjarta, ad þú hefur mig á þessari umlidinni nóttu nádarsamlega verndad og vardveitt, og látid mig heilann og heilbrygdann lifa þennann dag, á hverjum þú hefur sjáar-hafid frá því þurra adgreint, og ei sídur vatnin enn jördina med þinni blessan fyllt og frjófgad, þér til dýrdar, en mannkyninu til nytsemdar. Eg bid þig audmjúklega: lát mig jafnan þinn trúlyndann þénara fundinn verda, og med skyldugu þacklæti þessar þínar gódgjördir svo brúka, ad eg í þínum aldingardi, kristilegri kyrkju, ætíd blífi sem grænn og blómgadur olíu-qvístur, og ad eg alleina forláti mig uppá þína gjædsku og gódgyrni. Lát mig þennann dag med gódri heilbrygdi útenda, þér til dýrdar, en mínum náúnga til gagns og góda. Lát mig blómgast sem pálma-vid, undir krossins þúnga og alskyns ofsóknum, og

hvernin sem mótlætínganna bylgjur yfirdynja, þá lát mig þó jafnann af mér géfa óaflátanlega ávöxt trúarinnar, elskunnar, vonarinnar, og þolinmædinnar, þínu heilagasta nafni til lofs og dýrdar, og' ødrum til gagnsemdar og góds eptirdæmis, Amen.

## Þridjudags Qvøld Bæn.

Lofadur sé Gud! minn Herra og Fadir! sem mig þennann dag hefur látid útenda, og af skærri nád og miskunsemi mildilega vardveitt mig fyrir øllum háskasemdum lífs og sálar, og fyrir allri vondsku Djøfulsins og hans verkfæra, svo ad eg Guds gjædsku og trúfesti, med gladværum munni, má lofa, prísa og vegsama allt til nærverandi stundar. Hjálpa mér framvegis, minn Gud! svo er mer nógsamlega hjálpad. Hjálpa mér frá øllum mínum syndum. Hjálpa mér á sál og líkama. Hjálpa mér tímanlega og eilíflega. Minn Gud! vardveit mig fyrir allri ógn, hrædslu og ofbodi næturinnar. Vardveit mig fyrir skadlegum og skindilegum sjúkdómum, fyrir elds og vatns voda, fyrir brádum og óvísum dauda, og øllum óførum lífs og sálar. Vert þú hjá mér, svo þarf eg ei ad qvída, vertú mitt ljós og heilsa, vertú styrkur míns lífs, svo þarf eg ei fyrir neinu ad óttast; vertu mitt hjálpar-ráð, og lát mig ei rata í nockra óluckn, og einga plágu nálægast mínu heimkynni. Herra Jesú Kristi! bevara minn líkama og sál, fyrir syndum, skada og øllu íllu; lát mig rósamlega sofa, og vek mig upp aptur á réttum tíma, ad eg megi med gledi aptur sjá ljós morgundagsins, og á sálu og lífi blessadur, þig, mitt ljós, mín heill og líf, óaflátanlega prísa um alla eilífd, Amen.

## Midvikudags Morgun Bæn.

Eg lofa og prísa þig, minn Gud og Fadir! ad þú med þinni guddómlegri hlífd, hefur mér nádarsamlega vidhaldid, þessa umlidnu nótt, og látid mig þessa dags ljós med gledi og heilbrygdi sjá og lifa, á hverjum þú hefur skapad sól og túngl, þér til dýrdar, en manneskjunni til gagns og góda. Eg bid þig hjartanlega: Lát mig einnig þennann dag med gódri heilsu útenda, þér til dýrdar, en náúnganum til nytsemdar. En einkum og sérdeilis géf þú mér þitt guddómlegt almætti, vitsku, gjæsku, og miskunsemi, þacklátlega ad vidkannast, uppá þad þinn elskulegur Sonur, þad sanna ljós og sól réttlætisins, mætti mig einnig til eilífs lífs upplýsa. Og eptir þessa heims fallvalta og forgengilega veru, leid þú oss til þess eilífa ljóss og dýrdar, þar þeir ed ødrum kénnt hafa, munu ljóma sem himinsins geislar, og þeir mørgum vísad hafa á réttlætisins veg, sem stjørnur, ætíd og eilíflega, Amen.

## Midvikudags Qvøld Bæn.

Lofadur sé Drottinn minn Gud! sem mig einnig þennann dag hefur med gledi útenda látid sér til dýrdar. Minn Gud! fyrirgéf þú mér af nád hvad sem helst eg hefi þér á móti gjørt, med hugsunum, ordum og gjørdum, vitandi edur óvitandi, fyrir sakir dýrmætrar forþénustu og saklausrar pínu míns Herra og heilsugjafara Jesú Kristi. Vardveit þú mig fyrir øllum háska. Géf mér sætt ad sofa, gledilega upp aptur ad vakna, og eilíflega sáluhólpnum ad verda. Nád Fødursins stjórni mér, vísdómur Sonarins

endurnæri mig, kraptur heilags Anda upplýsi mig. Minn Skapari, stattu hjá mér; minn Endurlausnari, hjálpa þú mér; minn huggari, bú þú með mér og hugga þú mig. Drottinn blessi mig, og varðveiti mig; Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir mig og sé mér náðugur. Drottinn snúi sínu augliti til mín og gefi mér frid. Drottinn Gud! mitt ljós, mín heill, mitt traust og styrkur míns lífs, gef mér nú frid og ró, síðan sáluhjálplega endalykt, og eptir þetta líf, eilífa gledi, Amen.

## Fimtudags Morgun Bæn.

Eg þakka þér, almáttugi Gud og Fadir, ad þú hefir mig á þessarium lidinni nótt mildilega bevarad, og allt til þessa dags med gledi og heilbrygdi nádarsamlega sparad, á hvorjum þú hefur lagt þína yfirfljótanlega blessan yfir, fugla og fiska, og oss þar med þína nádar-ríka forsorgun téd og audsýnt. Eg bid þig audmjúklega: lát mig einnig þennann dag þinna gódgjörda med hjartans þakklæti vel njóta, og þitt guddómlegt almætti, vísdóm, gjædsku og miskun þar útaf gudrækilega íhuga, sem og þá hávegugu qvøldmáltíd vors Drottins Jesú Kristí, er hann á þessum degi innsetti, og hans dýrdarlega himna-før, sem líka á þessum degi skédi, ad eg þessu aldrei forgleymi, svo eg frá reidarþrumum þíns løgmáls fríadur, en fyrir þitt nádar-ríka Evangelíum endurnærdur og lífgadur, þér, til dýrdar, en mínum náúnga til nytsemdar lifa mætti, og þig óaflátanlega lofa og vegsama, hér stundlega, en sídan eilíflega, Amen.

## Fimtudags Qvöld Bæn.

Lofadur sé sá miskunsami Gud, sem mig þennann dag hefur med heilbrygdi kristilega útenda látid, og minn líkama og sál frá allri ólucku uádarsamlega verndad. Drottinn minn Gud! tak mig einninn á þessari nótt undir þitt födurlegt miskunar skjól, og bevara minn líkama og sál, æru og góts, frá öllu íllu. Géf mér sætt ad sofa, og heilbrygdum upp aptur ad vakna, þig ad lofa og prísa ad eilífu. Drottinn! þín hægri hönd styrkir mig, þitt réttlæti hughreystir mig, og undir vernd þinna armleggja hef eg mitt athvarf; þá eg legg mig til sængur, þenki eg til þín, því þú ert minn hjálpari, og undir skugga þinna vængja er mitt skjól. Mína sálu forlengir til þín; þín réttindi vidhalda mér. Minn Gud! veit mér á hverri stundu og augnabliki vidbúnum ad vera vid minni burtför, med því eg veit ecki nær koma muni mín sídasta stund, ad þú mína sál frá mér krefjir, edur med þeim einásta degi enda gjörir á þessari veröldu. Láttu mig á sídasta degi heyra þá gledilegu raust til min tala: eya! þú gódi og trúlyndi þjón, gack inn í fögnud þíns Herra; komid blessadir míns Födurs, og eignist þad ríki sem ydur er fyrirbúid frá upphafi veraldarinnar. Þad veiti Gud Fadir! fyrir Jesúm Kristum, í krapti heilags Anda, Amen.

## Föstudags Morgun Bæn.

Eg þacka þér minn Gud, og himneski Fadir! ad þú mig einnig þennann dag hefur lifa latid, á

hvørjum þú ecki alleinasta hefur skapad þann fyrsta mann eptir þinni eigin mynd, heldur og einnig mig í syndunum deydda og af Djøflinum herteknа manneskju, fyrir þíns elskulega Sonar blód og deyd á krossinum, frá syndunum, daudanum, Djøflinum og helvítis qvølum fríad og frelsad. Eg bid þig af hjarta: lát mig þennann dag, þínu nafni til lofs og dýrdar, og mínum náúnga til nytsemdar, kristilega útenda og hjálpa mér ad eg þvílíkri þinni elsku og trúfesti aldrei gleymi. Endurnýa mig daglega eptir þinni eigin mynd, ad eg huggi mig jafnan vid míns hjartans elskulega heilsugjafara blód og deyd, og Guds barna fríheit réttilega brúki, svo eg þig þar fyrir hér stundlega, en sídan eilíflega lofa mætti, Amen.

## Föstudags Qvøld Bæn.

Lofadur sé Gud minn Herra! sem mig þennann dag hefur kristilega útenda látid. Lofadur sé Drottinn! sem ei burtkastar minni bæn, og snýr ei frá mér sinni gódgyrni. Lofadur sé Drottinn! minn styrkur og athvarf, mín hjálp í þeirri stóru neyd, sem oss alla hefur nádarsamlega verndad frá øllu fári lífs og líkama, er oss hefdi kunnad ad snerta, edur oss snert hefur vitandi edur óvitandi. Eg segi þér lof, dýrd og þackir, þú hinn almáttugi, ad þú alla mína óvini sýnilega og ósýnilega hefur til baka rekid, og mig fyrir þeirra vondsku og sláttskap svo nádarsamlega verndad og vardveitt. Mitt hjarta er gladvært og mín sál prísar þig fyrir alla þína gjædsku og miskunsemi, mín túnga skal hafa sína rædu um þig, og ætíd svo segja: lofadur sé Gud og blessad sé hans heilaga nafn ad eilífu. Gud minn! fyrirgéfdú mér allar mínar

syndir, géf mér sætann svefn, vardveittú mig fyrir øllu íllu. Vek mig upp aptur med gladværd og heilbrigdi, og lát mitt hjarta, túngu og munn, þig lofa bædi nú og sídar meir um alla eilífd, Amen.

## Laugardags Morgun Bæn.

Eg þacka þér, minn Gud! ad þú hefur látid mig þennann dag gladværann og heilbrigdann sjá og lifa, á hverjum þú ecki ad eins hefur hvílst eptir fullendada skøpun allrar veraldarinnar, og hann helgad, heldur og einnig hefur þinn elskulegur Sonur, minn Herra Jesús Kristur minna vegna grafinn á þessum sama degi, hvílst í grøfinni, og mér þá eilífu hvíld útvegad. Eg bid þig audmjúklega: lát mig og svo þennann dag þér til dýrdar, en náúnganum til nytsemdar útenda, og þinn hvíldardag ætíd med hlýdni halda, og mig í dag af hjarta þar til reida og búa. Géf mér þá réttu sálarinnar hvíld og rósemi í Kristó Jesú. Lát mig uppá hans dýrmætu forþénustu med fridi og føgnudi um sídir skiljast vid þennann eymdardal, og í þína himneska hvíld og ævarandi Sabbatsdag inngánga, hvar eg þig, fyrir alla þína velgjorrnínga, lofa, prísa og vegsama megi ad eilífu, Amen.

## Laugardags Kvøld Bæn.

Lof sé þér, þú allra hærsti ódaudlegi Gud! lof sé þinni mildri gjædsku og mýskunsemi, lof sé þinni eilífu speki og sannleika, ad þú hefur mig á þessum degi, og allri þessari umlidinni viku fyrir øllum skada og háska lífs og sálar svo nádarsamlega bevarad, og til þessa tíma fødurlega vardveitt og vidhaldid. Eg bid þig, ad þú viljir þeirri gjædsku, sem þú hefur vid mig uppbyrjad,

náðarsamlega framhalda, og mig á þessari nóttu, undir þinni guddómlegri vernd, rósamlega hvílast láta. Guð vertu mér náðugur eptir þinni stóru góðgyrni, og afmá syndir mínar eptir þinni mikilli miskunsemi, láttu nú í dag, allar mínar syndir út af deya, undir eins og eg út af sofna, svo eg megi rósamlega sofa, gladværlega upp aptur vakna, og tilkomandi viku kristilega uppbyrja og útenda, þér til dýrdar, mínum náunga til nytsemdar, og mér sjálfum til gagns og góða, svo eg megi viss og óefadur vera um þína føðurlega trúfesti og miskunsemi, fyrir Jésúm Kristum. Herra Guð minn Fadir, eg befala nú minn líkama og sál, æru og góz, og alla mína í þínar hendur, varðveittu oss dag og nótt. Í þínar hendur fel eg minn Anda, þú hefur mig endurleyst, trúfasti Guð! þér sé lof og dýrd að eilífu, Amen.



## Dagleg Morgun Bæn.

Drottinn Guð! minn Skapari, minn Endurlausnari og minn Helgari! eg þacka þér af hjarta fyrir þína føðurlega náðar vernd, og þinna heilögu Engla himneska vöku og vaktan, sem eg hefi á þessari umlíðnu nóttu svo ríkuglega ødlast, þar ed þú hefur af þinni trúfesti mjøg dásamlega varðveitt mína sál og líkama, mína æru og góz og allt hvad eg hefi. Hér med hefur þú frá mér snúið svo óteljanlega margri ólucku og skélfíng, banvænum sóttum, og hverskyns háska sem mér hefdi kunnad til ad falla af elds og vatns voda, vondum mønnum edur skadlegum dýrum, einnig fordad mér við valdi og

vélum þess vonda óvinar Djøfu'sins og allra hans erendsreka; þú hefur frelsad mig frá allri neyd, sømuleidis brádum og íllum dauda, og hefur svo hjálpad mínu lífi frá tímanlegri ógjæfu og eilífri glötun. Nú bid eg þig audmjúklega: minn Gud og Drottinn! vertú mér nádugur vegna þinnar gjædsku, og afmá þú allar mínar syndir eptir þinni mikilli miskun. Virdstu framvegis á þessum degi ad gjøra vel til mín med þinni nád og gódfýsi, svo ad þín gjædska og trúfesti sé einnig þennann morgun og jafnan endrarnær yfir mér fersk og ný, líka sem ein fegurdar kóróna þinnar nádar og miskunsemi. Og svo sem þú hefur mig dásamlega forsorgad allt fra módur lífi, og gjørt mér allt til góda, svo virdstú nú einnig á þessum degi mín mildilega ad minnast med þinni fødurlegri blessan, svo ad þín nád og sannleiki rádi jafnan og stjórni yfir mér, tímanlega og eilíflega. Vardveittú mig med þinni almættis hendi, og leid mig med varatekt þinna heiløgu Engla, svo ad sá hreckvísi óvinur Djøfullinn fái einga makt yfir mér, med sínu helvítsku valdi, né med tilstyrk og íllrædum þeirra ógudlegu heimsins barna í nockurn máta, heldur ad eg mætti ríkuglega blessan hreppa, bædi til lífs og sálar, og verda svo øldúngis frí og frelsadur frá allri syndarinnar vondsku, tímannlegri refsíng, og eilífri fordæmíngu. Láttú minn gjørvallann vilja, vit og skynsemi, þad eg gjøri, og læt ógjørt, vera þínum heilaga vilja undirorpid, svo eg med heilsu og føgnudi, þad eina fullkomni á þessum degi og framvegis, sem þénar þér til heidurs, en mínum náúnga til góda, uppá þad, ad eg fyrir þína

náð, mætti í samfélagi allra hreinhjartaðra og útvaldra, lofa, heiðra, og vegsama þig, nú og um alla eilífð, Amen.

## Qvøld Bæn.

Lofaður sé Drottinn, minn Guð, og Skapari! sá sem mér jafnan atvinnu veitir, minn Endurlausnari og sáluhjálpari, minn helgari og huggari, hver mér einninn á þessum degi hefur svo ríkuglega auðsýnt sína furðanlega og yfirfljótanlega gjæðsku og góðgyrni. Drottinn! þér einum ber heiðurinn, þar eð þú hefur svo náðarsamlega bænheyrt mig, og á þessum degi auðsýnt mér og mínum svo marga og óteljanlega velgjørnínga, einninn føðurlega frá mér hrundið allri ólucku og háskasemdum, bæði til lífs og sálar. Eg bið þig auðmjúklega: að þú vegna þeirrar dýrmætu verðskuldunar og forþénustu þíns elskulega Sonar, Jesú Kristi, míns einka Endurlausnara og heilsugjafara, virðist að fyrirgéfa mér allar mínar syndir, með hverjum eg hefi bæði vitanlega og óvitanlega, á þessum degi, sem endrar nær, þig sárlega styggt og móðgað. Varðveittú mig nú á þessari nóttu, og alla tíma, undir þinni føðurlegri vernd og náðar-skjóli. Umkríng mig með vaktan þinna heiløgu Engla, og skjaldborg þess himneska herskara, svo sál og líkami, æra, góz, og allt hvað eg hefi, sé vel verndað og varðveitt. Snú þú frá mér hverskyns ólucku, skélfíng og skaðlegum sóttum, elds og vatns voða, einninn árás vondra manna, og ógn íllra dýra. Geym mig fyrir valdi og vélum þess hreckvísa óvínar Djøfulsins, og allra hans útsendara, og forða mér og mínum við sér-

hverri neyd, og brádum dauda, svo ad sála mín og líf mætti fullkomlega frelsast frá tímanlegri og eilífri gløtun og fordæmíngu; uppá þad, ad eg fyrir þinn nádugann vilja og velþóknan mætti med heibryngdi og glaðværd aptur sjá og skoda þad lystilega dags ljós, og þig sannann Gud Fødur, Son og heilagann Anda, vegna þinnar gjædsku og trúfesti, sídan óaflátanlega lofa, vídfrægja og vegsama, ásamt med þeim dýrdlega skara heilagra Engla og útvaldra Guds barna um alla eilífd. Amen.

---

## Eitt Qvøld Vers. (Hr. S. S. S.)

Lagid: Eilíft lífid er æskilegt.

O Gud! sem medur ædstum krapt, erfidi settir dag, en nótt til hvildar hefur skapt, og heldur því enn vid lag, af fødurlegri ástar rót, allt gott svo veitir þú, allt þó vér frømdum illt á mót, allt fyrirgéf þad nú, þinn engla skara nú í nótt, nálægist oss svo verdi rótt, vertú oss sjálfur Herra hjá, hjástod þin geymi oss best, best þegar lífid endast á, á þér vor trú sé fest, fest oss í ørmum þínum þá, þá er vís dýrdin mest, Amen.

## Annad Qvøld Vers. (Síra. Þ. Þ. S.)

Med sama lag.

Hylur oss nætur húmid enn, himinsins bjarta sól, þrefaldisi æra þín, Drottinn! þú sem oss veitir skjól; æ! vor misgjørda ótal ský, upprunnin þér til móds, dag=syndir allar drýf þú í, dauda haf Jesú blóds, hjálprædis tef ei hærsta gnótt, heilnæma géf oss værdar nótt, fel eg í þína hlífdar=høud, hús, qvinnu, menn og børn,

eigid lán, heilsu, líf og önd, líka minn ástvin hvörn, hvílðar og allskyns heilla grönd, heypti þin fridar vörn. Amen.

## Pridja Qvøld Vers. (Síra. H. E. S.

Med sama lag.

Dags lok nú bodar dimman svort, dauda hüm minnir á, sanna téttlætis sólin björt, síst hverf oss burtu frá, vort hid þúngbæra syndá safn, sem ällt til himins nær, fyrir þitt blessad frelsis nafn, forláta bidjum þær, send þú náttværdir sætar enn, sign og bevara hús og menn; ef oss burtkalla þóknast þér, úr þessum nætur blund, vilji þinn gódur verdi hér, en veit fyrir sjálfs þins und, í Abrahams fadmløg vikjum vér, á votri andláts stúnd, Amen.

## Daglegt Vers. (P. P. S.)

Med sáma lag.

Heyrdu nu hjartans málid mitt, minn Gud, eg hrópa á þig! elskunnar blessad auglit þitt; álit í miskun mig; útskúfa, Drottinn! ecki mér, ásjónu þinni frá, ørmæddur qvaka eg eptir þér, andsvør blíd lát mig fá: bænheyr mig, Drottinn! bænheyr mig, bænheyrdur svo eg heidri þig, yfirgéf mig í eingri neyd, adrir þó gleymi mér, um kríngi mig þin abslod greid, allt þó mér hafni hér, vertú mitt ljós í lífi og deyd, láttu mig fylgja þér, Amen.



